# I. VIÐ TÍMASKIFTI, MINNISLJÓÐ, LJÓÐABRÉF.

## NÝÁRSLJÓÐ.

(1888).

---

I.

Lyft þér, sál, meðan ljóma slær á tinda,
líttu mót rennandi sól:
líf fær hið andaða, birtu það blinda,
bundið fær athvarf og skjól;
brosandi kemur frá kraftarins brunnum
kærleikans eilífa glóð,
kyssandi gaddinn með millíón munnum,
mjöllin hún roðnar sem blóð!

Lyft þér, sál, meðan líf er til í æðum, —
lyft þér, mín elskaða þjóð!

Hefirðu' ei forsmekk af himinsins gæðum?
Heyrirðu' ei englanna ljóð?
Djúpið er sólbjart, og dalirnir fyllast;
dauðinn varð lífinu' að bráð.
Snú þér að ljósinu, lát eigi villast;
lífið er sigur og náð!

Fram, fram, fram, því nú flýr oss húmið svarta—,
fram, þó að lífið sé stríð.
Fram, meðan enn er oss hugur í hjarta,
hvetjum og frelsum vorn lýð!
Fram, fram, fram! Eigi veldur sá varar;
vesæld oss ógnar og smán.
Fram, fram, fram! Látum skríða til skarar:
skömm —eða sigur og lán!

Kom, kom kom! Rétt mér hönd þína, hlýri.
Höndin mín sjálfs er svo veik.
Sérðú ei Guð, þann er stendur við stýri?
sturlastu? Kinn þín er bleik.—
Allir sem einn! Ef að sundrungu syrtir,
sölnar og fölnar hver rós:
Allir sem einn! Ef að bróðerni birtir,
blessar oss árgæzku-ljós!

Burt, burt, burt með öll landráð úr landi,
launvíg og sérþóttu-stríð!
Hver er sá langversti framfarafjandi?
Fláræði, smásálar níð!

Þú átt við ísinn og eldinn að berjast,
útlæga, fámenna þjóð;
einráð og samlynd þú verður að verjast:
Vektu þitt kólnaða blóð!

Trú þú, trú á kraft þíns kyns og anda,
kappanna, sögunnar þjóð!
Trú þú, trú á ljósið allra landa,
lífsdraumsins himnesku ljóð!
Vaknaðu, vaknaðu, varpaðu' af herðum
vantrú og sundrung og hrygð;
gyrtu þig, skrýddu þig skínandi gerðum:
skörungsskap, sannleik og dygð!

---

II.

(1890).

Íslands lýður, upp að stríða,
upp að vígja nýjan dag!
Burt með vél og væl og kvíða,
vesældóm og píslarhag!
Finst þér þú sért enn þá ung,
eða gömul, stirð og þung?
Finst þér þú á þessum degi
þínum fagnir lukkuvegi?

Eins og svíkur særinn gljúpi
sólu fáðan báruleik,

meðan niðri' í dimmu djúpi
dauðamerkin felast bleik:
eins þig glepur ár og síð
*yfirborðið*, rúm og tíð;
finnurðu' ei um háls þinn helsi,
hygstu borgið öllu frelsi?

Hlaðin kaunum hleypidóma,
hvernig máttu ganga laus?
Aldrei þjóðir drap úr dróma
drembið skraf og heimskuraus.
Þó að laus sé hönd og háls,
hugsa ei, að önd sé frjáls,
eftir fjötur alskyns nauða,
ólán þitt og svartadauða!

Þar við bætist *lýgin* leiða –
lýgin klædd í sannleiks hjúp;
hræsnin, sem vill lýðinn leiða
lífsins fram á voðadjúp.
Gamla heimskan heiminn flær,
hræðir, glepur, kitlar, slær.
Hvað skal lengi gulli gjalda
gamlar flíkur dauðra alda?

„Þarna stendur þú, mín kirkja“
þjóðmæringur[1] forðum kvað;

1) ɔ: Jón Loftsson í Odda † 1197.

„hvorugt orkar hitt að styrkja,
hinir verða að gjöra það.“ —
Lítum vér á vora storð,
velja mættum svipuð orð.
Burt með trú í tjóðurhafti!
Trúin býr í dáð og krafti.

Trúðu frjáls á Guð hins góða.
Guð er inst í þinni sál.
Guð er ljós og lyfting þjóða;
lær hans eilíf Hávamál.
Hugsa fyrst um, hvað þú ert,
heilagt tal er minna vert;
rís á ný og rek á flótta
rökkurdrauma þrældómsótta!

---

III:

Í 1. tbl. „Stefnis“ 1903.

Runnið er nýár – rísið af svefni,
rekkar og meyjar, og heilsið „Stefni“!
Glóandi tindana geislar roða:
gleðilegt nýár ég kem að boða.
Gleðilegt nýár, þú góða barn,
grandi þér aldregi nótt né hjarn!
Signi þig nýfætt, sveipað og laugað,
sólin í gegnum móðuraugað!

Og gleym svo aldrei, þó sjáir hið svarta,
sjónhending þinni á ljósið bjarta.
Inndælis ár þér yngisdrós,
ilmur þú ver og landsins rós.
Blóm oss vantar með brosandi hýru,
blómstrin hjá oss eru meyjarnar dýru.
Stórhugans ár, þú sterki sveinn,
stefndu til frægðar, samur og hreinn!
Sælunnar ár yfir sveitir og fjöll;
sólskin og dögg fyrir gróinn völl!

Bjargræðisár, þú búmanna her;
blessun Guðs sé í verki með þér!
Friður og ár yfir fiskimið!
Fögnuður hryggum, sekum grið!
þroskans eld yfir ungar brár!
æskuvor yfir silfrað hár!
Samhugans ár! Í sundur, bönd!
Sundrung úr hjörtum! Ís frá strönd!
Lukkuár milli landsins horna!
Ljósið oss blessi kvöld og morgna!
Framfarir, bróðerni, friður og gagn
og frelsi með lifandi sannleiksmagn!
Og rísi svo allir með rögg af svefni,
rekkar og meyjar, og hjálpið
„Stefni“!

# Á GAMLÁRSDAG 1891.

Sem svanur stúrinn ég sit í búri við sólarlag,
með fornum gerðum og gömlu sverði ég geng í slag;
ég hlýt, ég verð að letra lag
um lífsins ferð, þennan gamlársdag.

Ég vildi gleðja og kanske kveðja þig, kæra þjóð,
en mörgu árin og svöðusárin mitt svæfðu blóð;
senn hrynur báran við hamraslóð
og heljarsjárinn — en deyja ljóð.

Ég hafði vilja með skyni að skilja, hvað skáldi ber;
ég brann í anda þá brosti landið og benti mér,
að skjóta brandi mót skapaher, –
en skildi' ei vandann, og því fór ver.

Og lengst af æfi á sollnum sævi mitt sigldi far;
við skort á þekking, við brask og blekking og barst um mar;
þess geldur hnekkis mitt gáfnaskar
að gæfan ekki mér betri var.

Ég skil nú betur og sé hvað setur, er sem ég óð,
hvað veröld fer og vera ber um vönduð ljóð.
En til hvers eru mér týgin góð,
ef tápið þver meðan kólnar blóð.

Enn sé ég voðann og bölva boðann, þú breyska öld,
að alt er glundur og tjá og tundur og trúin köld.

Sé bót ei fundin þá kemur kvöld,
þá kallar stundin á refsigjöld.

Í djúpi angur, hið ytra flangur ég ætla' að sé,
þá ýtar hæða þau æðstu gæði, en elta fé,
og láta ei mæða sig last og spé,
þó leiki' á þræði öll heilög vé.

Eg veit að trúin á virki fúin, það vantar bót.
O, lát ei teygjast svo losnir eigi við lífs þíns rót!
því bráðum eygir þú aldamót,
þá opnast vegir, sem létta fót.

Þú hyggur batni og bölið sjatni, sem betur er.
En sértu háður, og rögg í ráði til rýrðar fer,
og verkadáðin og viljinn þver:
þá visnar bráðum þinn karaktér.

Þú stenst ei stríðið er harðnar hríðin og hristist alt;
þá æsist bálið og tízkutálið og tildrið valt, –
þá veiklast sálin, sem verði kalt,
þá vantar stálið og lífsins salt.

Það ei er frelsi þó hrökkvi helsi af hálsi þér,
ef formið hylur og hrokinn dylur, hvað hjartað sker;
ei fyr þú skilur, hvað framför er
en frjáls er viljinn og heimskan þver!

En hvað eru ræður, ráð og kvæði, ef rögg er dauð?
Hin beztu gæði' eru' böl að græða og bæta nauð,

og láta flæða um landið auð,
af lifandi hæðum sálarbrauð!

Ó, kenn þeim ungu með tápi og tungu að tala satt!
þá birtir þokur og brotna okin svo brjóst er glatt;
þá fækka „pokar“ með pípuhatt,
og „peysan“ hokin fær upplit bratt!

Þér storðar synir, þér sterku hlynir, til stríðs eg kveð,
og hrundin bjarta með hreinu skarti og hauklegt geð:
Ó, legðu art við hvert lítið peð,
þá lyftist hjartað og Guð er með!

Þó ógni stríðin og tvísýn tíðin, mín trú er hraust
á sök hins góða og sigur þjóða, þótt sýnist haust.
Í lífsins óði býr endalaust
vor æskumóður og sigurtraust.

Mín hjartkær þjóð, þú átt mig í óði' og andvörp mín.
Hefji þig hróður hetjumóðir, uns heimurinn dvín!
En sel eigi blóð fyrir sora-vín
og sveltu' ekki góðu börnin þín!

Og sjáðu um hið góða, göfuga, fróða ei gangi enn ver,
en eigðu syni af konunga kyni og kempuher,
og sannleiksvini, er sóma þér,
uns særinn hrynur þars landið er.

Mitt fósturland, ég lít þig í anda, svo lagar brá;
hve sárt er feigum að sjá ei mega, hvað seggir þrá;

hve greiðast vegir og giftan há
og gullinu fleygir koll þinn á!

Þökk fyrir árin, alt eins tárin sem angursbót,
hvern gullinn tind og glaðan rinda, sem glóði mót,
og svalalindir og sæluhót
með sól og yndi í hjartans rót.

Þökk fyrir ljóða-gullin góðu með gæðin flest,
þökk fyrir málið, sem var mín sál og svölun mest;
Þess glóð og stál er brjóstlyf bezt
uns banaskálin að vörum sezt.

Kveð ég svo lýð og bið að bíði hvert böl og tár;
heilagur andi á legi og landi lækni sár!
Eining í vanda, unaður hár
í elskunnar bandi! Gleðilegt ár!

---

## JÓLIN 1891.

Fullvel man ég fimmtíu ára sól,
fullvel meir en hálfrar aldar jól,
man það fyrst er sviftur allri sút
sat ég barn með rauðan vasaklút.

Kertin brunnu bjart í lágum snúð,
bræður fjórir áttu ljósin prúð,

mamma settist sjálf við okkar borð;
sjáið, ennþá man ég hennar orð:

„Þessa hátíð gefur okkur Guð,
Guð, hann skapar allan lífsfögnuð,
án hans gæzku aldrei sprytti rós,
án hans náðar dæi sérhvert ljós.

Þessi ljós, sem gleðja ykkar geð,
Guð hefir kveykt, svo dýrð hans gætuð séð;
jólagleðin ljúfa lausnarans
leiðir okkur nú að jötu hans."

Síðan hóf hún heilög sagnamál,
himnesk birta skein í okkar sál;
aldrei skyn né skilningskraftur minn
skildi betur jólaboðskapinn.

Margan boðskap hef ég hálfa öld
heyrt og numið fram á þetta kvöld,
sem mér kveykti ljós við ljós í sál, —
ljós sem oftast hurfu þó sem tál.

Hvað er jafnvel höndum tekið hnoss?
Hismi, bóla, ský, sem gabbar oss;
þóttú vinnir gjörvalt heimsins glys,
grípur þú þó aldrei nema fis!

Ársól hver, sem öllu fögru hét,
ætíð hvarf á meðan rósin grét;

vorið hvert, sem bauð mér betri hag,
brást mér löngu fyrir vetrardag.

Lukkan sagði: „Vind upp mína voð:
veröld alla gyllir sólarroð;
fyrir stafni leiftra sérðu ljós,
lukku þinnar frægð og sigurhrós!“

Hvað varð úr því öllu? Last og hrós,
óró, blekking, trufl og villuljós!
Hafi nokkur hreinan sálarfrið
hjartafeginn skifti ég hann við.

Þessi fáu, fölu lukkublóm
fælast lífsins kalda skapadóm;
alt vort hrós í hreggi veraldar
hrekst á milli drambs og öfundar.

Loks er eitt það „evangelíum,“
er oss býðst hjá tímans vitringum:
„Trú er hjátrú, heimur töfraspil,
himinn, Guð og sál er ekki til!“ —

Ljá mér, fá mér litlafingur þinn,
ljúfa smábarn; hvar er frelsarinn?
Fyrir hálmstrá herrans jötu frá
hendi ég öllu: lofti, jörðu, sjá!

Lát mig horfa á litlu kertin þín:
Ljósin gömlu sé ég þarna mín!

Ég er aftur jólaborðin við,
ég á enn minn gamla sálarfrið!

---

## JÓLASÖNGUR 1891.

Nú hljómar dýrð frá himni og jörð
með hósíanna og þakkargjörð,
því bindum strax vort bræðralag
og bjóðum Jesú góðan dag.

Vér hyllum þig, ó, blessað barn,
þú brosir yfir dauðans hjarn,
svo kuldinn ber oss kærleiks arð
og klakinn snýst í aldingarð.

Þú brosir, – jörð og himinn hlær,
og hjarta hvert af gleði slær;
þú talar, – böl og beiskja þver;
þú bendir, – allir lúta þér.

Þú blessar, – heift og hatur flýr;
þú horfir, – syndin burtu snýr;
þú kallar, – dauðir kasta hjúp;
þú kennir, – lífsins skína djúp!

Þú biður: „elskið aðra heitt,"
en ætlar sjálfum þér ei neitt.

Þú býður: „ef þú elskar mig,
þá elska þann sem hatar þig!“

Í þér vér sjáum þýðing lífs,
í þér vér fáum bætur kífs
og skipan hneigjum skaparans,
er skilja vegir Guðs og manns.

En því eru ótal augu blind
og ennþá nóg af böli og synd?
Ó, Jesú, enginn enn þig fann,
sem ekki þekti kærleikann.

Þú herrans barn, sem boðar jól
og birtir hverju strái sól:
ó, gefðu mér þann gæfuhag,
að geta fæðst með þér í dag!

---

## JÓL 1894.

Kom enn blessuð,
börnum-glaða
hátíð hátíða
himinrunnin!
Lyft, lífsviður,
ljósabarri
hátt frá hálmi
húms og dauða!

Séð hef ég þinn
sextigu vetur
ljósbaðm lýsa

lýða hreysi,
séð Yggdrasil
andans heima
yfir eilífs lífs
Urðarbrunni.

Leit ég hann fyrst
í litlu kerti
meinlaust barn
við móðurkné;
þá var ljós, ljós,
og ég lét mér nægja
lítinn stúf, –
því mér lýsti Guð!

Sá ég seinna
suður með Englum
jólahallir
jörmunháar
logum lýstar
og lýsigulli,
skrúði og skrauti,
svo að skar í augu.

Grét ég Guði
góðum tárum
minnugur minna
móðurbygða
„Vert' að veröld",
varð mér að orði, –
„glottað get ég
að glysi þínu".

Guð einn gefur
gleðileg jól;
saklaus lítur að litlu.
Jesús sjálfur
jötu bygði:
hví þarf „bazara" barn?

Sá ég lengi,
sé ég ennþá
ljós þín loga,
ljúfa njóta, –
fegurst loga
þars lýða synir
frómir í sinni
fátækt lifa.

Hygginda sál,
sem í húmi starir
lúin og leið
á ljósaskiftum:
hverf til baka,
ver barn á ný,
svo að þitt Guðsljós
glæðist aftur!

Les og lít
í letri fornu
hærri speki
en spiltra tíma,
dýpri spám
drembins hjarta,
innilegri
efans fræði !

Kveykið mér jól
í Jesú nafni:
elska, yndi
og æskuljómi!
Bú oss í brjósti
blessað guðspjall,
blessað guðspjall,
þú ert barnið í oss!

## Á JÓLUM 1896.

Tindraði nótt
yfir Tárusfjalli,
horfði á Hermon
heilög stjarna,
þrumdi Líbanon:
Þúsund ára
dreymdi dikt
Davíðs hörpu.

Féllu þeir fram
og færðu gjafir
góðu barni,
gull og myrru,
hlýða hljóðir,
en hjarðmenn boða
blíðan frið
yfir blóðgri jörðu.

Komu vitringar
vegaleysu,
rekjandi rás
reginstjörnu,
fundu heilagt
hús og jötu
og blessað barn
á brúðar skauti.

Hurfu á braut síðan,
börn í hjarta,
gleymdar götur,
gripnir ótta.
Hvarf þeim Hermon
og heilög stjarna,
en hrygðarhljóð
hvein í Rama.

Dundu náhljóð
af níðingsverki
Heródesar
heiftum-kunna;
druknaði dýrð
drottins söngva
í banablóði
brjóstmylkinga.

Og enn tindrar
frá Tárusfjalli,
og enn stafar
stjarnan helga,
og enn þrumar
þúsund ára
draumur Davíðs
dýrðarljóma.

Og vitringar
vegaleysu
rekja Guðs
regindóma,
falla fram,
færa gjafir
barni Guðs,
gull og myrru.

Og enn aftur
ógn og veinan
rymur í Rama,
roðnar Tárus;
sefur son Guðs
sætt í reifum,
en sínu fram fer
synd og dauði.

Son Guðs, son Guðs,
sof eigi lengur,
birt oss Guð
yfir blóðgum Tárus!
Heilög sól
yfir Hermons tindi
brunaðu fram
yfir bólstrum dauða!

Hringjum, hringjum,
himinsöngvar
tóni hátt
yfir tár og dreyra!
Dynur dýrð Guðs,
dagar á Hermon,
benda frá Betlehem
barnafingur!

Fyrir þeim fingrum
fjöllin bráðna,
en sól kyssir
Sarons rósir;

friðast fólklönd,
en fölnar Dauði.

Hringjum, hringjum
til helgra jóla!

## FYRSTI SUMARDAGUR 1891.

Kom heitur til míns hjarta, blærinn blíði!
Kom blessaður í dásemd þinnar prýði!
Kom lífsins engill nýr og náðarfagur,
í nafni drottins, fyrsti sumardagur!

Vorgyðja ljúf í ljóssins hlýju sölum,
þú lífs vors líf í þessum skuggadölum,
öll skepnan stynur enn við harðar hríðir
og hljóðar eftir lausnarstund um síðir!

Eg sé þig sjálfa, dísin dýrðarfríða!
Frá dyrum lífsins skín þín engilblíða;
eg sé þitt hús við sólar skýjarofin,
eg sé þinn ársal rósaguðvef ofinn!

Þú komst frá lífsins háa helgidómi,
en hollvin áttu' í hverju minsta blómi;
í hverju foldarfræi byggir andi,
sem fæddur var á ódauðleikans landi!

Þú kemur, — fjallið klöknar, tárin renna;
sjá klakatindinn roðna, glúpna, brenna!

Kom, drottni lík, í makt og miklu veldi
með merkið sveipað guðdóms tign og eldi!

Kom, líknardís, og tín upp alt hið týnda,
hið tvista, gleymda, hrakta, spilta, pínda!
nærkona[1] kom og legg nú lausnarhendur
við lífsins mæður: fjöll og höf og strendur!

Kom til að lífga, fjörga, gleðja, fæða,
og frelsa, leysa, hugga, sefa, græða.
Í brosi þínu brotnar dauðans vigur,
í blíðu þinni kyssir trúna sigur!

Kom, vek mér líf úr þessum þurru greinum
og þíddu korn úr jökulrunnum steinum!
Og eitt er enn: hin djúpa dulargáta:
lát Dauðann tala, Helju sjálfa gráta!

Það kantú ei. En kann ég rétt að biðja? —
Eg krjúpa vil að fótum þínum, gyðja!
Um eilífð vari æska þín og kraftur,
þótt aldrei *mína* rós þú vekir aftur.

Eg fagna þó; eg þekki, hvað er merkast,
og þykist sjá, hvað drjúgast er og sterkast,
að það, sem vinnur, það er ást og blíða.
Haf þökk míns hjarta, sumargyðjan fríða!

1) **Nærkona: yfirsetukona.**

# FIMMTÍU ÁRA AFMÆLI ÞJÓÐÓLFS
## (1848 – 1898.)

---

Skógarlundur og fögur útsýn bak við. Vatn eða fjörður milli grænna hlíða; sólskin á tindum.

(Músik. – Þjóðólfur kemur inn úr skóginum. Hann hefir staf í hendi, feld yfir sér og í ferðabúningi. Hann er rösklegur maður og þrekinn, en nokkuð hniginn og hvítur á hár og grön. Hann hneigir áhorfendunum og styðst fram á staf sinn).

---

Þjóðólfur:

Hér kemur fimmtugur ferðalangur.
Friður og eindrægni! Sælt og blessað
sé fólkið allt! — En ekki' er eg svangur,
þyrstur né þreyttur. En þó skal nú messað.
Eg ætla eg héti því einhverju sinni,
ef eg mætti þeim aldri ná,
að segja' ykkur eitthvað af æfinni minni
og hygg þar sé saga að segja frá. —

Það er ótrúanlegt, hvað gleymskan er gráðug!
Hún er gríðarleg hít, og sú þjóð er náðug, —
sú þjóð er flón, sem vill fylla hana
fremur en þarf, og af sljóleiksvana
hirðir ei vitund að hafa skrifað,
hugfest og staðfest, hvað hún hafi lifað,
hvað hún hafi viljað, hvað hún hafi barist,
hvað hún hafi unnið, hvað týnst hafi og farist.

Og er það nú á annari' eins tíð.
Eg er öldungis viss um, að fyr og síð

frá landnámsöld og til okkar daga
varð aldrei í heiminum meiri saga
en þessi mín förnu fimmtíu ár
frá því eg var með glóbjart hár,
og Melsteð sagði, (er þeir voru að þrátta):
„ÞJÓÐÓLFUR hann heiti!“ – Það var *fjörutíu*
og *átta*! –

Það liggur við að eg yngist upp aftur,
er æskunnar minnist. Hún er sá kraftur
sem betri' er en „Brama“ – endist þér út
æfina, sértú ei fæddur í kút! –
Eg segi það satt, þá var líf í landi
og ljómandi tíð með gull í mund,
með trú á lífið og líðandi stund;
og þá tímdi þjóðin að fara á fund.
Því fjörið og viljinn var sívakandi,
hver hamar kallaði: „Hvað seg'r hann Jón?“
Og „Hvað er svo glatt“, eða „Farsældar-frón“.
Menn hlógu, menn sungu, – af hverju vissi' enginn.
Menn hældust um sigur, sem ekki var fenginn.
Það var *tilhugalíf*, og „frelsið hið fríða“
hét frúin hin bjarta, sem um skyldi stríða.
Menn vissu' hún var ung, menn vissu'hún var fögur,
sem víkingaljóð eða fornaldarsögur;
en hitt vissu fæstir, hvort hún var frönsk,
húnsk eða ensk eða skozk eða dönsk.
En sögn gekk þó en í manna minni,
að mærin væri' íslenzk – frá fornöldinni,

en síðan hefði flúið frá sínu láði,
og sæti fyrir Dani í Kóngsins ráði!

Mikið var þó búið (þó meira stæði til)
*Magnús* hafði skrifað sinn stjórnlausa hyl,
endur fyrir löngu' og „Fjölnir“ hinn frægi
var fallinn og genginn líkt sól í ægi,
þá *Baldvin* og *Tómas* menn töldu farna,
tekna upp í goðheim með *Jónas* og *Bjarna.*
En hvað þá? Þeir *lifðu* – lifa enn;
þeir lifa þótt deyi svo ágætir menn!
*Jón Sigurðsson* var ungur og alsherjargoði,
og eftir hans tillögu, ráðum og boði
brunuðu ávörpin beint yfir sjá,
þau er boðuðu *þjóðfund* og *stjórnarskrá!* –

*Þá* var eg fæddur. Ó annað eins ár
aldregi deyr meðan veröldin stár. –
Þér frumherjar, andar, frá *fjörutíu og átta*:
Fram, fram, og syngið oss remmislag!
Ómið oss frelsisins bardaga brag,
frá því er eg var fáeinna nátta!

---

(Fjórir til sex menn í útlendum þjóðbúningum og léttvopnaðir, koma inn, hver úr sinni átt. Þeir taka höndum saman á sviðinu og syngja, en ÞJÓÐÓLFUR hopar til hliðar á meðan):

Lagið: Sol er oppe. Skovens Toppe. (Grundtvig).

**Skjálfa löndin, bresta böndin,**
**böðvar glymja remmitól.**

Heljar voði, bana boði,
blóði litar morgunsól.
Nötrar gervöll Norðurálfa,
nöðrukyn og böðlar skjálfa.
Heyrið Skuldar skelfidóm!

Þjóðin Frakka fyrst hin rakka
féndum vekur heiftarblóð.
Tíu — vegna — þúsund þegna
þekur moldu borgin óð.
Harðstjórn lýðir hrópa seka,
Hlöðve konung brottu reka.
Þá var hafið Hildar-ár.

Bálið æðir, yfir flæðir
Austurveg og þýðversk lönd.
Kossúth hrópar, Habsborg hótar;
hræðast jötnar guðsins vönd.
Holtsetar að vígum vaða,
virkin fornu Jótar hlaða.
Dynur blóð, en hristist Höfn.

Norður að Thúli, neðst á Púli,
neistar fljúga af Signu slóð.
Garibaldi, goðum aldi,
geysar fram að leysa þjóð.
Sömu mundir sóknum stýra
sveinar Brjáns á storðu Íra.
Hvaðanæva gýs upp glóð.

Bundnir vakna sólar sakna,
sundur járn og múra slá,
myrkrum yfir ljósið lifir;
ljós og sannleik má ei þjá! –
Blessað ár, sem böðla hrakti!
Blessað ár, sem dauða vakti!
Blessi þig hver þegn og þjóð!

---

(Þeir fara, hver sína leið, eins og þeir komu. ÞJÓÐÓLFUR kemur fram sem fyr og heldur áfram).

Heyrðuð þér óminn? En hlustið þó á
þótt hjá oss sé smærra að segja frá.

Fyrstur var *Sveinbjörn* (því síðar kom Jón),
að setja' í mig stafina og kenna mér ganginn.
Léttur var eg snemma, litli anginn.
Og hljóp eins og sendill um holt og frón.
En ei var í þann tíð svo greiðlegur gangur,
gistingin misjöfn og oft var eg svangur.
Þá sendu menn til flýtis sín hraðboð til Hafnar,
að herma fyrir *austan*, hvað segðu „þeir nafnar."
Brýr voru fáar og grjótugar götur,
þá gengu' allir 'póstar sem flakkara tötur.
Og stirðari voru þá stjórnarskrárnar.
Þá stöðvaðist eg viku við Hellirárnar!
En svo komu dagar, og svo komu ráð;
svona var að lifa upp á Kóngsins náð! –

Nú fór eg að kynnast og koma mér betur,
við konurnar einkum. Því alla þá vetur

leiddi mig hann Sveinbjörn minn, ljúfur og glaður,
lystugri fæðist ei blaðamaður!
Hann lék sér með allskonar bernsku-brall;
Baulu lét hann skammast við Ingólfsfjall;
og kotunginn hló sig úr kryppu og dróma,
og kerling hans jós í mig floti og rjóma.
Og við það mín frjálslund og „frísprok« svo dafnar,
að fóstri og ég máttum sigla til Hafnar.
Þá hló séra Sveinbjörn, og „Hljóðólf“ mig nefndi
og heit sitt, að gugn' ekki, drengilega' efndi. –

En svo kom hinn halti, en harðvígi *Jón*,
sem hnúum ei sparði að manna þig, frón!
Fyrir alvöru varð eg þá búenda blað,
og eg bý enn í dag þeirri röggsemi að.

Þjóðfundarárið er mér í minni
á meðan eg held mínu gamla skinni:
Þá voru drengir til snarpir og snjallir;
því aldregi vakti hjá Íslendingi
alvara og þjóðfylgi meira' á þingi
en þegar við blikandi byssustingi,
bændurnir æptu: *„Vér mótmælum allir“*,
þeir Hannes og Halldór, þeir Herrans þjónar,
hopuðu í þann tíð ei meir en þeir „Jónar“.
En fljótt komst þó aftur á friður að kalla;
þótt fykju nokkur embætti, tel eg það varla.

Svo héldum vér áfram með Hjaðningavígin
um heimastjórn vora og annað frelsi,

hvert þing átti að sníða hvert haft og helsi.
En heit eru völt, og pólitíkin lýgin,
og knappari en gullvigt er konunganáðin.

En loks eftir veraldar-vastur og raus
er verzlun vor heiminum gefin laus, —
sem Brimarhólmsgarmi sé gefinn sinn haus,
er hann átti áður. En rík eru *ráðin!*

Svo rýmkuðust böndin. En nú kemur *kláðinn!*

Hvað er um hann? — Það var hryggileg tíð
með hörmung og vandræði, deilur og stríð.
Svo margur hneig félaus og feigur á grund
eftir fáheyrðar skapraunir alla þá stund.
En eitt ætti þjóð hver af þraut sinni að læra,
og það ættum vér oss í nyt að færa:
Að alls eigi stoðar hið ytra frelsi,
ef eftir er að slíta vort siðferðis-helsi,
vekja vora eining og þjóðskyldu-þekking,
og þíða vora tortrygni og sérgæðisblekking.
Svo tengist saman viljinn, og trygðin og dáðin,
tápið og vitið og snildin og ráðin.
Samlyndið er öllum til sigurs og hags,
og sérhver á að lifa öllum til gagns.

Og *þetta* skyldi einmitt oss kent hafa *kláðinn!*

Af mér um þær mundir er minna að segja:
Við möluðum og jöguðum — vildum ekki þegja,

og hræddumst hvorki *Hjaltalín* né *Halldór,*
né heldur sjálfan *forsetann,*
sem inn kom þá með annan mann,
og bændum þótti verða nokkuð valdstór! –
Svo leið og beið, og loks kom hlé
á landsins plágu – nýjar tíðir,
sem láta skyldu líkn í té,
og lina fólksins böl um síðir.

Nú þeysti í garð vor *Þjóðhátíð,*
og þúsund ára lestin nemur
sér stund og stað og – *Kongurinn kemur,*
hann heilsar blíður landi' og lýð.
„Með frelsis skrá í föðurhendi
þann fyrsta konung Guð oss sendi.“

Ég „cítera“ ekki Esaías,
mín orð eru eftir *Matthías,*
sem kvað fyrir fólkið konungsbögur,
og keypti mig árið *sjötíu og fjögur.*
En daga hans var mig minna að marka:
Matthías kunni aldrei að þjarka;
en vel er mér til þess veslings manns;
hann vildi hið bezta „ört til sanns“! –

Og nú tókst skriðið, því nú kom „skráin“.
og nú kom dálítið meira en þrefið;
nú kom viðleitnin, þörfin, þráin
að þokast úr sporunum fyrsta skrefið.

Á fjórðungi aldar sem frá því er liðinn,
er fleira og meira búið að starfa
til menningar, hagnaðar, þrifnaðar-þarfa,
en þúsund ár áður — mæld og sniðin!
Svo eru menningar-meðölin nú
ef menn hafa vilja, frjálsræði og trú!
Og þetta' er þó hégómi njá því sem kemur
er hendurnar liðkast, og fólkið nemur
og skilur sitt hlutverk, og heild þess semur.

Eftir Matthías komst eg í *Kristjáns* greipur;
kem svo til *Jóns*, er lengi var sleipur,
Ólafssonar, en ástir feldi
hann ekki við mig, og *Þorleifi* seldi.
Hjá Þorleifi fóstra þreifst eg vel.

Og þar með kýs eg söguna' að enda.
En hvar sem eg á að lokum að lenda,
honum *Hannesi* mínum eg forlög mín fel.

---

Hann hneigir sig fyrir áhorf., og hopar aftur á sviðinu. Þá koma fram úr skóginum vel búnir sveinar og meyjar, er raða sér með ÞJÓÐÓLF í milli sín, og syngja.

Þigðu nú þakkir,
ÞJÓÐÓLFUR kæri!
Hálfa öld hefur þú
hjörvinum beitt.
Aldrei á flótta
fimmtíu vetur
hefur þú hopað
hænufet eitt.
Fyrstur og fremstur
fram barstu merkið —
þjóðblað og þingboð —
þrekinn í lund.

Þunt var um stangir,
þröngt var um hjarta,
ferlegir féndur,
fjölmarga stund!

Ljómaði sjaldan
sigur á spjótum,
sem var í sóknum
síðvakin þjóð.

Svikinn af sínum,
sóttur af féndum,
frumherji fyrri
féll eða stóð!

---

**Meðan 2. eða 3. erindið er sungið kemur Fjallkonan fram. Hún er fögur og faldbúin, og ber blómsveig mikinn í hendi. Hún nemur staðar við hlið ÞJÓÐÓLFS, en söngurinn viðhelzt.**

Beyglur og barsmíð,
bakslettur, frumhlaup
þín voru þinglaun,
ÞJÓÐÓLFUR oft!

Þó léztu jafnan
þjóðfrjálsa merkið
hugprúður kyssa
himinsins loft!

---

**Nú leiðir Fjallkonan ÞJÓÐÓLF fram á sviðinu og leggur kransinn á höfuð honum, meðan flokkurinn syngur:**

Þigðu nú þennan,
ÞJÓÐÓLFUR kæri!
Fjallkonan færir
fornvini krans:

Gleym- mér- ei, gamlir,
græsmára, ungir,
brúðir með börnum
bláklukkna fans!

Liljur frá leiðum
látinna vina
þeirra, sem þráðu
þjóðfrjálsa tíð. –

Hjartablöð hnýtir
heilladís foldar
höfði, sem háði
hermannlegt stríð!

---

[Nokkrir af flokkinum hefja nú ÞJÓÐÓLF á „gullstól“ og ganga með hann í kring, en Fjallkonan fer fyrir].

Feður og fóstrar
frelsis og dáða,
líf yðar lengi
lofstöfum þjóð!
Blómsveigum búnir,
bornir á höndum,
svífið þér gegnum
sagnir og ljóð.

Öldina fyltu
fimmtíu næstu,
ÞJÓÐÓLFUR, þreföld
þjóðsældar-ár! –
Fjallkonan fríða,
fullhugans sæmdu
heilögum kossi
höfuð og brár!

– Fjallkonan kyssir enni ÞJÓÐÓLFS. Tableau. Finale [musik] – Tjaldið fellur.

---

## ANDERSONS-FLOKKUR.

Til K. B. Andersons, sendiherra. Um nýár 1889.

Þik kveð ek, Leifs, at lofi,
landsmaðr fyrir ver handan,
kappsnúinn, hins er heppinn
heim fann Bandageima!
Engi hefr þér yngri
annarr skörungr manna
unnit svát afrek kynnisk,
Anderson, Norðurlanda.

Brann at Mímisbrunni
barnungum þér sagna –
guðamóðir í geði,

gæðingr, várra fræða;
brann, þik sjálfan sýna
svárþátt Haralds áttar,
snotr með snild ins vitra,
snillingr, Skáldaspillis.

Fór með fremd ok tíri
faðir þinn liði sínu
fyrstr í för at austan.
frændríkr, Noregs bænda.
Fylgdi Freyja Baldri,
fríð snót, systir Jóta;
var-at göfugri gefin
góðdreng, en þín móðir.

Ung á óðalsvengi
ól, vestlægrar sólar,
arfa snót, at erfa
Egils þrek ok heyja.
Minna mik at sönnu
mest landnámin vestra
Fróns á fyrstu sona
frumskjól manndómssólar.

Brann þér blóð í kinnum
beztu þjóðar ins góða,
(vöxtr þér vóx í æsku)
Vínlands (þreks og andar);
Svát tvetögr of tiginn

tókt' stól meginskóla,
yngissveinn með ungum,
orðhraðr kennifaðir.

Lýsti sól in sæla
sveini bráa steina
(undrask tók þinn andi)
Ólymps frá véstólum.
En frá Urðarbrunni
önnur, samlandsmönnum
hulin, með helgu hveli
hlæjandi reis úr ægi!

Þá var bjart er í birtu
Bifröst stóð ok hifinn,
Valhöll, Iðavellir,
Van'heimr, Jötungeimar.
Lutu nú inum nýju
norðljósum suðrrósir;
styrk flýðu Þóars sterka
stórvirki Forngirkir.

Hrökk sjálf Herkúls kylfa,
hamar skók Þórr inn rami
(ásmóðar vas í æði
ofrhuginn) ok laust Dofra.
Sáttu hve setberg slétti:
sundraðist fold, en dundi

(myndar fékk móður strindi)
„mánavegr und hánum".

Lúfa með líf ok sögu
leið fram, skein við heiði
roðin vigraváða,
víkingatíð ok ríki;
ok stórvirki styrjar
stýrenda, feðra skýru,
borin sátt' björtum tíri
brautu himinskauta.

Varð þá hitt, at heyrðir
hreim úr segulgeimi:
fríð ok fránleit sýnum
Fjallkonan hófsk in snjalla!
Hvat? Kemr varmt frá vetri?
Vex auðr of ná snauðan?
(Andi þinn kvað með undran).
Íspóll skín við sólu!

Satt er at þjóðir sóttu
seim til Indlandsgeima;
vestan fékk spjöll ok spilling
Spánn með silfri fránu.
En Fjallkonan fyllri
fésnauð býtti auði
Edda þás alþjóð gladdi
óðsling ok Heimskringla.

Nú vas-at beðit boða;
brann þér, æskumanni,
glóð í frömu geði,
gagn vinna sjöt bragna.
Né einn síðan séðan
snarpari hef ek garpa
auð ok orðstír glæða,
Anderson, Norðurlanda.

Austræna hefirðu hreysti
hugþrekinn í arf tekit;
vestan þú fékst inn fasta
frjálshug ok táp sálar.
Ok frumlögin frama
friðar ok sannleiksiðju,
óskmögr, namstu í æsku,
Anderson, þjóðar Banda!

Sit heill, (hátt er sæti,
hróðmögr fjögra þjóða)
fulltrúinn frelsisvalla,
frjáls, með gullinhálsum!
Haf í hug ok lífi
(hál eru ríkismálin;
manngi kveðr Urðar orði)
óð norrænna þjóða!

Þigg nú, ljóðvinr ljúfi!
lofflokk góðum þokka;

brag hef ek, stuðlum sleginn
slungit á Snorra tungu.
Nýárs huga hlýjan,
hamingjuósk með frama,
Anderson, þér sendir
sól frá Heklustóli!

---

## MINNI KRISTJÁNS IX.

15. nóv. 1888 (25 ára stjórnar hans).

---

Við Eyjafjörð, við Egeifs forna haf,
við Englands hirð, hjá Rússans veldisstóli
í dag er sungið: Guð þér ríkið gaf,
vor góði, mildi, tigni Danasjóli!

„Fyr rétt og sannleik“ ríkis- barstu vönd,
og ríki þitt varð kraftur, stilling, mildi.
Af krónu þinni ljóma slær á lönd,
þú landsins faðir með þeim hreina skildi!

Á stormatíð þá stjórnar kaustu list,
að stunda rétt og tryggja friðarböndin,
og ríkin hafa margir drotnar mist,
á meðan þú og börn þín erfa löndin.

Sé krónan þung, þá er hún hrein og há,
og hvergi er sál í öllu þínu ríki,

sem hyllir eigi hjartarótum frá
þig, hái jöfur, fárra kónga líki.

Sé krónan þung, er konungs gæfan há.
Ó, konungshjón, með barnalánið fríða!
Sjá kóngaljósin ykkar arni frá
hin æðstu veldi jarðarinnar prýða!

Vor heiðursgestur, hjartans vin vors lands,
vér hyllum þig, sem lengst og bezt þín njótum!
Haf blessun Guðs og hærri konungs krans,
er krónan þín er lögð að drottins fótum!

---

## MINNI KRISTJÁNS KONUNGS IX.

**15. nóvember 1903. (Á 40. afmæli stjórnar hans).**

---

**Lag: Þú stóðst á tindi Heklu hám.**

Með vegsemd berðu, vísir kær!
þín völdin fjögra tigu ára,
því sóminn þinna silfurhára
á ríkið aftanroða slær.
Í dag er glatt í björtum borgum,
nú brenna ljós á fögrum torgum.
Nú horfa lands og lagar völd
með lotning á þinn ríkisskjöld.

En stjórn þín hófst á háskatíð,
er hjörinn grimmi völdum skifti,
og enginn með þér laufa lyfti,
en drúpti þjóð við dauðastríð.
Þá gekstú fram í stjórnar stafni
og stýrið tókst í Drottins nafni:
Nú undrast heimsins ógnar-völd,
að enginn á svo fagran skjöld!

Nú mætir dýrleg fursta fjöld
í flokki þinna veldisniðja,
og eigin lýðs, og allir biðja,
að friður Guðs þitt krýni kvöld. –
Þú norræn Saga, sástú fegra?
Hvar sástu höfuð konunglegra?
Hvar horfðuð þér á hreinni skjöld,
þið heimsins stóru maktarvöld?

Með „rétt og æru“ ríktir þú,
og ríkið óx svo gegnir furðu,
svo fljót og stór þau framstig urðu,
er lönd þín, sjóli, sýna nú.
Þín gifta var, svo glögt að skilja,
og gjöra og styðja fólks þíns vilja.
Nú blessar fólkið öld af öld
þinn auðnumilda ríkisskjöld.

Vér börn þín yzt við íssins haf
og öll vor þjóð þér kveðju færum

og gullinstrengínn hrærðir hrærum:
Til lífs, til lífs þig Guð oss gaf!
Þú eini jöfur aldrei brást oss,
þú eini jöfur komst og sást oss.
Þú færðir oss vor fornu völd,
og fægir enn vorn þjóðarskjöld.

Þú jöfur, engum öðrum jafn,
vor æðsta dís, hin tigna Saga,
skal róma hátt við hörpu Braga
þitt dýra Kristjáns konungs nafn!
Og þegar fánann fram skal bera,
og frelsið meir' en nafnið vera,
skal þjóð vor blessa öld af öld
þinn auðnusæla, hreina skjöld!

---

## MINNI STEFÁNS THORARENSENS 1891.

Góði vin, sem kveður fjörðinn fríða,
feðra þinna' og mæðra lukkureit.
Aldir tvær við lán og blessun blíða
bygði kyn þitt vora mildu sveit.
Stofninn græddi Grenivíkin kalda,[1]
góðar dísir héldu sjálfar vörð

---

1) Stefán var Oddsson, lyfsala Stefánssonar amtmanns Þórarinssonar sýslumanns á Grund, en faðir hans var Jón sýslumaður í Grenivík.

meðan lauf og limið náði falda
lagagreinum tiginn Eyjafjörð.

Nú ert einnig þú til brautar búinn,
bezti vin! vér tæmum þína skál;
þrjátíu ára friðartíð er flúin
frá því hjá oss hófstu lagamál.
Úti brak og brestir sífelt dundu,
blóð og eldur flóði vítt um storð,
kóngafans og keisaraveldi hrundu:
kyrt var alt við gamla Eyjafjörð.

Garíbaldi réðst á Róm og Púli,
ramur Bismark veður fram sem ljón,
deyðir alt, svo dunar norður' á Thúle:
Dani, Jósef, Frakka, Napóleón;
Lincoln spaki, Garfield góði deyja,
gjöreyðendur hefja fimbulstríð,
Rússadrottinn refsilogar beygja:
ríki — *þitt* var friður alla tíð!

Í þeim friði, fjarri heimsins solli,
frækorn margt til bóta spratt oss hjá,
héraðsbær hjá björtum mararpolli
bautasteinn þinn, vinur, kallast má.
Meira voru margir valdsmenn ræmdir,
mildin var þér kærri en bókstafsrök,
nauðugt oft þú breyska bræður dæmdir:
bróðir kær, vér reiknum ei þá sök!

Hvað er gott við grimdarstríð og reiði?
Getur eldur slökt og sigrað bál?
Sólu Guðs, sem brosir blítt í heiði,
betur vinst en ykkur, logi' og stál.
Vertu sæll, er samdir frið og kendir,
sáttir enn vér leiðum þig á braut;
heill og gleði, hvar við land sem lendir,
láti drottinn falla þér í skaut!

Farðu vel! En, hví skal burtu halda?
Hallar ei til viðar þinni sól?
Mun þar úti minni vetraralda?
Mun þar úti hlýrra vinaskjól?
Dimmi, kólni, hverf þá heim til þinna;
hvergi flýrðu þó hið stóra húm;
hjá oss áttu hinstu værð að finna,
hjá oss er þér guðvelkomið rúm!

Bráðum hverfur sól af Súlutindum,
svo mun haust og vetur fylgjast að,
svo rís aftur ljós af austurlindum,
laugar nýju gulli fjörð og stað.
Þá mun, Stefán, stefnt fram þínu minni;
(stundum leynast beztu kostir manns)
„mildin fer á undan samtíð sinni",
sagt mun þá – „og lifi nafnið hans!"

## MINNI EYJAFJARÐAR 1903

„Hvað er þá orðið okkar starf —?“

---

Þungt er stríðið ár og öld,
Eyjafjarðar bændafjöld!
Heyið þér ei Haddings-víg
heldur margir fyrir gýg?
Tíu alda táp og starf
tókuð þér í föðurarf:
Sjáið arðinn eftir lýð
í frá Magur-Helga tíð!

Teljum dæmin mörg og merk,
metum þúsund áraverk,
tínum sporin tíma og rúms,
teiginn skoðum Víga-Glúms.
Sævi frá að fjallabrún
færst hafa inn þau gömlu tún:
þeirra hvert er skrifuð skrá,
skuld og sekt sem minnir á.

Hver má skilja þessa þraut,
þúsund ára blindings-staut?
Frá því leið hið forna vor
flest eru merkin vetrarspor.
Enginn leysir alda rök,
eina samt vér kennum sök:
*Bani sérhvers bygðar hags*
*býr í skorti samfélags!*

Yngjum Fjörðinn orku og dygð;
enginn kýs sér fegri bygð.
Hætti loks það hneykslis fár:
að *hrakast svo í þúsund ár!*
Krækjum saman kot og tún,
klæðum Fjörðinn undir brún,
spengi saman strönd við strönd
sterk og trúföst bróðurhönd.

Bændaþjóð með feyskan fót,
fá þér líf og heilsubót,
nem þú betur lífs þíns lög,
lær þú betur verkin hög.
Seztú upp til samfélags,
seztú upp til bræðralags:
allir eitt og allir eitt,
engin hönd svo verði þreytt.

---

## MINNI VERZLUNARSTETTARINNAR.

---

Þú unga, þú vonsæla verzlunarstétt,
með vegsemd þinn heiðursdag skal stæra!
Með hollvættum Íslands þín hátíð veri sett
og hjartans beztu óskir skal þér færa.

Án kaupdrengja frjálsra ei frelsast nein þjóð,
vort fegursta hvarf með þeirra blóma;

þá útlendi kúgarinn bergja tók vort blóð
fór blessan landsins öll í heljar-dróma.

Sem haukslinga farmenn vér áttum kappa krans,
sem klæddu sitt móðurland með prýði,
og jafnvel þorðu sigla til Jórsalalands
og jöfrum líkir tömdu gamla Víði.

Nú hefjast menn handa við aldinn Eyjafjörð:
þú öldin, sem brauð og líf oss færir:
þitt hlutverk er mikið, þú halda skalt vörð
við hvert það búr, sem fólksins krafta nærir.

En leys það frá okri og illri hungursþröng,
frá alda-sleni, nirfilslund og gleymsku,
frá kyrking og doða, sem kvaldi dægrin löng,
frá kotungsskap og sundurlyndis-heimsku!

Guð blessi þig, vonsæla Verzlunarstétt,
til vegs og þroska æskuspor þín leiði,
svo máttug þú verðir og fáir fullan rétt,
og Fróni skíni spánný sól í heiði!

## MAGNÚS KONFERENZRÁÐ.

**Þegar safna átti fé fyrir minnisvarða hans.**

---

Reisum mark til merkis
Magnúsi dáðfúsir;
hrindum skjótt af hendi
hneisu ræktarleysis.
Mynd úr málmi vöndum
mestum hal í flestu;
standi hans á ströndu
stærð full drifin gulli!

---

## VELKOMENDAMINNI.

**Sungið á 25 ára hátíð Möðruvallaskólans 26. maí 1900.**

---

Velkomnir, bræður, á frjálsan fund
fimm sinnum fimm eftir árin!
„Velkomnir!“ segir hún Vallar-grund,
„vonina geymt hef ég alla stund.
Veturinn næðir um viðkvæmu sárin;
vorið mig græðir og tárin.“

Velkomnir allir á vina fund!
„Velkomnir!“ bergmálar *skólinn.*
„Enn hef ég trúna frá æskustund,
andans og ljóssins, á kaldri grund.

Skólinn er vitið og sálin og sólin –
sólın með lífið og skjólin "

Velkomnir allir, þér vonglöðu menn!
„Velkomnir!" bergmála *fjöllin*.
„Kalin og dauðvona drúpum við enn,
duga þarf betur, og allir í senn.
Horfið á grasauðan, grátandi völlinn;
grýtið þið draugana' og tröllin!"

„Velkomnir!" kveða við höldar og hjú.
Hlustið á gullhærðu sprundin:
þær eru framtímans blessun og bú,
blíðasta yndið og lífsafl og trú,
fríðari en sólin og gróandi grundin.
Göngum í skínandi lundinn!

„Velkomnir!" ómar oss elskunnar mál –
elskan er sterkari, en dauðinn,
Land vort, þú kveykir oss kærleikans bál:
Klífa vér skulum hið þrítuga stál.
Mergur og blóð vort skal bæta þér auðinn.
Burtu skal heimskan og nauðin!

## Á 90. AFMÆLI PÁLS MELSTEÐS.

13. nóv. 1901.

---

Ennþá hvítu faldar flaust
fjörs á brautu þinni,
byrjar nýtur nú í haust
nítugasta sinni.

Guði lof, sem greiða fylgd
gaf þér landa milli:
glaða lundu, gáfnasnild
og góðra manna hylli!

Sagnafræðings sjónarhól
signi blíður friður;
heillar aldar sól við sól
sástu líða niður.

Farins tíma frægðarskjöld
fáir kunna að skrifa,
hvað þá slíka undraöld
er þú náðir lifa!

Sýlt af klaka sögufrón
sínu tók við barni,
þegar Frakklands fimulljón
fraus á Rússlands hjarni.

Fleygur varstu' er Wellington
voðastríð sitt háði,
og Byron sendi sigurvon
Sólons fræga láði.

Allir með þér uxu senn
aldar hlynir mestir:
Hvar eru nú þeir miklu menn?
Moldu orpnir flestir!

Horfum eigi' um hæstan dag
himins eftir stjörnum,
né í aldar auðnu-flag
eftir tímans börnum.

Hvar er Andreé, Ericson,
Örsted, Volta, Píus,
Bismark, Göthe, Gunnlaugsson,
Gladstone, Topelíus?

Öhlenslæger, Andersen,
Olav Vinje, Schlegel,
Wergeland og Welhaven,
Victor Rydberg, Hegel?

Vilhjálm Karl og kappa hans
og klaka-jarlinn rauða
sástu alla í „sigurglans“ —
síðan falla dauða!

Fárumst, ei þótt fari' á glæ
frægðartildrið snauða,
sérhvert minsta sannleiksfræ
sigrar gröf og dauða.

---

II.

Þeim, sem dátt við drottins geim
dag og nátt sig gleðja,
sýnist þrátt sinn hjartansheim
harla bágt að kveðja.

Fögur er vor fóstran góð
færð í skrúðaklæði,
þegar engjar, fjöll og flóð
fult er alt með gæði.

Þó að kulda þyki seld
þessi fóstran bjarta,
kann hún vel að vígja eld
og verma rót vors hjarta.

Ennþá fegri fanst hún þér
færi snót með sögur,
kveddi þig að knjám á sér
og kendi ljóð og bögur.

Fegurst skein þó fóstran þín
fullorðins á árum:

greiddi' hún þá svo gullin sín
að gréztu fegins tárum.

Þá var hátíð hér á fold,
himinn skær og fagur;
aldrei gladdi móðurmold
meiri vígsludagur.

Frelsisvonar vængjablak
veru þjóðar lyfti, –
eins og gróið Grettistak
gripi börn og svifti!

Sagt er oft við ungan mann:
„Ofdirfskan sín hefnir";
veit þó ei, hvað andinn kann,
ef að réttu stefnir.

Þá í blómalundi lífs
lékstu knár á velli,
þektir ekki klungur kífs,
kulda, sorg og elli.

Með þér synti svalan straum
svanurinn[1] bezti' á Fróni,

---

1) Jónas Hallgrímsson. Þeir þreyttu oft sund saman á Bessastöðum.

og þíns ættlands dýrðardraum
dreymdi þig með Jóni.[1]

Mörg hefir síðan sofið ár
sólarbjarminn forni;
nú er fleirum nótt um brár
á nýrrar aldar morgni.

---

III.

Sit þó hress og sæll hjá snót,
sóma vorra fljóða;
Drottinn gaf þér bekkjarbót
bæði fagra' og góða.

Haf nú þökk; þinn andans arf
æskan lofi krýnir;
lengi muna lífs þíns starf
lærisveinar þínir.

Létt og glatt þín listasál
las þeim sögu storðar,
svo að varla mýkra mál
móðir nokkur orðar.

---

1) Jón Sigurðsson forseti, annar vinur P. M.

Nú er bráðum sólin sett,
sunna dagsins langa;
nú er ekki nema rétt
í næsta hús að ganga.

Rýnum minst í rökin hinst,
rétt hinn spaki kendi:
„Maður frjáls um fjör sín sjálfs
fárast minst hvar endi."[1]

Sit því hress hjá hýrri snót,
heiðursmaðurinn fróði;
allraminst sín æfimót
óttast þarf hinn góði.

Þessar stökur þigg af mér,
þó að lítið færi;
miklu stærri þakkir þér
þjóðin skuldar, kæri!

---

1) „Homo liber de nulla re minus quam de morte cogitat." — Spinoza.

og þíns ættlands dýrðardraum
dreymdi þig með Jóni.[1]

Mörg hefir síðan sofið ár
sólarbjarminn forni;
nú er fleirum nótt um brár
á nýrrar aldar morgni.

---

III.

Sit þó hress og sæll hjá snót,
sóma vorra fljóða;
Drottinn gaf þér bekkjarbót
bæði fagra' og góða.

Haf nú þökk; þinn andans arf
æskan lofi krýnir;
lengi muna lífs þíns starf
lærisveinar þínir.

Létt og glatt þín listasál
las þeim sögu storðar,
svo að varla mýkra mál
móðir nokkur orðar.

1) Jón Sigurðsson forseti, annar vinur P. M.

Nú er bráðum sólin sett,
sunna dagsins langa;
nú er ekki nema rétt
í næsta hús að ganga.

Rýnum minst í rökin hinst,
rétt hinn spaki kendi:
„Maður frjáls um fjör sín sjálfs
fárast minst hvar endi.“[1]

Sit því hress hjá hýrri snót,
heiðursmaðurinn fróði;
allraminst sín æfimót
óttast þarf hinn góði.

Þessar stökur þigg af mér,
þó að lítið færi;
miklu stærri þakkir þér
þjóðin skuldar, kæri!

---

1) „Homo liber de nulla re minus quam de morte cogitat.“ — Spinoza.

## KVENNASLAGUR.

(Fyrir hið íslenzka „Kvenfélag").

Til þings, til starfs, til stríðs, þú Íslands sonur! —
„Hver stefnir nú?" Þig kallar dómsins lúður,
þín eigin móðir, eigin systir, brúður,
einum rómi: fósturlands þíns konur!

Þær koma fram í fyrsta sinn að stríða
í fararbroddi; sjáðu þeirra merki!
Það hvetur alla' að einu og sama verki,
með einu orði: framför lands og lýða.

Hlæ þú ei, garpur, þó að konur kalli,
og kveð ei, skáld, með örvinglunar spotti,
né stryka burt hin stóru orð með glotti,
svo skopist ei að skömm þíns sjálfs og falli.

Ættleri, líttu' á móður þinnar merki,
og metnast eigi, þó að hún sé kona.
Hver elur mátt og meginn sinna sona,
og hvetur bezt að hverju manndómsverki?

Hún móðir þín! En hver er sá, sem svíkur
og sigurs missir? Ertu það ei sjálfur?
Þú rændir hana rétti, ert því hálfur
og ekki heill, og sæmd þín fornar flíkur.

Vér stríðum allir, viljum gjarnan verjast,
en vinnum smátt, oss skortir hetjumóðinn,

samheldni, trúna, heitu hjartaljóðin,
sem guðamagnið gefa til að berjast.

Þær krefjast skóla, það er: þjóðmenningar,
á þjóðarlífsins rót í frjálsu landi.
Orðið er stórt, en stærri samt þess andi; –
hver eyru hefur, heyri Íslendingar!

Vér Íslendingar eigum fornan frama,
sem fyrstir menn á gömlu Norðurlöndum,
með frjálsa stjórn og fræðirit í höndum. –
Hví fárumst vér? Er þjóðin ei hin sama?

Hvað vantar? Stórhug, stórverk, allra eining,
alþjóðarvilja, fylking manns og konu,
frjálsbornar dætur, sálarhrausta sonu!
Í sundrung vorri og deyfð er engin meining.

Stórræði, samhug! – Ella eymd og dauða!
því aðrir kostir bjóðast ei þeim fáu,
ef vinna skal til lífs þeim veiku, smáu,
en berjast djarft, þó blóðið fossi rauða.

Þú forna menning! Sál mín fer á flug –
að fósturjörðin grýtta, mjöllu falda,
í norðurheimsins hafi jökulkalda,
hún skyldi ala afreks þjóða dug!

Þeir segja: „Horfið áfram en ei aftur,
því enginn nýtur þess, sem burt er liðið,

samtíðin ein sé vorra verka sviðið!“
Nú, vel og gott, en hvaðan kom vor kraftur?

Hvað stoðar oss, þó vildi, heimur hálfur?
Vor hjálp er mest í feðra vorra blóði,
í landi, sögu, ráðdeild, rögg og óði.
Mér hjálpar enginn, hjálpi' eg mér ei sjálfur.

Vort fósturland á framtíð, ef vér trúum,
og frelsi vort er meir en síngjarn draumur,
og tæli oss ekki tímans lygaglaumur,
og vér sem bræður bökum saman snúum.

Vor fósturjörð á framtíð, nóg af auði,
þó furðu margt sé enn, sem bindur lýði;
hún batnar, batnar, hún er sterk í stríði;
þá stundir líða verður grjót að brauði!

Mannvitið fram und frjálsum þjóðarfána,
vor fósturjörð á hulda Mímisbrunna
und hrauni og snjó, og hýra leynirunna
og hjartablóm, sem geta' ei opnað brána.

Þér Íslands dætur, leggið líknarhendur
á liljugrösin smáu, hröktu, píndu,
og gleymið ekki útburðunum týndu,
sem ýlfra „hefnd“ um landsins klakastrendur

Því fyrst er konan kjörin til að fæða
og fóstra' hið veika, næra það og klæða,
hið hrelda að hugga, sjúkt og sært að græða,
og sjá um eldinn — lífsins eld að glæða!

Þér konur, eigið eld í hjarta' og tungu;
þá eggjan stóðst ei neinn, sem fékk af konu;
oft lítil móðir lék með stóra sonu;
þær læra tökin strax við börnin ungu!

Hauklyndu svannar, lyftið fyrst því lága,
en lærið svo hin stærri heit að efna,
og fullréttarins fögru braut að stefna,
því andans líf og ljós er þó hið háa.

Og þegar vér, sem vinna skulum tröllin,
og vera fyrir tímans stóru svörum,
frá merki hopum, eða' á hæli förum,
ó, hrópið þá, svo undir taki fjöllin!

Vér komum, fylgjum, móðir, kona, meyja!
Upp merkið hátt, því góðar dísir eggja!
Fram, fram, og vegum hart til handa beggja!
Í helgu stríði' er gott að lifa og deyja!

---

## FLATEYJAR-VÍSUR.

Ljóðabréf, kveðið fyrir húsfrú Sigurborgu Ólafsdóttur frá Flatey.
1901.

---

Flýgur muni minn til þín,
móðurlandsins prýði;
ljúfa, forna fóstran mín,
fagurgræn í víði.

Við hinn fríða faðminn þinn
feld er öll mín saga;
hjá þér bíða muni minn
mun því alla daga.

Þó oss finnist fótur vor
fylgja viljans ráði,
horfa flest vor hugarspor
heim að fósturláði.

Alt, sem gladdi unga drós,
áttir þú og hafðir;
hverja mína hjartarós
hýrum örmum vafðir.

Glöð og létt um grund og hól
gekk ég æskusporin;
fagurt létu laukasól
ljóðin þín á vorin.

Fersk er enn þín frána grund
fyrir mínu auga,
þegar öll þín sumarsund
sig í gulli lauga.

Þá var yndi, þá var skjól,
þá var sálarfriður,
lék um strindi, laut og hól
ljúflingsmála kliður.

Sá eg smeyk um víðavang
varga- skrítnar hræður;
kjöguðu breiðan brúðargang
blikum gefnar æður.

Yfir sundin, ey og sker
ómuðu Lofnarkvæðin;
betur kann sá himinsher
heldur en sumir, fræðin.

Aldrei sá eg ást og frið
una hér á jörðu,
sem þau blíðu býlin við,
bólin dúni vörðu.

En sem nærri Edens reit
ormurinn skæði þrumdi,
yfir varpsins væru sveit
veiðibjallan glumdi.

Lítt eg skildi lífsins rök —
lítt þau enn má ráða,
lífsins gömlu glímutök
guðs er eins að náða.

En þótt vargar elti bráð
orgi með og gnauðan,
létt og fjörug lífsins dáð
leikur sér við dauðann.

Skepnan bölið ber svo létt,
bliknar ei við hríðum;
við erum miklu miður sett
miðjum vits í hlíðum.

Undir oss er ægidjúp,
ógn og dauðasogið;
yfir oss hinn grimma gnúp
getur enginn flogið.

Hvað er vitið? Máske mest
metnað sinn að stilla,
bera léttu lyndi flest,
og lögin Guðs að hylla.

Enn við bjartan Breiðafjörð
byrjar margt að segja,
þar sem skarti skrýðist jörð
og skín mín hjartans-eyja.

Frá því bygð þín brosa tók
barnsins sjónartaugum.
listum fegri lífsins bók
leit eg hvergi augum.

Nú eru bliknuð blöðin mörg
og breyttir stafir þínir,
þar sem við þinn helgihörg
hvíla vinir mínir.

Faðir minn og móðir kær,
metin hátt á foldu,
þar sem nærri svellur sær,
sofa ligt í moldu.[1]

*Hann* með svinna hetjudáð,
hjálparmund og gæði;
*Hún* með innri andans náð,
aðalslund og fræði.

Sífelt vakir sorgin mín,
sól þó dreifi köfum;
láttu Drottinn ljósin þín
lýsa mínum gröfum.

---

1) Foreldrar frú Sigurbjargar voru hjónin Ólafur Guðmundsson kaupmaður og Guðrún Oddsdóttir Hjaltalíns. Hann var orðlagður jafnt fyrir karlmensku og valmensku, en hún fyrir mentir og vitsmuni. En maður frú Sigurbjargar var Eyjólfur kaupmaður Jóhannsson, Eyjólfssonar frá Svefneyjum, dáinn 1900.

En þér, önnur móðir mín!
mér er leyft að svara;
lifir stóra lundin þín
lífsins enn á hjara.

Heita, trúa, trausta sál,
tak nú hvað eg hefi:
heita þökk og hjartans mál
hér í einu stefi!

Bætist þar við brennheitt tár
og beiðni lífs míns þessi:
Hann, sem gaf þér öll þín ár,
elski þig og blessi!

Fóstran góða, Guðrún mín![1]
gæfusvanni vertu;
eins í heill sem harmi þín
hjartakær mér ertu.

Hann, sem fann þér fósturskjól
fyrst í bernsku þinni,
verði æ þín auðnusól
eftir beiðni minni.

---

1) Guðrún uppeldisdóttir frú Sigurborgar, en Guðrún eldri er Andrésdóttir, systurdóttir Þóru, móður séra Matthíasar. Guðrún er hagorð.

Kveðju mína, bezta barn,
berðu móður þinni;
græði' hún lengi grjót og hjarn
gáfnasnild með sinni!

Vinafjöldans hópur hýr,
hjá mér nöfnum talinn,
Herrans, sem á hæðum býr,
höndu veri falinn.

Fyrir hverja stytta stund,
stoð og kærleiksvottinn,
yður greiði gull í mund
gæzkuríkur Drottinn!

---

Loks eg hníg að heljarbeð:
Hjartans sæli vinur!
Það sem dýrast geymir geð
Guði sálin stynur.

Á ég ei minn æskuvin
ofar neyð og tárum?
hugsa ég, þá harðast styn
hér á tímans bárum.

Tárug blóm á beðinn þinn
breiði ég í hljóði;

bráðum endar útlegðin,
elskhuginn minn góði.

Blómstrin okkar hér í heim
hjarta létta mínu;
beindu mér og báðum þeim
blítt að ljósi þínu.

---

Far svo vel mín fósturjörð,
frægð og snild þín dafni
meðan byr um Breiðafjörð
blæs í Drottins nafni.

Dafna meðan glymur Gjöll,
glóir Hagatafla,
sólin vekur Vaðalfjöll
og vígir Snæfells skafla!

Dafna meðan vonhýrt vor
vermir ungar rætur,
þar til Sunna syngur Skor
síðast góðar nætur!

---

## FJÓRIR REIÐMENN.

Um alþingiskosningarnar í Eyjafirði 1903.

Stælt kvæði (sbr. kvæðið í „Svanhvít“ eftir Karl Gerok með sömu fyrirsögn).

---

„Sjáarinn, með sorg og kvíða,
sá í anda forðum ríða
fjóra menn um foldu víða.“

„Aðan hljótt í hvílu lá eg,
hina fjóra koma sá eg,
og af skelfing blundi brá eg.“

Fyrsti greypti *finskan boga,*
fáki hleypti loft og voga;
bygðin vóð í vafurloga.

Glotti Hel í örvar oddi,
engin brynja, þófi, koddi,
hélt við kappans hremsubroddi.

Fögrum rendi brúnabaugum,
blíðan skein af meyjaraugum,
hvar sem hauðrið horskur flaug um.

Oð hann fram í æskumóði,
á hans vanga frelsið glóði,
afi hans var Ari Fróði.

Svanahljóð mér heyrðist nærri;
hleypti þá fram miklu stærri
fleinalundur, flestum hærri.

Þessi fáki rauðum rendi,
raman *sköfnung* bar í hendi.
Enginn þó til ótta kendi.

Því hann líktist verndarvini,
vargi sízt með spertu gini,
heldur tignum Tryggvasyni.

Ítursnjall og yndisfríður,
alla kvaddi gumi blíður,
flyktist um hann landsins lýður.

Þriðji svörtum þings að álum
þeysti jó með lagarálum,
hélt á miklum *metaskálum*.

Sá var styrjar vanur verki,
var um sig, er fylgdi merki,
klæddur þykkum Sörla serki.

Þótti lítt í máli myrkur,
magur-Helga sveitarstyrkur,
drjúgur meir en mikilvirkur.

Vanur hversdags hægu hóti,
henti sjaldan breiðu spjóti,
kominn var af Valla-Ljóti.

Aftast reið hinn allramesti,
enginn meir þeim fræga gesti
vörgum tærði veganesti.

Ægði hals í hendi *sigðin;*
hræðist alt og skelfur bygðin,
mæti reiðum málabrigðin.

Spíkin hló við hæstu fjöllum,
hersir líkur sýndist öllum
Mundi ríka' á Möðruvöllum.

Þessi haslar hólm þeim fjórum,
hlunkaði jörð með dynkjum stórum,
kiknaði fyrir Kesju-Þórum.

Fyrsti óður álminn benti,
annar darr á lofti henti,
þriðji brynjuboðung spenti.

Fjórði glotti og ljánum lagði;
lauk þá styr á augabragði;
hetjan svo til hinna sagði:

„Það er mælt, að þessi spíkin, —
þó að sagan mörg sé ýkin —
kunni' að jafna kotungsríkin.

Vopnum þeim eg vil þið fleygið,
vaskir menn, og orðum vegið,
ella spíkin heggur heyið!“

Gullu fjöll með háu hrópi,
hristist alt af feginsópi,
líkt og hrífa sáldi sópi.

Settur var í svipan fundur,
sáust þegar tákn og undur;
lék um sali logatundur.

Hann með bogann brann í anda,
broddum fleygði gómastranda
beint og títt til beggja handa.

„Heyri“, kvað hann, „sveinn og sætur,
sjáið allra meina bætur
upp í loft, við ykkar fætur.

Það eru skólar. — Skiljið ekki?
skör er komin hátt í bekki;
eg vil mölva ykkar hlekki.“

Sá með hjörinn hægur brosti:
„Hvergi býð eg slíka kosti;
mælgin tóm er maur í osti.

Síðla mundi síldin tala,
selamæður rollum smala,
kýsur prjóna, mýslur mala.

Get eg hins, að grói hólar,
græðist engi, fjölgi skólar,
þar til loksins sést til sólar.

Fyrst er nóg, að bóndinn búi,
börn og hjú frá vömmum snúi,
þjóðin öll á táp sitt trúi.“

Sá, sem metum hélt í hendi,
hornauga til sverðsins rendi;
fyrsta og öðrum svör þau sendi:

„Mörg er bitur búmannsraunin,
blása skal þó ei í kaunin,
ef vér drepum „eftirlaunin“.

Fullvel ykkur farnast báðum,
fleira þó af bjargarráðum
kem eg með sem „breyting“ bráðum.“

Nú tók sigðin sjálf til orða:
„Sannlega þjóðin ætti forða,
dygði orðin ein að borða.

Eg vil helzt að engu hrapa,
öll vor mál í hófi skapa;
kippumst ei í kynið apa!

Eg vil létta landsins raunum,
lækna drep í gömlum kaunum,
en aldrei sleppa eftirlaunum.“

Nú varð aftur þröng á þingi,
þrumdi loft af hálfkæringi,
meinlokum og misskilningi.

Loksins fór að fipast gaman,
flugu þingmenn reiðir saman,
hver við annan orku raman.

Flúðu menn, en foldin stundi,
frægri glímu enginn mundi, –
niður syðri Súlan hrundi.

Herti Sigð og Hjörinn skæði
hræðilegast styrjaræði,
lék þá jörð á þunnum þræði.

Gjörðust undrin meiri' og meiri,
miðgarðsormur – lýðir heyri!
hljóp í strand á Hjaltaeyri.

Annarsvegar barðist Boginn
burðastór og gamla Vogin,
stóð úr nösum ljósblár loginn.

Bláan reyk um bæi lagði,
báðir loks – mér draumur sagði –
steyptust senn á stjórnarbragði.

Þá var óp og ægi-skellur,
erni þúsund drap sá hvellur:
gjörvalt Súlufjallið fellur!

Hermi' eg ei af hrottafundi
hinum, hvernig farnast mundi:
upp eg hræddur hrökk af blundi.

---

Húsið lamdi hríð með frosti,
herfilegur skar mig þorsti,
snætt eg hafði hleif af osti.

Drauminn sagði' eg döpru sinni
Dísu kerling, fóstru minni.
Oft er vit í skorpnu skinni.

Ei var drósin frýn í framan,
fornan átti hug og raman;
henti mest að hrakspám gaman.

„Reiðmenn þínir (kerling kvakar),
kaldir munu hafísjakar;
vindöld, vargöld; veröld hrakar.

*Boginn* þýðir eiturörvar
íss og helju, dráps til gjörvar
öllu, sem ei undan hörfar.

Sverðöld merkir *skjóminn* skæður,
skilmast feðgar, vegast bræður.
sifjar spillast, svelta mæður.

Sult og þrautir þýðir *vogin;*
þjóðin verður pínd og sogin,
aðra kæfir urðarloginn.

Loksins herjar landið *sigðin;*
lagleg verður Ingólfsbygðin,
þegar drotna Hel og hrygðin.

Rei ur varð eg fornu flagði;
flýði hún burt, en sár í bragði
þagði' eg fyrst, en síðan sagði:

„Íslands sól er ekki hnígin,
ekki fallin beztu vígin,
ekki ræður lofum lýgin!

*Sverð* og *bogi* þýða þjóðar
þrótt og snild og dísir fróðar;
*vog* og *sigð* eru vættir góðar!

Þeir, sem vopnum vurpu niður
vísa til að batni friður,
enn þó vari orðakliður.

Það, að Súlur þannig hrundu,
þýðir víst, að eftir stundu
sléttist margt á móðurgrundu.

Undrin stór, sem andann dreymir,
öld og tími lýðum geymir.
Guðdómsafl í öllu streymir!“

Þannig réð eg rama drauminn;
ríð svo enn í miðjan strauminn —
heimastjórnin temprar tauminn!

## GAMANVÍSUR.

Til Brynjólfs í Þverárdal Bjarnasonar sýslumanns Magnússonar, 1902.

Heilsag harpljóði
hraustum auðbjóði;
gýs eg gullflóði
geðs úr fjársjóði;
Kjalars farfleyi
fleyti úr braglegi,
hleypi hljóðvegi
hart að málteigi.

Lét eg dáð duga,
dimm var gilsmuga;
reið ég hálfhuga
hætta grjótbuga.
Skjótar skottóli
skaut upp grænhóli,
hvítu brattbóli,
bygð í dalskjóli!

Flýgur mar muna –
má ei neinn gruna –
yfir háhruna
þar helzt vill una;
sitr á svalbarði,
sér inn flugharði
vestr af Vatnsskarði,
veit af hofgarði.

Vitran sú sætti
sorg, er hug grætti,
sem ef sjón mætti
sól um miðnætti:
brostu við breiðar
brekkur fargreiðar;
gnúði' eg gölt reiðar
götur heimleiðar.

Kom eg kófsveittur,
kvalinn, sárþreyttur,
auri útsteyttur,
og til angurs reittur.
Loks tók hlíð halla,
heyrð' eg menn kalla:
„Upp þann hliðhjalla!
þá mun happ til falla“,

Eg var inn leiddur,
yli húss seyddur,
dúkr á borð breiddur,
beini tilreiddur.
Kom svo krúsflæði,
krása marggæði,
andrík óðkvæði –
alt lék á þræði.

Frábær framreiðsla,
fyrirtaks greiðsla,
kræsinga – neyzla,
konungleg veizla;
svellfeitur hlaði
af sauðakjöts spaði,
í munn sem mjólkaði
eins og „marmelaðe".

Lárviðir falla,
liljurnar valla,
turnar háhalla,
herborgir fjalla.
En sú fald-Freyja
á fold skyldi þreyja,
og aldregi hneigja
Elli, né deyja! —

Gos af góðvíni
sem í Geysi skíni;
teygðist fram trýni
af tvöföldu svíni;
hékk í haldfæri
fyrir hjaldursgnýstæri
soðið svínslæri.
(Það var silfursnæri.)

Fræga Flateyja,
fríða sæmeyja,
þig skal eg þreyja
þar til hlýt deyja!
Hví skyldi' ei hrósa
(hún varð mín ljósa)
lundi lífrósa,
ljúfvörum drósa! –

Hurfu nú harmar,
hittust tveir barmar,
opnuðust armar,
ylnuðu hvarmar;
flaug í brjóst blíða
betri lífstíða: –
sá eg í sal líða
snót íturfríða.

Bragninga jafni!
Brynjúlfs ættnafni,
hagur þinn dafni
með heillasafni!
Haf þú hagfræði,
hug og dug bæði,
hrós og hjartgæði
hans, eg um ræði.[1]

---

1) Brynjólfs Bogasonar Benediktsens í Flatey, frænda síns.

Afi þinn, Bjarni,[1]
ættarlands kjarni,
eldinn á hjarni
ól hjá mér barni;
fjörið mér hossa
fann eg og blossa,
er svalg eg við fossa
Sigrúnar kossa.

Frævist hans andi
feðranna landi,
lýði lífgandi
með ljóssins brandi!
Eflist söngiðja,
uni ljóðgyðja,
braki bragsmiðja
hjá Bjarna niðja!

Faðir þinn fríður,
fornvin minn blíður,
hvað langt sem líður
í lundu mér bíður.
Gleymdum við elli
við glaum og smelli
tveir í hraunhelli
á Helgafelli.[2]

Fanst mér þá bindi
fold og marstrindi
ljómandi lindi,
lífsfjör og yndi.
Brosti geðblíðan
bragning um fríðan;
fertug öld síðan
féll í mar víðan.

Hvert mundi farinn
fornvinaskarinn?
Bíð eg hreggbarinn
sem bundinn arinn.
Fjarri' er ei skytta
fugl þann að hitta.
Lífs míns lánsbytta
leið mun sjálf stytta.

Vertu, Brynjólfur,
bænda forkólfur,
mildur sem Hrólfur,
hraustur sem Bjólfur;
kappi sem Kári
krýndur grænlári,
og nýu gullhári
á nítugasta ári!

---

1) Bjarni Thorarensen skáld.

2) Í Vestmannaeyjum, 1861.

Töðuvöll teddu,
túngarða hleddu,
hungraða seddu,
harmþrungna gleddu;
glaður við gesti,
gullskati mesti;
hundi sem hesti
hagtærðu nesti.

Vaxi þinn sómi,
vinsæld og blómi,
lýsi þinn ljómi
svo lýðir rómi.
Guð geymi salinn,
góssið og dalinn,
svanna' og svein valinn. —
Sofnar árgalinn.

---

## TIL ARA BRÓÐUR MÍNS.

**Á 40. hjúskaparafmæli hans, 1903.**

Farin tjáist fertug öld
fyrsta dag í vetri,
frá því Danafylkir völd
fékk að Hleiðrusetri.

Sama ár og sagðan dag
svanni fyrst þér hlúði,
er þú heilagt hjónalag
hófst með þinni brúði.

Þið hafið saman þrammað skeið,
þú og sjóli Dana;
ykkar beggja Elli beið,
enginn sigrar hana.

Ólíkt var um ykkar hag,
ei er því að neita,
þó skal sama sæmdarbrag
seggjum báðum veita.

Báðir hófuð bændastétt
og búnað sama tíma;
hvorugum féll í fyrstu létt
forlaga ráðin glíma.

Kristján lét sín löndin þrjú
lostinn vendi sára;
búi hlauzt að bregða þú
barinn hendi Kára!

Aldrei lægri ykkar kjör
urðu heims á láði,
svo er lukkan lymsk og ör
og laus í öllu ráði.

Hvað þið báðir þolduð þá
þekkja fáir manna;
ykkur barg sú auðna há,
að áttuð beztu svanna.

Eins og siklings silkihlín
sætið prýddi háa,

hirti Katrín, kona þín,
kotið ykkar smáa.

Sléttir sárin manna meins
meiðmum[1] búna hrundin;
léttir tárin alveg eins
örmum lúna mundin.

Fyrir skömmu sat í sal
sjóli vor hinn prúði
meðan dauðans fölvi fal
fylkis aldna brúði.

Drósar hönd á hinstri stund
hlúði verinn spaki;
brakaði gylfa máttlaus mund,
marin Heljartaki.

Hvar voru börnin, háu hjón!
heimsins makt sem prýðir —
Rússar, Englar, Asíufrón
og alt, nema Dauðinn, hlýðir?

Dauði stóð við dyrastaf,
dugði karli vörnin:
drotning andann Guði gaf,
grétu sáran börnin.

---

1) Meiðmar = gullnir gripir [Juveler].

Bani hló, en borgin draup,
blikna þótti sólin,
Danajöfur dapur kraup, --
Dauði fór í stólinn.

Hvað er alheims afl og þor
yfir köldu líki?
Fáein tár og Faðir-vor –
fyrir konungsríki!

Seg nú, gyðjan sagna trú,
sannleiks mat og gildi:
hvað var það, sem þengils frú
þjóðum eftir skildi?

Viltu hennar hafa svar?
Heyr þá, vitri bróðir:
Þetta eina, að hún var
ágæt frú og móðir.

Eins þín reyndist auðarskorð,
ei þó greini letur;
enga veit eg verk og orð
vandað hafa betur.

Og þó hvorugt, hún né þú,
hljóti lofið skrifað,
vönduð, hjartahrein og trú,
hafið þið bæði lifað.

Saman eitt, að allra trú,
eigið þið jöfur, bróðir:
báðir heitið, hann og þú,
*heiðursdrengir góðir*.

Tign og völd ei vega neitt,
viti það allir lýðir,
heldur það að eiga eitt
andans mark, sem prýðir.

Sjóli vor á sinni tíð
Snæland frelsi gæddi;
eljan þín hjá ungum lýð
andann sama glæddi.

Kongur lærði marga ment,
misjafnt út þó gengi;
þú, sem forðum fátt var kent,
fræddir aðra lengi. –

Mál er að tempra munnsöfnuð –
mærð eg sinni engri,
þinn og mildings mannjöfnuð
má þó gjöra lengri. –

Hressi pistill magur minn!
mæðist létta höndin;
blessi ristil þýðan þinn
þessi *sléttuböndin*.

Þið hafið bætt og betrað frón,
bundin lágum sessi:
ykkur, sönnu sómahjón,
signi Guð og blessi! —

# II. SMÁKVEÐLINGAR FRÁ ÝMSUM TÍMUM.

## TIL GESTS SKÁLDS PÁLSSONAR

1885.

Gestur minn, Gestur minn, gáðu' að hvað segirðu!
gengurðu' í skrokk á mér, rétt eins og eigirðu
ljóð mín með andanum, efninu, málinu?
Yfir mig gengur þinn kraftur úr stálinu:
„Húmbúg er himinn,
*homo*[1] api;
sálin fosfór,
sæla draumur;
frelsi flónska,
fiðrildi er ást,
Guð tóm grýla:
Gestur er einn!“

---

1) ɔ: maðurinn.

Ljóð mín þú tekur og sigtar í sáldinu;
„Sjáið, þar finnum við ‚brotið‘ úr skáldinu;
grúfið hér niður að, lækkandi, — lækkandi!
Ljáið mér kíkir! – nei, stækkandi – stækkandi!
Þar kom það: lítið á ljómandi greyið —;
látið í rennurnar sorann og heyið,
en haldið þið ‚brotinu‘, litinum, ljómanum,
lífinu, kjarnanum, smérinu, rjómanum!

Varlega, vinir, –
vari sig hinir:
sigtaður sem sáld,
samt er hann skáld!

En svo kemur annað: „Hann er ekki mentaður,
aumingja maðurinn, þó hann sé prentaður.
Hans hugsjón og íþrótt ei horfir til framfara,
heimsmentun tímans hans list er ei samfara;
hann trúir á manneðlið, tilbiður Drottinn sinn!
Takið hann, burt með hann! – fáið mér pottinn minn!“

---

Þessi var lakasti, Gestur minn, grikkurinn.
Ég gat ekki stilt mig, það hljóp í mig gikkurinn.
Hélztu ég þekti' ekki Büchner og Bauer,
þá Bradlaugh og Fechner og Schopenhauer,
þá Darwin og Huxley, þá Hartmann og „Toll“,
þá Heine, Rénan og Ingersoll,
Spielhagen, Heyse og hey og þang
og Hermann skáld, sem sig kallar Bang,
Jokai, Turgenjev, bræðurna Brandes
(á bragðið jafn ólíka tóbaki og kandis) –

og ef eg svo teldi þér tuttugu aðra –
nei, taktu við þessum, drengur minn, blaðra!

---

Og samt skal eg játa þig lesinn og leikinn,
lipran og fyndinn, en dálítið hreykinn:
við nýjustu heimsmenning hangirðu samfara,
en hitt vil eg meina, það sé ei til framfara.

Gættu þín, gættu þín, Gestur minn Pálsson;
gáðu' að, hvað fauk, er hann Helgi stökk Njálsson
frá foreldrum sínum og frændum í brennunni:
fauk ekki höfuðið, skoppaði' í rennunni?– –

---

## TIL BRÓÐURSONA MINNA Í LÆRÐA SKÓLANUM, 1882.

(Úr bréfi.)

---

Heyrðu Mangi, Matti, Jón,
miklu, sterku andans ljón,—
heyrið mína hjartans bón:
hættið þið nú að vera flón!

Matti, lærðu mathematík,
Mangi, lestu póetík,
gleymdu' ei, Nonni, grammatík,
en gutlið ei við pólitík.

Lærið guðspjöll Gyðinga,
göfuglyndi Araba,
snild og fegurð Forngrikkja,
frægð og hreysti Rómverja.

Hugarfjör af Hómeró,
hreinan stýl af Ciceró,
föðurlandsást af Fabíó,
og fræðin eftir Lútheró.

Tímans not af Títusi,
trúrækninna' af Ingólfi,
verkasnild af Völundi
og vit af Karlamagnúsi.

Hreystiþrótt af Herkúli,
heilagleik af Móesi,
orðfærið af Aroni,
andans fjör af Pindari.

„*Gnóþi sauton*,"[1] Grikkinn kvað;
gott er að læra, og meir en það;
en hvað er list og lærdómsþvaður,
ef lærirðu' ekki að vera maður?

Því hundrað sinnum heldur klár,
sem hefur lifað þrjátíu ár,

1) Þektu sjálfan þig!

en lærdómsstaur, þó standi á þambi
á stórvizkunnar þurradrambi.

Því vitið, Mangi, Matti, Jón,
þið megið ekki vera flón;
þið megið til að læra að læra;
þar liggur á botni gagn og æra.

Því vitið, Mangi, Matti, Jón;
hver maður er Guðs réttarþjón.
Að verða læknir lífsins meina
er listin mikla, stóra, eina.

---

## TIL TVEGGJA HINNA SÖMU.

Á prestaskólanum, nokkru síðar.

---

Sveltið hold á syllógism,
saltið niður dogmatism,
etið nógan idealism,
en aldrei tóman formalism.

Bezta mat um miðdaga
meina' eg kirkjusöguna,
dogmatík við dimmuna
og dæmi Krists á morgnana.

Hvað er mest í heiminum?
Heilabrot í vísdómnum,

klerkarugl í kreddunum,
kænskubrall í stjórnmálum.

Seg mér, hvað er sannleiki?
sigur vorrar skynsemi
gegnum setta samræmi
sálargrams í lögmáli.

Bezta dygð er bindindi,
bezta vopnið kærleiki,
bezta hygni hreinskilni,
hæsta speki guðrækni.

---

## HAMINGJUÓSK.

Til Þorsteins læknis, skólabróður míns, í Vestmannaeyjum, þegar Eyjamenn höfðu heiðrað hann, eftir 20 ára veru þar, með samsæti. Hripað niður meðan maður stóð og beið eftir bréfi.

---

Hefði'eg á þínum
heiðursdegi
„synt á sel“
og sezt að borði
úti hjá þér
og Eyjarskeggjum,
hefði eg þrumað
á þessa leið:

Sitjið sælir
að sumbli þvísa,
ítru, ölværu
Eyjarskeggjar!
Sýnið, að kennið
svalar unnir;
skelli skaflar
á skerjum tanna,
og glymboðar
gambandrykkju
falli þungt
á fálkastrendur,
en bjórbrekur

við brúnahimin
tungutind
taki miðjan!

En þú ágæti
Æsklapíos!
hylli þig bergmáli
Heimaklettur!
Tísti þér teistur,
tíni þér lundar
sæmdar síli;
syngi og gali,
skríki, skræki,
skrölti, gargi
allir bjargbúar,
sem bera vængi,
tignar tón
fyrir tuttugu ár!

Hengi sig Tyrkinn
á hæsta snaga
út úr ergelsi,
en amen segi
skrattinn-á-skjóttum,
að þú skyldir stíga,
vaski vinur,
á Vestmanna þröm! –

Trítla sem trippi
tuttugu ár,
hlaupa sem höfrungar
heimsins stundir,
tifa sem titlingar
tæpir dagar;
föllum vér og flækjumst,
sem fjúk í vindi.

Hlaupum, hlaupum,
hirðum aldregi
grand að gráta
gengnar brautir;
gleðjumst við hitt,
ef höfum unnið
eitthvað, sem eftir
oss og fleiri.

Gef mér nú aftur,
göfgi bróðir,
balsamum vitae,
svo ei bili trúan –
sér í lagi þú,
séra St. . . . ;
hefurð' ei sem nafni þinn
himininn opinn?

– – Þökk! þess þarf ei,
því hinn fróði
Sæmundur býður
sopa góðan!

Göngum við að kveða
fyrir kirkjudyrum
Kölska inn í skot
hjá skráar meini.

„Gjör, segi' eg, Þorsteini,
þursasprengir
og heljarhræfugl!
eigi hót til ama!
Ella skalt þú . . .“
En eg hef nógan
tíma og tóm
til tals við skrattann!
Blaðið var til þín,
blóðhreinsandi –
samsuðu – seyðis –
síróps – Njörður!

Lifðu sem sjálfur
signor hinn mikli,
stór og sterkur
í Stambúls porti!

og týhraustur
tuttugu ný
un þú ár
á Íra klettum.

Færi þér feiti
fýlungakyn,
bjargfugl sig á borð
beri sjálfur;
salti sig lundi,
sjóði sig rita,
hengi sig hvalir,
en sig hnýsur roti;
skeri sig skarfar,
skjóti sig selir,
stingi sig kolar,
en steiki lúður;
fletji sig fiskar,
en flatar skötur
biðji þig grátandi
sín börð að smakka!

---

## ÚR BRÉFUM.

---

### TIL H. H.,

sem sendi mér kvæði, meðtekið 1. dag í sumri 1883.

Sumarþíða þökk míns hjarta
þitt fyrir ljóðið yndisbjarta,

sannkallaða sumarrós!
Signi Drottins sól þitt enni!
sannlega ertu göfugmenni, –
sjálfur Íslands sumarljós.

---

### TIL TÓMÁSAR LÆKNIS,
sem gaf mér reiðhest.

Nú sendi' eg á bakkann, að sækja þann jarpa,
og sigurljóð kveður mín spilandi harpa.
Eg sendi þér fyrir það haukfráa hross
í háfleygum skáldskap minn brennandi koss!
Og kystu svo fyrir mig frú þína, Ástu,
þá fegurstu snót, sem á jarðríki sástu.
Eg get ekki launað svo goðborinn hest,
þó gefi ég alt, sem minn hugur á bezt:

Eg gef ykkur hafskip af gæfunnar auði,
eg gef ykkur veraldir fullar af brauði;
eg gef ykkur sæti við guðanna borð,
eg gef ykkur sjóinn og himin og storð!

En fyrir svo útvalda, fótvissa dróg
mér finst þetta ekkert, og langt í frá nóg,
og fer því og legg þetta ferhyrnda blað
með fyrtöldu smáræði ofan á það!

---

### TIL MAGNÚSAR FRÆNDA.

Magnús safni megni,
Magnús láni fagni,
Magnús María signi,
Magnús elski bragnar;
Magnús má ei gugna,
Magnús aldrei ragni,
Magnús mengi hugnist,
Magnús! eg vil þagna.

---

## VÆRI EG ÞÚ.

Væri eg þú og þú sem eg –
við þann og hinn eg oft hef sagt –
eg hefði aldrei hrapað svo,
eg hefði betur veginn lagt,
En þó eg segi: já og jú,
er ég samt ég og þú ert þú.

Væri eg þú, með hálfan hlut
af heimsku þinnar sundurgerð,
þá mundi' eg hrópa: hættu nú! –
eg hætta sjálfur líka verð;
eg kann ei þinn að þræða veg,
því þú ert þú, og ég er ég.

Væri eg þú, þá væri nóg,
þá væri' eg eins og barn í lund;
eg skyldi ausa' út elsku' og von,
og aldreí týna góðri stund.
En þó eg segi og jái: jú,
er ég samt ég, en þú ert þú.

Væri eg þú, þá væri' eg sízt
eins vonarsljór í hverri raun;
eg lærði að sjá, að menn eru menn,
og metti hnífrétt sekt og laun.
En þetta gerir þungan veg,
að þú ert þú, og ég ég.

---

## AD AMICUM ADOLESCENTUM.

Care, precor, a peccato,
ploroque tristi animo.
Qvid est in mundo *kakiston?*
Culpa in *pneuma hagion*–.
Quod frater ipse fesisti
functus vita **ingenii!**

Nuper fuiste nicator,
nunc (hev mihi!) procuratur!
Olim stella in excelsis,
at nunc „scriba Proconsulis";
antea nobilissumus,
at jam in spe Tilisteus!

---

## RÚSSNESKI RÆFILLINN.

Rússneski ræfill, þú reiðinnar Zar,
sér hvergi svæfil þitt samvizku skar?
Hafirðu' ei, kæri, nein „húsráð“ til taks:
heimtaðu snæri, og gerðu það strax!

Innvortis ormurinn eitrinu spýr,
útvortis stormurinn beljandi gnýr;
yfir þér öskrandi eldþrumu kór,
undir þér blöskrandi landskjálftasjór!

Hve marga sopana súpa þau ský?
Síðasta dropann—og rifna með gný.
Safnið þið hreystinni svipdimmu fjöll?
Síðasti neistinn mun sprengja ykkur öll!

Lengi má erja við síberska sút,
sannleikann berja með rússneskum „knút“.
En ef hver flenging, minn keisari kær,
kostar þig henging, þá ertu' engu nær!

Allmargt er logið um löndin þín, Zar,
en eitthvað er bogið, það bregst ekki þar,
ef satt er, að passi þig þúshundrað þý,
og þó sértu hvínandi dauðanum í.

Því viltu' ekki verma þinn voldúga sal—
verma til fulls eins og Sardanapal?

Því viltu' ekki nemast frá nauðung og þraut
sem Nebucadnezar og snúast í naut?

---

## LAUSAVÍSUR.

Hitti hvergi hringur þinn
hlið á lífsins festi,
verða muntu, vinur minn,
vesalingur mesti.

Eg var mesta mæðubarn
meðan eg var ungur;
gamall, eins og gæðahjarn,
geng eg hraun og klungur.

---

## MEÐ LJÓÐABÓK MINNI.

Sjáðu snót mitt sálarskrín
sett með slitnu letri;
grátlegt er það, góðin mín,
að gjöfin er ei betri.

---

## AD POETAM HAUD FACETUM.

Lestu upp hjá Ambales
óðarsnild í rími,
og sjáðu, hvernig Sófókles
syngur hjá honum Grími.

## STJÓRNARSKIFTIN.

Hann, sem upp á „hægri“ bjó
hundrað ár og meira,
nú hefir sinni næturró
náð á „vinstra“ eyra.

## Á FÖSTUDAGINN LANGA.

Tímar sex á kvalakross
Krists eru lýðum taldir;
en sagan kennir Krist í *oss*
kvalinn í þúsund aldir.

## AF MUNNI FRAM.

Alt hið blíða yngir mig,
alt hið fríða kætir,
alt hið stríða egnír mig,
alt hið þýða bætir.

Horfðu á bjarta himininn,
haltu spart í auðinn;
fyrir hjartahlýindin
hörfar svarti dauðinn.

## FAÐIR VIÐ SON.

Þú varst snemma gjarn til góðs,
gull á brautu minni,
og gerðir aldrei mér til móðs
hið minsta' á æfi þinni.

## TIL GR. TH.

Fyrir þitt, Grímur, vísna-vés,
þó víða rími stygðist,
seldi' eg Gými Svananes,
síðan úr Ými bygðist.

## BRÚÐHJÓNIN.

Þín ætt, mín snót, var ekki smá,
en er að verða nokkuð lá,
og líkt og brostinn bogi.
En ættin hans var aldrei há,
en er að færast laggir á:
Þið mætist í miðju trogi.

## OSS STOÐAR EI.

Oss stoðar ei, þá kvöldið kemur,
að kvíða fyrir dimmri nótt.
Hví látum vér ei nótt, sem nemur,
og njótum hvíldar hægt og rótt?
Hve hýrt á eftir heilan dag,
að horfa' á fagurt sólarlag!

## KRITÍK.

Aischylos og aðrir Girkir,
ef þú svona lengur yrkir,
verða bögubósar, Tyrkir.

Enginn maður afli treysti;
ekki skortir vit og hreysti —
en hvar er greppsins guðaneisti?

Þín sál er ei á flugi fögur,
en farir þú með heima-sögur,
kveða fáir betri bögur.

---

## GÖMLU HJÓNIN.

Þú talar um þá myrkramakt,
sem mennina sé að pína;
en hefirðu séð, hvað samanlagt
sólin fær oft að skína?

Þú talar um haust og hrygðartár,
að horfið sé fjör og gaman;
en við höfum fimmtíu' og fjögur ár
fengið að búa saman.

Þú talar um eymd og afturför,
sem ellinni blóðið kæli,
en gleymir, að okkur gleði og fjör
var gefið í fullum mæli.

Hvað er að heimta' á haustsins tíð
hagana blómi stráða?

Lögum er bundið lýða stríð,
látum við Drottinn ráða.

„Góður er Guð í allri átt“,
óttumst sízt, hvar lendir;
húsið bíður í hálfa gátt,
sem hinumegin bendir.

---

## OFVIÐRIÐ.

Brot. Kveðið erlendis.

---

Nú þrumar og loftið logar,
svo löðri hafsins kviknar í.
Eg sit og svitinn bogar,
og sé yfir jörð og ský.
Hvernig skal fleyjum farast?
þau feikn er ei gott að varast.
Náttúran rymur sinn renmmis lag
um reiðinnar glóð og efsta dag;
í felmtrandi ofboðsflýti
flýgst á himinn og víti. . . .

---

## HVÍTINGUR.

Hestur Þ. Thorarensens á Móeiðarhvoli, 1884.

---

Þýtur fram hinn fljóti,
fljótara skotnu spjóti,

hvata vill glæsigoti,
grjóteldingar þjóta.
Skeiðsnotur ber ei skata
skrautlegri jór á brautu.
Hlaut alt – hver vill neita? –
Hvítingur, nema lýti.

---

## HÚS MAGNÚSAR KAUPMANNS Á GRUND

1894.

---

Grundar – ef úr grundu
goðar mættu skoða –
óðul, augu bæði
undrum gnýja mundu.
Enginn í Eyjaþingi
áður með snildarráðum
dýrra hefir né hærra
hús bygt, en Magnúsar.

---

## VIÐ KUNNINGJA MINN.

---

Eg veit að þú átt harla góðan haus,
en hræðist samt, að skrúfan enn sé laus,
því skap þitt er svo fjarskalega feyrað,
þú frændi þess, sem Malkus hjó af eyrað!

---

## „SÆMDARMAÐUR.“

Betra' er að vera sæmdarson,
þótt sé af kotungsblóði,
en lofðungsbur frá Lissabon
og lifa og deyja slóði.

## MEÐ LANDI FRAM 1895.

Sem fyrri horfa hyrnurnar
svo hljótt og fast á sæ,
og fornu kafaldskyrnurnar
með kúfinn sinn af snæ,
og djúpin öll og dalirnir,
alt dautt og kyrt sem fyr,
en horfnir flestir halirnir
og heljar gengnir dyr.

Og jafnir gnæfa jöklarnir
með jakalöfin forn,
og dansinn stíga stöklarnir,
en Stígur kvaddi Horn;
og sömu glotta gnúparnir
með gljúfrabúin spert;
mér finst, sem standi strjúparnir,
og stýfðir yfir þvert.

Þar roðnar gamli Riturinn,
er rennur sólin blíð;
hinn sami leiftrar liturinn
og lýsir Stigahlíð.
Nú sástu, frændi, í fjörðunum,
hve fagurt sólin dó,
og gakk þú eins frá gjörðunum
til Guðs með sálarró!

Þar kemur, sem sé, Kópurinn
og kveðst ei brúka staf,
sem gamall starir glópurinn
og gægist út á haf.
En hvar eru fornu frændurnir,
er forðum lék eg við?
Þín burst er heil, en bændurnir
þér blunda á hvora hlið.

Og traustu Látratangarnir
sig teygja rétt sem fyr,
og allir nesja-angarnir
við ægis bíða dyr;
og sama busl úr Bjarginu
mér berst að hlustum enn
af gamla fuglagarginu, —
en gröfin byrgir menn.

Og ennþá brosa Eyjarnar
um aldinn Breiðafjörð.

En hvar eru mildu meyjarnar,
ó, mæra fósturjörð?
Menn segja stöðug stefnumót
mig stöðvi hvert við stig,
þá komi einhver kararsnót
og kossi gleðji mig.

Já, kom þú svanni sjötugur
og sjáðu djarft á mig;
minn græni kjóll er götugur
og gjarnan kyssi' eg þig.
Af skapa döpru dómunum
oft dundu síðan él,
er baztu skúf af blómunum
og baðst mig lifa vel!

Með jaðrinum á jöklinum
fer jórinn trés á rás.
Í sama hvíta höklinum
þú hlærð enn, Snæfellsás!
Hve títt á kyrru kvöldunum
mig kætti blessuð sól,
er upp úr svölu öldunum
hún óf þér gullinn kjól.

Þið standið rótt á rótunum,
ó, risavöxnu fjöll,
en skjótt af feigu fótunum
er fallin mannsins höll.

Þið anzið lítið árunum,
og alda storkið þraut,
en við erum burt með bárunum,
sem brotna Hlés við skaut.

En bezt þið geymið bygðina
og bjóðið vinum heim;
um ástir, trúna, trygðina
þið talið fyrir þeim.
Í ykkar hamrahöllunum
sú hulda lengi bjó,
er farmanninn að fjöllunum
og fósturhnjánum dró.

---

## PÓLITÍK Á „LAURU" 1895,

(Úr bréfi).

Heldur finst mér heimarík
hérna þessi „pólska" tík;
aldrei man eg óhljóð slík
eins og vestur í Hlöðuvík.

Strax við Horn eg heyrði þyt
(Horn er vígt með „gúanó"-lit);
óx það garg, svo undir Rit
að eldasveinninn misti vit.

Inn á Djúpið fleyið fló,
fann þar enginn grið né ró,
bannsett tíkin beit og gó,
bátinn þrisvar fylti' af sjó.

Síðan bar oss suður um Kóp;
sömu læti, gelt og óp.
Í bræði ég að henni hljóp
og hana skýrði Strandaglóp.

Lagt var fyrir Látrabjarg,
losast hugði' eg þar við farg,
en fyrir ærlegt fuglagarg
fann eg sama stefnivarg.

Lerkaður eftir læti slík
lenti ég í Reykjavík;
heyri sama í hverjum krík –
en hér var hún orðin stofutík.

---

## „MERKIS-ÞORSKURINN."

Sit eg feginn, sviftur haus.
sé ei sköpuð ráðin,
völdum rúinn, vinarlaus,
völt er konungs-náðin.

Meðan öndin ýtir sér
undan holdsins pressu,
syngja vil eg sjálfum mér
sáluhjálpar-messu.

Ekki mun hið unga Frón
yrkja sorgarljóðin;
þegar fallið liggur ljón
látnum gleymir þjóðin.

Eg hef þó í þúsund ár
þreyð við Hólmann kalda;
frá mér bar hinn breiði sjár
blessan þúsundfalda.

Meiri var eg metum á
meðal vorra landa
þegar vorið Verinn blá
vakti alskínanda.

Yfir landi hungurshjarn,
hrygð og nauð í geði;
en á sandi sérhvert barn
sat við auð og gleði.

Reis þá alt úr kreppu lífs,
konur, menn og prestar;
brunuðu fram að borði lífs
baulur, féð og hestar.

Glatt þá mundi Garðarsey,
glóði fold af sælu,
þegar hundruð hlaðin fley
hneigðu morgunkælu.

Kom þar loks að konungur
köllun mína skildi,
heimti' eg væri herraður,
hvenær sem eg vildi.

Lengi var eg tregur til
að taka hilmis boði,
virðing stór er vandaspil,
og völt sem morgunroði.

Sé ég nú, mig ginti girnd,
gekk því létt að sanna:
engum væri sök né synd
sjálfan sig að manna.

En það vinna varð eg til
vegs að stíga sporið,
að eg lét í hafsins hyl
höfuðið af mér skorið.

Komst eg svo í kongsins skjöld,
krýndur ásamt ljóni;
skyldi tákna tignar völd
tyggja hér á Fróni.

Mér hefur tign sú mikla kent
margt um daga langa;
ekki mun nú öllum hent
í mín spor að ganga.

Hafi þorskur höfuðlaus
hugvit þurft að spara,
hann, sem mig til hefðar kaus,
hlýtur því að svara.

Aldinborgar ættin dýr
ól oss milda herra;
aðrir hlutu *höfuð* skír —
*hjarta* margir verra.

Stunda ment og mannlífsbót
meir en speki sinna;
hafirðu góða hjartarót,
höfuðið gerir minna.

Ekki bar eg Ísu-roð
eða þótti froskur
þegar kom með konungsboð
kórónaður þorskur.

Sýkn var eg, en merki mitt
markað var á pretti
og kramarinn á kerald sitt
kóngsins nafni sletti.

Samt var unnið ærið gagn
undir þorskins merki:
Vertú engum verra agn,
*Valur* höfuðsterki! –

Sé ég þú við sólu ber –
seta mun ei boðin, –
mikið dekur mannsins er
með hin nýju goðin!

Vertu hægur, Haukur minn,
hafðu ráð í tíma,
þóttu kallist þjóðkjörinn,
þér mun ráðin glíma.

Ekki hverfur styr og stríð
strax við burtför mína;
vænti eg hót þín verði blíð
við hana „systur“[1] þína(?!)

Þetta sé mitt andlátsorð;
alla kveð eg virktum.
Nær sem þorski mætir morð
mál hans verður stirt um.

---

1) Þ. e. rjúpuna.

## OPNAÐU BÆINN.

Ritað á „Albúm".

Opnaðu bæinn, inn með sól!
öllu gefur hún líf og skjól,
vekur blómin og gyllir grein,
gerir hvern dropa eðalstein.
Opnaðu bæinn!

Opnaðu bæinn, unga sál!
Inn með fegurð og guðlegt mál;
inn með alt hreint, og hitt í brott,
himnesk náð er að læra gott.
Opnaðu bæinn!

Opna bæinn, hjartans hús
helgi sér elskan líknarfús.
Þar, sem að aumir aðgang fá,
englar ei heldur sneiða hjá.
Opnaðu bæinn!

# III. KVÆÐI ALVARLEGS EFNIS.

## STUNA.

1901.

Hrannir loka ljóssins auga:
ljóssins móðir, góðar nætur!
Tún og engi tárin lauga,
titrar dögg á hverri brá;
sína litlu sælu grætur
sérhvert lífsins kuldastrá.

Sálar minnar sólarauga
seiðir líka reginhafið;
fyrir handan heimskautsbauga
hvarflar það um rökkurskeið.
Þar hefir fleiri felt en grafið
fimbulvetrar nornin reið.

Sé til nokkur sá, sem heyrir:
svara þeirri einu stunu;
æðar lífsins etur, reyrir
örvinglunar voða-tíð:
seg, hvort ljósin lifa munu
lífsins eftir dauðastríð!

---

## ÍSLANDS „HEIMASTJÓRN“.

Hvað er þessi „heimastjórn“?
Heimsku vorrar brennifórn,
niðurskurður níðs og rógs,
not hins sanna mentaplógs;
fjörbaugssök vors fólskujags,
flótti vesals stundarhags,
sveitardráttar dauðasök,
drottins nýju stjórnarrök!

Hvað er þetta „þjóðræði“? –
Það er fólks vors réttlæti,
siðabót vors betra manns,
bygð á rökum sannleikans;
eiginviljans frjálsa fórn
fyrir rétta lagastjórn –
fyrir alt sem léttir lýð
líf og dauða, rúm og tíð!

Hvað var það sem feldi Frón? –
Frelsið sjálft varð landsins tjón;
ofsi, frekja, heimska, heift
hafa löngum þjóðum steypt.
Hvað var það, sem Þorgeir kvað
þrumuraust frá helgum stað?
– „Losni friður, lög og sætt,
landsins frelsi verður hætt!“

Heyrðu mál hans, Þorgeirs þjóð!
Þú átt enn hið sama blóð,
blóð, sem nærir börn þín veik,
blóðið það, sem landið sveik!
Sturlusona stjórnarmál
sturlar ennþá marga sál;
blaðaþras og brask og níð
boðar langa svakatíð.

Íslands fyrstu fólskuvíg
fylgdu írskum þrælaríg:
Mundi Hjörleifs banablóð
bölvað hafa vorri þjóð?
Skyldi göfga Ingólfs ætt
Írinn hafa sundurtætt?
Er það hann, sem Íslands frið
elta skal í síðsta lið? –

Nei, nei, ungi ættlands son,
upp með hrausta trú og von!

Hræðst ei sköp né Skuldarorð,
skjóttu súlum enn fyrir borð!
Láttu andann lýsa dröfn,
leiða þig að friðarhöfn:
Gullnar töflur grasi í
glaður skaltu sjá á ný!

Þú, sem elskar líf og lýð,
launin skaltu fá um síð:
Á þinn vilja, vit og sál
verkar lífsins Alsvinnsmál.
Gegnum eld og storm og stríð
stefndu rétt um þína tíð;
hræðst ei bál né banasigð
búinn orku, trú og dygð!

---

## GRÍMSEYJAR-LJÓÐ.

Til prófessors Willards Fiske.

Milli heims og helju
við hafsbrún eg rís,
þar sem dáð og dugur
við Dumbshafið frýs.

Í álögum alin
og útburði lík;
af mér vill ei vita
veröldin rík.

Og þó hef eg þrokað
um þúsund ára bil,
frá því vel hún vissi,
að væri ég til.

Höfðingja hylli
eg hlaut ei né seim;
sjaldan koma gjafir
í Grímsey frá þeim.

Ólafur hinn helgi,
eg heyrt hef, mín bað;
en kærleikur konganna
kólnaði' eftir það.

Gvendur minn góði
á glapráða stig,
mun sá helzti herrann,
sem heimsótti mig.

Svarrandi syngja
mín sæfuglabúr,
þó hafa þjóðskáldin
þagað sem múr.

Um Ísland þau yrkja,
svo alt fer á kaf,
en aldrei stef né stöku
neinn stafkarl mér gaf.

Svöng hef eg setið
og séð inn á land,
grimmlyndur ísinn
þá girti minn sand.

Hugsjúku hljóðin
ei heyrðust um sæ,
blöskraði ísnum
og bar til mín hræ.

Vöknuðu ljóðin
þá vora tók að:
»Senn kemur sólin
og sumar í hlað.

Yngjast fer Ísland
og upprís úr þraut:
fegri falla tímar
í fósturlands skaut.

Fegri fæðast tímar
með fjörgandi sál:
þá koma gjafir
um Grímseyjar-ál!«

Leið þó svo öldin
að löng var mín bið:
hennar síðsta sólin
mér seig á vinstri hlið.

* * *

Nú er komin ný öld
og nærandi vor;
aldrei fann eg fjörga mig
fegurra þor.

Hræðst ei sköp né Skuldarorð,
skjóttu súlum enn fyrir borð!
Láttu andann lýsa dröfn,
leiða þig að friðarhöfn:
Gullnar töflur grasi í
glaður skaltu sjá á ný!

Þú, sem elskar líf og lýð,
launin skaltu fá um síð:
Á þinn vilja, vit og sál
verkar lífsins Alsvinnsmál.
Gegnum eld og storm og stríð
stefndu rétt um þína tíð;
hræðst ei bál né banasigð
búinn orku, trú og dygð!

---

## GRÍMSEYJAR-LJÓÐ.

Til prófessors Willards Fiske.

Milli heims og helju
við hafsbrún eg rís,
þar sem dáð og dugur
við Dumbshafið frýs.

Í álögum alin
og útburði lík;
af mér vill ei vita
veröldin rík.

Og þó hef eg þrokað
um þúsund ára bil,
frá því vel hún vissi,
að væri ég til.

Höfðingja hylli
eg hlaut ei né seim;
sjaldan koma gjafir
í Grímsey frá þeim.

Ólafur hinn helgi,
eg heyrt hef, mín bað;
en kærleikur konganna
kólnaði' eftir það.

Gvendur minn góði
á glapráða stig,
mun sá helzti herrann,
sem heimsótti mig.

Svarrandi syngja
mín sæfuglabúr,
þó hafa þjóðskáldin
þagað sem múr.

Um Ísland þau yrkja,
svo alt fer á kaf,
en aldrei stef né stöku
neinn stafkarl mér gaf.

Svöng hef eg setið
og séð inn á land,
grimmlyndur ísinn
þá girti minn sand.

Hugsjúku hljóðin
ei heyrðust um sæ,
blöskraði ísnum
og bar til mín hræ.

Vöknuðu ljóðin
þá vora tók að:
»Senn kemur sólin
og sumar í hlað.

Yngjast fer Ísland
og upprís úr þraut:
fegri falla tímar
í fósturlands skaut.

Fegri fæðast tímar
með fjörgandi sál:
þá koma gjafir
um Grímseyjar-ál!«

Leið þó svo öldin
að löng var mín bið:
hennar síðsta sólin
mér seig á vinstri hlið.

* * *

Nú er komin ný öld
og nærandi vor;
aldrei fann eg fjörga mig
fegurra þor.

Aldrei fann eg varmara
vor í minni sál:
gullnar koma gjafir,
um Grímseyjar-ál!

Betur en móðir
þú breytir við mig:
allir jöfrar jarðar
ei jafnast við þig!

Gullnar koma gjafir
við gleðinnar hreim:
signing mína sendi eg
suður í heim.

Hver mun launum lúka,
minn ljúfvinur dýr?
gæzku þína geldur
sá Guð, sem í þér býr!

* * *

Lofsæli Willard
með lífgjafar mund:
unnið hef eg álög
og örlaga-blund!

En sögð mun þín saga
og sungin þín fremd,
meðan góðs er getið
og Grímsey er nefnd.

Hver er þessi kraftur?
ó kærleikans hönd:
stórísinn stökkur
og stálviðjaböndǃ

Meðan eg á manntafl
og máta kann hrók,
um frægð þína, Fiske,
ei fletta þarf bók.

Lofsæli Willard
þinn líki' er ei neinn;
að stórhug og valmensku
stendur þú einn!

Meðan lifa ljóðin
og listanna safn,
hjala skulu börn mín
þitt hugkæra nafn.

## Í HAFVILLU 1895.

Hér eg ligg í þrúðgri þoku,
þjáður sjúkum hjartataugum;
rambar súð á risa-öldum,
rekur nærri skerjagjögrum.

Hrollur bindur hug og vilja –
hrollur sextíu' ára villu,
æfivillu, auðnuvillu,
undir ramri feigðarhillu! –

Hví skal óttast skuggaskrípi?
Skelfstu eigi, gamall maður!
Þér má senn á sama standa
sær og land og hver einn staður.

Þráður lífs er þegar brostinn,
þér er lítið gagn að biðum.
Enn til Drottins hertu hugann,
hann mun segja fyrir griðum.

## ESJAN.

1896.

Margan yndismorgun
man eg er gullu svana —

hljóð, og sól í heiði
hló í gömlu Móum.
Þó um kvöld og kulda
Kjalar- hærra talar
næðings hels og nauðir,
nesið við hana Esju.

---

## Í „ALBÚM“ FERMINGARSTÚLKU.

Enn er vor og yndi,
unga vina mín,
sól með sunnanvindi
svás á lofti skín.
Sóley ertu sjálf,
sézt þó varla hálf;
blómið þitt því enn er lokað aftur,
ilmur þess og kraftur.

Drektu geislann glaða,
góða liljurós;
blöð og legg þinn baða
biddu Drottins ljós;
þá munt þú á hól,
þó að lækki sól,
fram á vetur geyma glöð í lyndi
gullið, vor og yndi.

---

## TIL EGGERTS KAUPM. LAXDALS.

**Með ljóðabók minni 1895.**

Vermdu, vinur trausti,
veiku blöðin mín –
lífs míns lauf á hausti
lögð í mundu þín.

Sorgarsvala vorið
sveik minn blómsturarð,
bliknuð hef eg borið
blöðin heim í garð.

Eftir sennu sára
sé ég nú minn dóm:
arður sextíu' ára
orðinn fáein blóm!

Langt á haust er liðið,
laufin feld við ofn,
yfir svala sviðið
sjálfur drúpir stofn.

Og þó mengið mæli
mér sé vorkunn ei,
mínum hróðri hæli
halur jafnt sem mey:

Týndu bragarblómin
bætir enginn mér.
Ekki nema óminn
eftirlæt eg hér.

Veit eg að eg átti
auð í minni sál;
en er mest eg mátti,
misti' eg viljans stál.

Eg varð aldrei hálfur –
ef eg rétt mig skil; –
hvort eg sé þess sjálfur
sök, ei dæma vil.

Verm þú, vinur kæri,
veiku blómstrin mín;
óm og ilm þau færi
anda míns til þín!

Láttu brúði blíða
binda þau í rautt.
Það mun laufin þíða
þegar tréð er dautt!

hljóð, og sól í heiði
hló í gömlu Móum.
Þó um kvöld og kulda
Kjalar- hærra talar
næðings hels og nauðir,
nesið við hana Esju.

---

## Í „ALBÚM“ FERMINGARSTÚLKU.

Enn er vor og yndi,
unga vina mín,
sól með sunnanvindi
svás á lofti skín.
Sóley ertu sjálf,
sézt þó varla hálf;
blómið þitt því enn er lokað aftur,
ilmur þess og kraftur.

Drektu geislann glaða,
góða liljurós;
blöð og legg þinn baða
biddu Drottins ljós;
þá munt þú á hól,
þó að lækki sól,
fram á vetur geyma glöð í lyndi
gullið, vor og yndi.

---

## TIL EGGERTS KAUPM. LAXDALS.

**Með ljóðabók minni 1895.**

Vermdu, vinur trausti,
veiku blöðin mín –
lífs míns lauf á hausti
lögð í mundu þín.

Sorgarsvala vorið
sveik minn blómsturarð,
bliknuð hef eg borið
blöðin heim í garð.

Eftir sennu sára
sé ég nú minn dóm:
arður sextíu' ára
orðinn fáein blóm!

Langt á haust er liðið,
laufin feld við ofn,
yfir svala sviðið
sjálfur drúpir stofn.

Og þó mengið mæli
mér sé vorkunn ei,
mínum hróðri hæli
halur jafnt sem mey:

Týndu bragarblómin
bætir enginn mér.
Ekki nema óminn
eftirlæt eg hér.

Veit eg að eg átti
auð í minni sál;
en er mest eg mátti,
misti' eg viljans stál.

Eg varð aldrei hálfur –
ef eg rétt mig skil; –
hvort eg sé þess sjálfur
sök, ei dæma vil.

Verm þú, vinur kæri,
veiku blómstrin mín;
óm og ilm þau færi
anda míns til þín!

Láttu brúði blíða
binda þau í rautt.
Það mun laufin þíða
þegar tréð er dautt!

# ÆSKA OG ELLI.

Um 1900, í minningu vinar.

---

Meðan æskan sér leikur sem brosandi barn
með sín blómstur og ljómandi gler,
leggur ellin af stað yfir hrjóstur og hjarn
og úr heiminum volæðið ber.

Því að æskuna gagntekur vonin og vor,
og hún vekur alt stirðnað og kalt;
„á dyr", segir' hún, „elli með dvínandi þor
fyr en deyðir þú heimslífið alt!"

Og á skjöldinn hún slær, og hún horfir og hlær
yfir hverfleikans titrandi blik,
meðan ellin fer braut með sitt ólán og þraut. —
Er þá altsaman hégómi og svik?

Því að örskamma stund stendur grasið á grund,
og að gröf snýr hvert einasta spor,
og hin léttasta lund verður logandi und
þegar liðið er frumlífsins vor.

„Nei, nei!" svarar Elli, „því alheimsins lög
eru öllsömun jafnaðarstríð,
þar til eg eins og þú verð í vizkunni hög
eins um vetur og hásumartíð.

Þar til hver okkar græðir sinn innvortis auð
og þann aldur, sem þekkir ei neyð,

og við fögnum, sem systur, þó foldin sé snauð
og við föðmumst í lífi sem deyð!"

Þannig söngstu mér, vinur, sem sofnaður ert,
því að sál þín var ung fram í hel.
Ó, svo lyft þér og leik þér og léttfleygur vert
yfir leiftrandi sólbúa hvel!

## LÍFSSTRÍÐ OG LÍFSFRÓ.

Eg leitaði' um fold og sveif yfir sæ,
því að sál mín var hungruð í brauð,
en eg gat ekki neinstaðar gulli því náð,
sem oss gefur þann lifandi auð.

Og svo varð eg uppgefinn, sál mín svo sjúk,
að hún sá ekki líkn eða fró,
því alt traust á mér sjálfum með trúnni var burt,
og af tápinu sorglega dró.

En þá var það eitt sinn á ólundarstund,
að eg eigraði dapur á sveim;
og eg reikaði hljóður um víðlendisvang,
því eg vildi' ekki í tómleikann heim.

Þá heyrðist mér rétt eins og hvíslaði rödd,
svo að hjarta mitt greiðara sló:
„Ef þú horfir með ólund á himin og jörð,
þá hlýtur þú aldregi ró!"

Þá leit eg í kringum mig, loftið var alt
ein logandi kveldroðaglóð,
meðan sólin mér heyrðist við sæflötinn yzt
vera' að syngja mér óminnisljóð.

Og fuglarnir, lyngið og lækir og grjót
og lömbin og fjöllin og hjarn
fékk aftur sinn heilaga samelskusvip,
og ég sjálfur? – Eg lék eins og barn!

---

## Í „ALBÚM“ SKOZRAR KONU 1871.

**Kveðið af munni fram.**

Heil og hress,
heiðvirð móðir!
Þér heilsar sægarpa sonur.
Veðurbarinn
víkingaleið
ók eg eldreið til Skotlands.

Eg á föðurland,
þar frost og eldur
á í eilífu stríði.
Norður við heimskaut
hýrist fjallkona –
Það er eykonan Ísland!

Volegt er þar
meðan vetur ríkir:
ísar, ógn og myrkur;
heilög sunna flýr
fyrir hræðslu sakir,
en stjörnur á verði vaka.

Og Guðs himinn
á hverju vori
grætur líkn yfir landið;
gleðst þá og göfgast
hin góða sól
og sofnar ei vikum saman.

Þaðan mig ber
að þínum húsum,
mjúklynd skozka móðir;
hræðst' ei mitt hjarta,
þótt sé höndin köld,
og sé eg á Íslandi alinn.

Norður við heimskaut
Herrann leggur
einnig eld í hjörtu;
geymdi mig þar
fyrir grimd og frosti
móðir mild eins og þú.

Geymdi mín Guð
í góðu skjóli

fyrir feikn og voða.
Heitara' en minnar
móður hjarta
þektu' eigi sóllanda synir.

Heill þér móðir
og húsi þínu!
Breyttir eru sækonga synir:
Hvar sem eg sé gott fólk
gleðst minn hugur
og hrópar: Hér sé friður!

---

## ÞÓRÐUR BRÓÐIR MINN, 1861.[1]

Dimm í sogi sýður alda
svartan kring um drangafót,
lagar skolar löðrið kalda
landaþröm við sævarrót;
sækir rán í reginmóði
raman klett um dægur löng,
stynur bjarg með hásu hljóði
hrannar undir feigðarsöng.

Bróðir minn, í brjósti þínu
barðist þannig fjör og hel,

1) Eitt með fyrstu erfiljóðum höf.

öllu beitti afli sínu
einatt hvorutveggja vel.
Loksins, – eins og boðinn bresti,
brotni viður unnarstein –
banaspjótið brjóst þitt lesti,
blæða hætti dauðamein.

Þú varst hraustur, þjáning alla
þoldir þú og barst þig vel,
vildir aldrei, aldrei falla:
upprétttan þig nisti hel.
Þú varst sterkur, hreinn í hjarta,
hirtir ei um skrum og prjál;
aldrei náði ilskan svarta
ata þína sterku sál.

Þín varð, frændi, hér í heimi
hörð og skammvinn æfidvöl;
ekkert fékstu af auði og seimi, –
yfrið nóg af raun og kvöl.
Kistu þína kroppar ormur,
kyr og gleymdur sefur nár;
yfir leiði stríður stormur
stillir grafarlilju tár.

Fljúg því, andinn ódauðlegi,
elfdur lífsins sælu trú,
brott frá döprum dauðans vegi
dýrðarinnar himinbrú!

Láttu glaður fúinn fjötur
feigðar bak við skuggatjöld;
sjáðu bjartar brosa götur
bak við himinsólna fjöld!

---

## EFTIR BEKKJARBRÓÐUR MINN.[1]

Göngum enn í sætin sveina,
senn mun klukkan aftur slá;
sitjum kyrrir svipstund eina,
syngur Tíminn flugi á.
Kemur ekki kennarinn?
Kominn þá skal sérhver inn. —
Hvar er Páll? Hann kemur eigi,
klukkan slær á miðjum degi.

Hvar er Páll? Og hvaða hljómur
heyrist gegnum lukta gátt?
Dánarbjöllu dapur ómur
dunar við þann klukkuslátt!
Hver er það, sem horfir inn,
heldur sigð við bleika kinn,
bendir inn á bekkinn auða? —
Boðar þú ei sorg og dauða?

1) Páll stúdent Melsteð, dáinn 2. júlí 1865 að Hofi í Vopnafirði.

Svo oss fanst er fregnin þunga
flutti' oss þetta sorgarlát.
Skemst er síðan sveitin unga
saman undi glöð og kát.
Nöpur ertu norðurströnd,
nú hefur dauðans kalda hönd
einn úr hlýjum hópi bræðra
hrifið burt til lífsins æðra.

Og oss finst, sem feigðin þunga
flytji svo það bróðurlát:
„Mundu, sveinasveitin unga,
svipstund lífs að hafa' á gát;
stutta hef eg, bræður, bið,
búist þér mér einnig við,
vakið, því þér vitið eigi
„vinur komdu!“ nær eg segi!“

Eftir horfnum æskubróður
angurværir störum vér;
saklaus, ljúfur, lyndisgóður
lífs á morgni burt hann fer.
En þá björtu barnasál
blekti þó ei heimsins tál.
Heill þér, Páll, þú fórst að finna
frægar sveitir áa þinna!

Þið, sem djúpum harmið harmi
horfinn, dáinn fremdarson,

sízt er kyn, þó sorg á hvarmi
sjáist þar, sem brosti von.
Lesið djúpt þau lífsins mál,
ljós sem boða kvaldri sál.
Sonur ykkar lifir, lifir!
leiðið þó að breiðist yfir.

Bræður loks í bróður nafni
bera hjartans kveðju þér,[1]
landsins beztu brúða jafni!
„Bezt“, hann tér, „þú unnir mér;
ung þú munt mig aftur sjá;
öll skulu blómin, stór og smá,
yfir gröf, sem gróa minni,
gráta þakkir elsku þinni!“

---

## ÁSTRÍÐUR SYSTIR MÍN.

**Dáin 1887. Ort um 1900 til sonar hennar.**

Því segir þú, eg systur minni gleymi,
þó semji ljóð,
og þinni mildu móður enn þá geymi
eg minnis-óð?

Því segir þú, ég syngi' um „val og dúfu,“
en systir mín

1) Guðlaug kona B. Gunnlaugssonar yfirkennara. Hún var fósturmóðir Páls og unni honum mikið.

sé mærðarlaus und moldar-lágri þúfu —
hún móðir þín?

Því segir þú, að fjarskyld fljóð eg kenni
við fagra rós,
en veröldin ei vita fái' af henni,
sem var mitt ljós?

Ó, seg mér ei, að sorgar þrái óðinn
hún systir mín;
hún kýs ei mærð, hún metur þögul ljóðin,
hún móðir þín.

Í hverjum sönnum sálar minnar óði
hún syngur dátt;
hún fylgist með, og hlustar á í hljóði
minn hörpuslátt.

Mér stundum fanst sem gluggalausum geimi
hún gengi í;
og meir hún leið, en mætti' eg segja heimi
frá meini því.

Um aðra kveða hörpu minnar hættir
við Hnikars vín,
en flestir *mínir* liggja litlu bættir
við ljóðin mín.

Eg er ei nízkur; eigi' eg gnægð af gæðum,
sem gefið fæ,

en sumt er, sem eg kann ei við í kvæðum
að kasta á glæ.

Hve títt eg söng, ó systir, ljúfa systir:
mín sorg er *þín*?
Þá saztu blind og sinnu þína mistir,
þín sorg varð *mín*!

Þú leiðst með mér, þó langar skildu brautir —,
eg leið með þér,
og bað um ljós, að létta kvöl og þrautir
og lýsa þér. —

Um ljós, um ljós: Og ljós mitt varstu systir
og líkust mér.
Í Guði lifðu, góða, hreina systir,
og Guð í þér!

---

## FAÐIR MINN, † 1898.

Það vantaði fátt að þú fylgdir þeim stóru,
en forn og slitin þín klæði vóru.

Já, oft til að vinna þér vegsemd og happ
þig vantaði fátt — kannske þveng eða hnapp!

Og brygðist þér vegur og völd hjá þeim smáu,
þá vilti það stóra, menn þektu' ei né sáu.

Þú varst eins og meistara-málverkin góðu,
sem menn höfðu geymt, og sem byrgð eru móðu.

Þú varst eitt af trjánum á vindkaldri jörðu
með viðkvæmu laufin og stofnana hörðu.

Hið innra var máttugt og auðugt og hlýtt,
hið ytra var hrufótt og stórt og grýtt.

Og svo gjörir heimskan og heimurinn sitt:
hugsar með augunum: „Hvernig er það litt?"

---

Þú reiðst með mér, faðir, um Rangárvöll,
yfir rjúkandi sand, yfir vatnaföll,
og lézt þig aldregi letja.
En Hekla sýndist þér sviplegt tröll,
því sólroðin ljómuðu Vaðalfjöll*
í huga þér, áttræða hetja!

En samt var þinn fornvinur sagan um Njál,
því samgróin var þinni hugsandi sál
þín ættjörð og öll hennar fræði;
og frá því þú barn með börnum stóðst
þú barðist með Gunnari og logana tróðst
með Skarphéðni' í kappanna kvæði.

---

1) Hamrafell upp frá Skógum í Þorskafirði, þar sem faðir minn, afi og langafi bjuggu. M. J.

Vaðalfjöll horfa' yfir hýra sveit
og hrjóstrugan, fornan skógarreit
við Gullþóris fjörðinn fríða.
Heitara mannsbrjóst í harðari vist —
herma mun sérhver, sem þar hefur gist —
finst ekki' um foldina víða.

„Nú vendi ég,“ sagðir þú, „vestur og heim,
og vil ei að nokkur mér fylgi á sveim;
þar bíður mín brúðurin ljúfa;
þar bjóða mér faðm hin blessuðu fjöll,
þar bjóða haustsöngva vötnin öll,
og leiði hver litfögur þúfa.“

Og einn komstu heim; en æ, hve kalt,
hve aumt og napurt þér fanst þó alt
vera orðið á æskunnar svæði;
þú vaktir og hlýddir á veðranna gný,
og veikur og einmana dimmunni í
söngstu þín sálmvers og kvæði.

Þú sagðir í bréfi: „Mér batnar í vor.“
Og blíð urðu, faðir, þín síðustu spor:
þú gekst út um árdegisstundu;
þú lofaðir Guð fyrir litfagran völl,
og leizt upp á sólroðin Vaðalfjöll,
og leiðst síðan liðinn að grundu!

Nú sofið þið, faðir og móðir mín,
og móðan rennur og fossinn hvín,

og brátt komast börnin í næði.
Hvað segir tíminn, sem framhjá fer? –
mér finst eins og sungið í eyru mér –
Það er viðlag úr vöggukvæði.

---

## BERGUR THORBERG LANDSHÖFÐINGI.

(Impromtu.)

Aldrei er svo bjart yfir öðlingsmanni,
að eigi geti syrt eins sviplega' og nú;
og aldrei er svo svart yfir sorgarranni,
að eigi geti birt fyrir eilífa trú!

---

## TIL EKKJU 1892.

Margrétar Sveinbjarnardóttur, ekkju Þorvarðs frá Kalastöðum.

> Come, child of misfortune, come hither,
> I'll weep with Thee tear for tear!
> T. Moore.

Eg vildi gjarnan græða
þín geysilegu sár;
en hvað er kraftur kvæða?
Hann klöknar við þín tár.

Eg þekti fyr á foldu
þinn fríða snildarmann;

þá hetjan hneig í moldu
þinn harmadagur rann.

Þú sýndist sterk í straumi
og stríddir listavel,
en oft í dagsins draumi
þig dreymdi sorg og hel.

Og svo kom plágan seinni,
er svelgdi Ægis tjörn
á örlagastundu einni
þín ungu, fögru börn:

Þinn styrktarvin að stríða,
hinn sterka, prúða son,
og dóttur-blómstrið blíða,
sem bezt var lífsins von.

Nú situr þú við sæinn
með sorgar þinnar auð
og heyrir bárubraginn,
sem buldrar: köld og dauð!

Því veit eg færri fljóðin,
sem fengu stærri sár.
Ó, mættu ljúfu ljóðin
þér lina fáein tár!

Ef brimið beljar skarpa
um bana voldug ráð,

þá hljómi þér mín harpa
um hulda Drottins náð.

Og vilji veðrið trylda
þér vekja hrygðartár,
skal vísan mín hin milda
þér mýkja sorg og fár.

Þá banasigðin svarta
þér sýnist meir en hörð,
þér slái hvert eitt hjarta
með hluttekning á jörð!

Og hrósi sigri særinn,
er svellur brim við strönd,
þá hvísli himinblærinn
og huggi þína önd!

Og syrti í kvölum kífsins
um kaldan ekkjustól,
frá dularlindum lífsins
þér ljómi guðleg sól!

Og neiti nöpur storðin
um næði, skjól og grið,
þér ómi lífsins orðin
um elsku, náð og frið!

Til hæða, beint til hæða
frá harma vorra sjó!

Því hvað er mesta mæða:
á morgun kemur ró!

---

## „DRAUPNIR."

1897.

---

Hark varð á hafinu, hóf sig úr kafinu
herjandi lönd,
Kári brimgirðandi, kveljandi, myrðandi
kvíðandi strönd.
Veðrið í voðunum vaxa fór gnoðunum,
viknuðu bönd.
Ó, hve þú dylur þig, ógnandi hylur þig,
almættis-hönd!

Brak varð í byljunum, bratt varð á þiljunum,
bólgin varð Hrönn;
hóf sig í bungunni, hvæsti með tungunni,
hvelfdi' yfir fönn.
Holskafla syndandi hnigu menn blindandi
Hels undir tönn;
rauk upp af nauðunum, römmum frá dauðanum
rofaði' ei spönn.

Rétti sig stynjandi, rymjandi, dynjandi
ráðviltur knör;
Tveim inum hraustustu, hvötustu, traustustu
hvílan var gjör,

holbáran benti þeim, hóf upp og henti þeim,
hungruð í fjör;
stýrið það brotnaði, stjórnlagið þrotnaði, –
styttist í vör!

Sex lifa stríðandi, bana síns bíðandi'
í bliknandi ró;
yfir tók æðið. – En unglingnum blæðir,
sem áfallið sló!
„Mjög gerist rostulegt, mikið og kostulegt
mannsefni dó.
Frelsarinn góði, seg fáráðri móður:
hann fórst ei í sjó!“

Hóf einn þann deyjandi, helsærða þegjandi
höndum á tveim.
Nú fyrir byljunum niðri' undir þiljunum
næði fá þeir;
pilturinn deyjandi, dauðanum hneigjandi,
Drottins sér geim;
hvíslaði kveðjandi, hlýra sinn gleðjandi:
„Heim! Eg sé heim!“

Signingu bandaði seggur þeim andaða,
svamlaði braut.
Enn frekar æðandi, ægileg, hræðandi,
eftir var þraut.
Fimm eru' á glóðinni: fjall út úr móðunni!
í flugbjargi þaut;

hrynur á boðanum, hvín yfir voðanum
Hornstrandaskaut!

Þrumaði í drifinu dauðinn á rifinu –
dóminn þeir sjá!
„Signi þig, bróðir minn! Senn grætur móðurin
synina þrjá!“
Kaðlinum vatt hann sig, vasklega batt hann sig
vindborða hjá:
„Gæskan mín stríðandi, grátandi, kvíðandi!
Guð, lít hér á!“

Í því kom bresturinn, bölheimagesturinn,
byltist um far;
kapparnir dóu þar, heimsöflin hlógu þar,
hlakkaði mar;
björgin og hvelfingin, brimið og skelfingin
buldu það svar:
„Helfararsöngur ei hér undir dröngunum
harðari var.“

Djúp er rödd báranna, dýpri sog táranna
dauðans um ver;
dimmur er dynurinn, voldugri vinurinn,
vonin er sér;
harður brimóðurinn, harðari móðurinn
hetjunnar er;
hátt er á boðanum, hærra frá voðanum
hönd Guðs þig ber! –

Sofandi vakið þér, sveinar, og takið þér
samhuga ráð!
Sjórinn hann sefur ei, Græðir hann gefur ei
grið eða náð.
Hrópandi „lífrentu!“ hrynja þær stífhentu
hrannir um gráð.
Guð hjálpi grátendum, ljúf-vina látendum
lengd sem í bráð!

---

## „ANNA MÍN, ANNA!“

Ort fyrir konu 1897.

---

Svo tryggur varð mér treginn sár,
hann telur ennþá daga' og ár,
svo lengi sem mér treinast tár
og tímar lífsstundanna!
Anna mín, Anna!

Þá stund er lástu lík, mitt barn,
var líf mitt eins og vetrarhjarn,
frá hjarta mínu, hjartans barn,
gekk hróp til Guðs og manna:
Anna mín, Anna!

Eg sór og hét á himna-sól,
er hjartavarma lífsins ól,
að dirfðist ei Guðs dýrðarskjól

þinn dauði mér að banna.
Anna mín, Anna!

Og Drottins streymdu dýrust orð,
sem döggva þessa feigðarstorð,
en hungruð við það blessað borð
eg brauðið smáði sanna,
Anna mín, Anna!

Og svarið, sem eg fékk og fæ
af foldu, himni, lofti, sæ,
er þetta sama sí og æ,
er svölun vill mér banna.
Anna mín, Anna!

En sorgin felur undraóm
og ægilegan setur dóm,
svo fýkur burtu fis og hjóm
og fals úr sálum manna.
Anna mín, Anna!

Og sorgin mín, mitt sæla jóð,
hún sýndi mér eg nakin stóð;
og loks varð höndin Guðs mér góð,
eg greip þann eina, sanna.
Anna, mín Anna!

## TIL SYRGJANDI KONU 1895.

Hve inndæl og ljúf er oss elskunnar gjöf —
en æ, hví er lífið svo bundið við gröf,
og sorgin og fárið ei fjarri?
Því stingur þú hönd mína, hlæjandi rós?
Því hræðist ei myrkrið, þú blaktandi ljós!
því stendur oss neyðin svo nærri?

Hvort syndgaði' hinn blindi, er sjónina lét?
og saklausa barnið, sem fæddist og grét?
hvað veldur þeim volæðiskvölum?
Hvað veldur -- hvað eitrar svo aumingjans líf,
sem alls enginn hjálpar og hvergi sér hlíf
unz liggur á lífsvana fjölum?

Eg kann því ei svara, en grátið eg get
og gengið við hlið þér hin tárugu fet
að gröfinni, grátfagra vina!
En bið mig ei heldur um bót, eða svar,
eg er brákaður reyr, eg er titrandi skar,
og veit mig ei vitrari' en hina.

Spyr Drottinn á himnum, hvort haft hafi' ei þörf
á honum, er sæaldan togaði djörf
og sogaði' í élinu svarta;
og um vininn þinn hinn með sitt helstríð svo kalt,
hvort *hann* hafi tapað og *þú* látið alt,
eða' skíni' hann við Skaparans hjarta.

Og spyr svo um börnin, og kom þú til Krists,
því kærleikans dýrustu spor áttu viss
hjá honum, svo holl fyrir sárin;
já, kom til hans hiklaust og kvarta við hann,
þá kemur fyrst lífið í örþjáðan mann,
þá fossa þau friðandi tárin.

Og svo breytist reynslan í signandi gjöf,
og svo sprettur liljan og brosir á gröf,
sem börnin þín vakin af blundi.
Þá dreymir þig elskunnar ómælisheim
og eilífu táknin, sem næst eru þeim,
sem harðast í stríðinu stundi.

---

## KONAN FRÁ EIÐI.

**Dáin í Akureyrarspítala 1898. Kveðja til manns og barna.**

---

Ber nú minn blíði
börnum okkar
elsku mína
og andlátsbænir;
inn þeim og inn
alt hið bezta,
seg milt og mjúkt:
„Mömmu' er batnað".

Inn þeim og inn,
að engin tunga
geti sagt,
hve gott eg eigi;
eg sé horfin
að hvílu þeirra,
og svífi sæl
á sólargeislum.

Leið þau í tún
þegar tárin glóa
og sólin signir
sínar dætur;

sýn þá í daggbikar
dýrra blóma
munar-munn
móður þeirra.

Og er aftur
augun lifna—
ódáinsaugun
uppheimssala:
seg, hin blíðustu,
seg, hin fríðustu,
seg, hin mildustu
sé móður þeirra!

Og þegar haustið
himin byrgir,
og sveipar sali
spipleg njóla,
líði' eg í ljósi
lifendum falin,
blessandi mínar
barnakindur.

Einn ferðu aftur,
unnustinn ljúfi,
auðn sýnist Eið,
þó er eigi svo:
eitt við vorum,
eitt skulum vera;
hingað tróðum helveg,
hvergi skulum skilja!

Finn mig, finn mig,
þar, sem faðmi bindast
Draumur og Dauði
í dagroða.
Fræ á alt fagurt
Fensölum í;
faðmar eigi forgefins
fjóla sólu.

Liggja laundyr
til líknarsala,
sem Ást og Andi
aðeins þekkja;
þaðan er hafsjó
hels að líta:
hverfandi hrím
á hjálmi rósa.

---

## DÁINN SONUR,

sendi kveðju móður sinni, ekkju.

1898.

---

Heyrðu, hjartkær móðir,
heim í garð til þín
ber minn eldri bróðir
banakveðju mín.

Leikur líf á þræði,
ligg eg ungur nár,
á nú gott, en græði
Guð þitt nýja sár!

Gjörvalt úti' og inni
aumki þig á storð;
svölun sálu þinni
syngi Drottins orð.

Stríð og stormur tali
styrk og táp og dáð,
lindin ljúf þér hjali
líknarfró og náð.

Helja sjálf þér syngi
sæluríka von;
eilíf trú þér yngi
aftur mann og son!

Grátin hér við hyljum
holdið ráðalaus:
brosir loks á liljum
lífstár hvert, er fraus.

---

## PALMI.

Hjón á Kjarna í Eyjafirði mistu fjögur vaxin börn á stuttum tíma úr tæringu. Pálmi var yngstur þeirra og lézt síðast, efnissveinn og þá nýfermdur.

---

Lítið er að láta
lífið kalt og bert;
lengi liðinn gráta
lízt mér ekki vert.

Verði Guðs að vilja,
vizka manns er blind;
vora vegu hylja
vanþekking og synd.

Herrans höndu styrkri
haltu fast í trú,
helzt í hrygðarmyrkri
hana finnur þú.

Vaxi voðans eldur,
vina þverrar dáð,
ein við hús vor heldur
hulin guðdóms náð.

Berið, hjón, og berið
börn að grafarrönd;
vinum horfin verið,
viss er Drottins hönd!

Guð mun ungum gesti
gefa blessað ár,
neitt þó fái nesti
nema sorg og tár.

En þú, vinur ungi,
eg vil minnast þín.
Heimska, hrygð og drungi
hverfi sálu mín.

Góðum himingesti
gef eg það eg hef;
tíni til í nesti,
trúar minnar stef.

Óm af sigursálmi
sálin skynjað fær:
gráts af pílvið, Pálmi,
pálmatré þér grær.

Eins og ljúfa lindin
leið þín æskutíð;
himins hreina myndin
hélzt þar skær og blíð.

Nú sem elfarómur
ymur lífs frá grund:
þinn mun þekkjast rómur
þar á sælli stund.

Svíf til systra þinna
sólargrams í lund;
gakk þitt verk að vinna,
vinur, Guðs á fund!

---

## TIL MÓÐURINNAR Á KROSSUM.

Hún misti fjóra syni sína sama dag í sjó, 1898.

---

Guð hjálpi mér! Að horfa' á kalda hafið,
sem hefir fjóra sonu mína grafið!
Guð hjálpi mér! sem þvílíkt eftir átti
og ekki fyrri kveðja lífið mátti!
Guð hjálpi mér! Þó ljósið lýsi húm,
það lýsir aldrei þessi tómu rúm!
Þá aðrar sofna' og sorgin þeirra dvín
þá sezt eg upp, að gráta börnin mín.
Á einum degi: alt með brugðnum liti —
á einum degi! — Hvernig hélt eg viti?
Sem lamað strá eg lít, minn Guð, til þín:
Því léztu sjóinn taka börnin mín?
Því léztu mig í minni elli líða
svo mikla hörmung? Hvers á ég bíða?

---

Sannlega svofeld orð
sungu þér haf og storð
þá sviplegt sonamorð
sorgin þér lagði' á borð.

Varla sá fegri farm
fallanda hels á arm;
von er, þó vættir hvarm
þá voðinn sló þinn barm.

Þung eru manna mein,
móðir við unnarstein,
harmandi hljóð og ein
hvern öðrum dýrri svein!

Hvervetna heyrðist skraf:
harm sinn hún ber ei af;
Guð á ei göngstaf
gegnum það Rauðahaf.

Það er ei satt, eg sver,
sannlega gaf hann þér
stafinn, sem styrkri er
stormandi dauðans her.

Langt fram á annað ár
eftir þitt mikla fár
vel hefir Herrann hár
hirt um þitt banasár;

Farið það hollri hönd,
hreinsað og lagt við bönd,
sýnandi særðri önd
sólfagra vonarströnd.

Hjartafrið hefir þú
hlotið í Jesú trú;
í sannleik sérðu nú:
sorgin er himinbrú.

Æskan, þó endi skeið,
aldrei við þrautum kveið,
sér ekki synd og neyð,
þó sortni Ránar leið.

Ungur á græðisgrund,
gleð þig við Drottinsfund;
hníg þú sem barn í blund,
ef bana- mætir stund!

Óðar en aldan gín
endar þín kvöl og dvín.
sárara sorgarvín
sýpur hún móðir þín.

Móðir með sollin sár,
sólin þín græði tár,
blessi þig himinn hár,
huggi þig sjórinn blár!

Syngi við svala hlein,
sverji við kaldan stein:
„Guði, sem græðir mein,
geymi ég öll þín bein.

Hægist þín harmaköll,
hræðstu' ei mín boðaföll;
þau heita *englar* öll
uppi hjá lífsins höll.

Sjáðu því, sorgar-sprund,
er svíður blóðug und,
álengdar unaðsfund
eftir þá dimmu stund."

---

Því stundin kemur, stillast skulu tárin
og stöðvast þessi gömlu harmakvein,
því eftir fleyg og fáein mæðuárin
er fárið gleymt og búin gjörvöll mein.

Vor einkabót, er auðnan snýr að baki,
og alt það bregzt er helzt vér treystum nú,
er það, að grípa Drottin dauðataki
og deyja rótt í barnsins fögru trú!

---

## HUGFRÓ.

Til manns, er misti konu sína 1901.

---

### I.

Hví er dimt í höfðings húsi?
Hvar er yndi þess og sólin?
Hvar er hún með hlýja málið?
Hvenær koma blessuð jólin?

Því er dimt í þessu húsi,
þaðan flýði glaða sólin;
lífið, yndið, alt er horfið –
aldrei koma blessuð jólin.

Aldrei undir þessu þaki
þeim, er slíka brúði gráta.

Þungar eru þrautir lýða,
þúngar fram úr öllum máta.

Himinn, jörð og haf þó brynni,
helið mundi ei neitt sig láta,
hjarnið mundi þó ei þiðna, —
það hefir verið reynt að gráta.

Og þótt allra hugi hrifi
hjartaljóð, svo gréti stálið:
enginn vekur augu brostin,
enginn dána blíðumálið.

Hver er bótin? Tíminn? Trúin?
Tölum minst, er þannig blæðir.
Hver er bótin? Tíminn tefur,
trúna sjálfa dauðinn hræðir.

Næst er *minnið* mannsins hjarta,
minnið, það á ríka hljóma,
undravald, sem vermir, nærir
vora dýpstu helgidóma.

Eins og vorið vekur mestan
vonararð úr dýpstu hjarni,
sárust minning getur gefið
gróða mestan tregans barni.

Því hún opnar andans leyni,
örvar, skapar krafta dulda,
gjörir manninn fastan, frjálsan,
færan móti dauðans kulda.

Skylt er mér í ljóði lýsa,
ljúfi, þinni hjartans brúði;
en mér deyja orð á vörum,
augun fyllir gamall úði!

Svo er það, og þó eg freisti
þína sorg að láta dvína,
verður mér þá minstu varðar,
mína eigin fyr að sýna.

Því eg átti, — átti, misti
eina, sem eg líka þráði;
eins og þér mér sýndist svanni
sólin mín á dimmu láði.

Vorið næsta væna sólin
var í hafið dauðans runnin.
Og eg hélt í hörmung minni
hver ein taug mín væri brunnin.

Vera má að vissar taugar
visnað hafi' í þeirri kviðu;

víst er eitt, að engir strengir
æðra lífs míns skaða biðu.

Svo er hitt, að sorg sem þessi
send er ætíð hverjum *einum*,
svo af öðrum – utan Guði –
ekki bætist hún af neinum.

Þigg samt, vinur, kvæði' að kveða,
kveða þegar hnígur sólin,
kveða þegar Kristur fæðist,
kveða í hjartað blessuð jólin.

II.

O, að eiga yl og sumar
undir þessu sljóleiks fargi —
sálarkraft að sigra tregann,
svifta þessu dauðans bjargi!

Elskan mín! eg hrópa hrifinn,
Hjartað mitt í lífsins sölum,
það ert þú, já þú, sem lifir,
það er eg, sem ligg á fjölum!

Því eg dó, er sagt var: Sjáðu,
sólin þín er frá þér tekin;
líf og yndi þitt er þrotið,
þú ert út í myrkrið rekinn!

Eg er milli heims og helju,
hjartað samt ei dáið getur,
því ég sé þig, sé þig gjörla –
sá þig aldrei – aldrei betur.

Áður sá eg lit og limu,
lífsins ytri mynd og blóma;
nú mér tregans sjóngler sýnir
sálarlífs þíns helgidóma.

Eins og ljóssins skæra skrúða
skrýðist himintæra lindin,
eins mér lýsir ljúft í dauða
lífið þitt og fyrirmyndin.

Og eg finn um æðar streyma
undrafulla nýja hræring,
eins og fróun, sára, bæta,
sem mér býður helga næring.

Og eg finn mig aftur vekja
aukið táp og líf og vilja;
og eg finn, að okkar sálir
aldrei – aldrei mega skilja.

Ræð því af að reyna, freista
reiðarslagið Guðs að bera.

Eg vil þreyja eilífð alla,
ef eg mætti hjá þér vera!

Lifðu með mér ljúfa, blíða,
lát mig um þig dreyma — dreyma;
lifðu með mér lífi hjartans,
lýstu mér til þinna heima!

---

## ÞORGRÍMUR Á SPÍTALANUM.

1901.

Með sveiptu enni
hinn sjúki lá,
og mikilmennis
var mannsins brá.

Sem lim í lundi,
þá legst að hregg,
á bringuna hrundi
hrafnsvart skegg.

Sem sígur mjöllin
þá sólin hlær,
og boðaföllin
þá fellur sær;

Sem grynnir flóðum,
en hækkar hlein:
þú hrundir óðum
í skinn og bein.

En viljans styrkur
og vonar rós
ei vildu myrkur,
en þráðu ljós;
og andans logi
þar lýsti brá,
sem friðarbogi
Guðs festing á.

Hann sagðist standa
á sterkri rót,
en naut ei handa,
né hreifði fót:

Eg er milli heims og helju,
hjartað samt ei dáið getur,
því ég sé þig, sé þig gjörla —
sá þig aldrei — aldrei betur.

Áður sá eg lit og limu,
lífsins ytri mynd og blóma;
nú mér tregans sjóngler sýnir
sálarlífs þíns helgidóma.

Eins og ljóssins skæra skrúða
skrýðist himintæra lindin,
eins mér lýsir ljúft í dauða
lífið þitt og fyrirmyndin.

Og eg finn um æðar streyma
undrafulla nýja hræring,
eins og fróun, sára, bæta,
sem mér býður helga næring.

Og eg finn mig aftur vekja
aukið táp og líf og vilja;
og eg finn, að okkar sálir
aldrei — aldrei mega skilja.

Ræð því af að reyna, freista
reiðarslagið Guðs að bera.

Eg vil þreyja eilífð alla,
ef eg mætti hjá þér vera!

Lifðu með mér ljúfa, blíða,
lát mig um þig dreyma — dreyma;
lifðu með mér lífi hjartans,
lýstu mér til þinna heima!

---

## ÞORGRÍMUR Á SPÍTALANUM.

1901.

---

Með sveiptu enni
hinn sjúki lá,
og mikilmennis
var mannsins brá.

Sem lim í lundi,
þá legst að hregg,
á bringuna hrundi
hrafnsvart skegg.

Sem sígur mjöllin
þá sólin hlær,
og boðaföllin
þá fellur sær;

Sem grynnir flóðum,
en hækkar hlein:
þú hrundir óðum
í skinn og bein.

En viljans styrkur
og vonar rós
ei vildu myrkur,
en þráðu ljós;
og andans logi
þar lýsti brá,
sem friðarbogi
Guðs festing á.

Hann sagðist standa
á sterkri rót,
en naut ei handa,
né hreifði fót:

og hugðist lifa,
en heyrði ei
að Hel nam klifa:
„Nei, nei, nei, nei!“

Að miðju máttur
var manni frá;
sem stokkinn þáttur
hinn sterki lá.
Hann mælti þrotinn
með prúðgri ró:
„Eg hvíli brotinn,
en batna þó.“

Hann vissi vandann
í voðaneyð:
að temja andann,
að taka deyð.
En viljinn stælir
hinn sterka mann,
og dauðinn fælir
oft fullhugann.

Og hugans styrkur
og hjartans rós,
það hræðist myrkur,
en þráir ljós,
og vitni þjóna
svo vanatöm
og villa sjónir
við dauðans þröm.

Og holdið varðist
í hæstu neyð,
og sálin barðist
við sjálfan deyð.
Svo löng var nóttin
unz lauk við skál,
við horfinn þróttinn,
en heila sál.

Svo lá hann fallinn
með brostna brá,
og Bani kallinn
þar glotti hjá.
Eg tel það gott:
nú er tæmd hans skál.
Eg trúi' á Drottin
í vorri sál!

---

# EINKADÓTTIR EIN Í HÚSI.[1]

Seinn er gangur sólar,
seinni nóttin þó,
síðan, milda móðir!
myrkvann yfir dró.
Ein og hreld eg hími
heimsins fjarri glaum,
ein með sorg og angur,
ein með lífs míns draum.

Þú varst öll mín eiga,
yndi' og fróun mín;
þinn var eini auður
einkadóttir þín;
ein eg eftir tórði
allra þinna lát –
eins og sett að sefa
söknuð þinn og grát.

Alla æfi mína
ól eg við þín kné,
móðurmildi þína
mat eg ei við fé.
Þó að skini og skúrum
skifti sólarhvel,
ekkert, ekkert skildi
okkur nema hel.

Glaðar einatt undum –
ef hið betra tel, –
lukkan með því litla
löngum treinist vel.
Man eg, ljúfa móðir,
margan knappan skamt,
en þótt drjúgum deildir,
dugði hann þér samt.

Ytra auðnugengi
ekki hlauztu hér,
innri auðs og sóma
unni Drottinn þér.
Margur góður gestur
glaður hjá þér sat,
sem hjá merkum svönnum
setti þig og mat.

Mat þitt hreina hjarta,
hlýja frómleiks mál,
þína trúartraustu
tildurlausu sál.
Þó að fróðlegt þætti
þér, hvað tíminn kvað,
glóði sama gullið
geymt í hjarta stað,

1) Dóttir Sigurbjargar Gunnarsdóttur á Akureyri, d. 1901.

Eigin æfikjörum
aldrei sál þín kveið.
En ef aðrir grétu
aldrei vel þér leið.
Eins við hvers manns auðnu
ætíð varð þér glatt;
til að gleðja og græða
galztu dýrstan skatt.

Þetta og fleira þyl eg,
þegar eg er ein,
hjartahreina móðir,
helzt það bætir mein.

Máske miklu nærri
minni sorgarskál,
en minn andi skilur,
er þín leysta sál!

Því skal þreyja' og bíða
þessa döpru tíð;
lengstu tímar líða,
langt þótt angri stríð.
Lifðu sæl í ljósi,
ljúfa móðir mín,
þar til heim úr húmi
hverfur dóttir þín.

---

## MÓÐUR-SORG.

(Lag eftir Bjarna Þorsteinsson).

---

Meðlæti vort er minna en tjörn,
mótlæti vort er hafið,
ógnum og undrum vafið,
alt fer í sama kafið,
dýrasta gull og drafið.
Sárast er þó að sjá vor börn
sogast í þetta hafið —
rjúkandi, svarta reginhafið!

Hjarta mitt spyr hinn hljóða geim:
hvar eru dætur mínar?
ljúfustu liljurnar mínar?
Grafirnar sverja þær sínar,
sorgin ei hægist né dvínar.
Hverjum er vært um vesalan heim,
sem vonirnar misti sínar? –
Dauði, fáðu mér dæturnar mínar! –

Út yfir tekur, að harðsnúin Hel
himininn fyrir mér dylur!
Hjálpa mér eilífi ylur!
Svala mér himneski hylur,
elska, sem örlögin skilur!
Hversvegna almættis-eilífa hvel,
ískaldur helstormabylur
mest þegar við liggur himininn hylur?

Getið ei svarað mér, himinn og höf,
hólar og dalir og strindi,
svo að ei sorgin mig blindi,
sárin ei tunguna bindi:
hvert fór mín huggun og yndi?
Segið mér, anzið mér, sefur í gröf
sálin og kærleikans yndi –
öskunnar lífsfjör og ljómandi yndi?

Hvísla eg svo í hæstri neyð:
Heyrðu mig Alfaðir blíður,

mælirinn minn er svo stríður,
móðurbrjóstinu svíður,
bikarinn hálfnaður bíður,
tæmist ei hér á tregans leið –
tæmist þó senn hvað líður. —
Drottinn vertu mér vægur og blíður!

Hvísla ég helzt í hjartans trú:
Á himni' eru dætur mínar,
bið þar til brjóstinu hlýnar,
bið meðan hægist og dvínar
efinn með ógnanir sínar.
Varðveit, ó Guð, mína von og trú:
vistarverurnar þínar
annast í ljósinu liljurnar mínar!

---

## „BÖRNIN ÖLL ERU DÁIN.“

Nú sefur þú líka, sætan blíð,
í sakleysis brúðarklæði!
Er ekki von mig angri stríð
og er ekki von mér blæði
og leiki mitt líf á þræði?
Hið eina barnið, sem eftir var,
í einni hendingu dauðinn skar,
og nú er ég ein með náinn,
því nú eru' öll börnin dáin.

Ég stari' á vetrarins frosnu fold,
á fjallið og kaldan snjóinn,
á auðar bygðir og bleika mold
og barnamorðingjann, sjóinn, —
mér ógnar sú eilífa róin!
Og þó er mér fró þitt fagra lík;
í fátækt var eg þó eitt sinn rík,
en nú á eg tóman náinn,
því nú eru' öll börnin dáin.

Ég horfi þögul á liðið líf
meðan ljósið fölnar við glugga,
og fátt eg sé nema sorgarkíf
og sífelda mæðuskugga:
Hvað má mitt hjarta hugga?
Ó, dveldu mér nærri, Drottinn minn.
því dapur og stór er engill þinn,
sem nístir mig enn við náinn;
og nú eru öll börnin dáin!

Þú anzar, Guð, eg er öldungis viss,
ef aðeins eg bið og þreyi,
þú huggar mig fyrir krossinn Krists;
nú krýp eg og amen segi,
þó svíði tár og tregi.
Í heiminum ekkert huggar mig,
svo hvað á ég, Drottinn, nema þig?
Nú bera þeir burtu náinn, —
og börnin öll eru dáin.

Mín sál er þreytt, eg sé ei neitt,
minn sjónarsteinn er brotinn;
eg finn það eitt, mín önd er breytt
og allur kraftur þrotinn,
sem fugl á flugi skotinn.
Horfðu nú til mín, Herra minn,
og hjálpa mér fyrir almátt þinn
að byrgja minn blessaða náinn,
því börnin öll eru dáin.

Þú anzar, Guð, eg er öldungis viss,
ef aðeins eg bið og þreyi,
þú huggar mig fyrir krossinn Krists;
nú krýp eg og amen segi,
þó svíði tár og tregi.
Í heiminum ekkert huggar mig,
svo hvað á eg, Drottinn, nema þig?
Nú bera þeir burtu náinn —
og börnin öll eru dáin.

---

## SÉRA EGGERT OLAFSON BRIEM.

Nú skal brag bjóða
Briem hinum fróða, –
bróðurnum góða
banastef ljóða.

Hníga nú hlynir,
harðna nú hvinir,
Íslands óðsynir –
mínir æskuvinir.

Stend eg og stari
straums í lognvari;
leikur á lofts fari
lífs aldurnari.
Sízt vil eg sofa
seiddur heldofa,
sem karlæg vofa,
meðan kraftar lofa.

Upp mín glymgígja!
gröf skal enn flýja,
yfir skör skýja
skundum för nýja,
hart á hurð knýja
helgra söngdía;
hót skal hönd lýja
né mér hugar frýja!

Hví skal oss dreyma
dapra náttheima,
eða um sveima
ókunna heima?
Víst eru' oss nærri
verurnar hærri,
stignar á stærri
stöðvar frá smærri.

Nálægur ertu!
Nærri mér vertu,
samur enn sértu,
sál mína hertu.
Ertu' ei hér inni
inst í salkynni,
með veru þinni
í vitund minni?

Manstu hvar mættumst?
Manstu nær sættumst?
Manstu nær grættumst?
Manstu nær kættumst?
Manstu nær undum
á munarstundum,
og fögnuð fundum
í fræðilundum?

Í þér bjó andi,
sem var óstöðvandi,
engu trúandi,
þótt ægði fjandi,
fyr en á sökum
fengir náð tökum,
og spjöllum spökum
spyrðir að rökum.

Hlóstu með glotti,
hógværðar-spotti,
að helgidotti
og hræsnaraþvotti;
leizt þér líf manna

sem leikfang hranna,
og landshátt banna
leið til hins sanna.

Aldrei þinn líka,
auma né ríka,
hef eg hitt slíka,
eða' að hreinlund glíka:
Sannleik að sinna,
sannleik að inna,
sannleik að finna,
— var þín sífeld vinna.

Veit eg ei anda
svo ósigranda,
né jafnt í vanda
sem vegsemd standa;
aldrei sá á þér,
aldregi brá þér,
sem flýgi framhjá þér
fis eða smáber.

Guminn tvítugi,
garp'r og fullhugi,
varst' að verkdugi,
sem á valsflugi.
Að hinu' eg hér stefni,
sem eg helzt þig nefni:
*heimspekingsefni* —
þó þín enginn hefni!

Eggert við skildum
áður en vildum,
hygg eg margs gildum
í heimi tryldum.
Atvikin ströngu
okkar lífsgöngu
hóf upp á þröngu
hilluna röngu!

Hvað við þar unnum
og iðja kunnum
líður að grunnum
þegar lokum munnum.
Sá er við sillu
situr þá hillu
venst fyrri villu,
en verjist illu.

Forðumst falsgæði
freisti vandræði,
mörgum glapræði
varð að guðfræði.
Verur raunverstar
verða langflestar:

níðlatir hestar
og neyðarprestar!

Leitt er ljóss-þjónum
að lúta falstónum,
dogmum dulgrónum,
dauðum hugsjónum.
Hve má sú kirkja
kristnina styrkja,
sem hverjum Tyrkja
er heimilt að yrkja?

Þá varstu betri
á þínum lífs vetri
ótal preststetri
með erfiletri.
Einfalda fræddir,
einfeldni ræddir,
önd og yl glæddir,
en engan hræddir.

Hart hlauztu stríða,
hugraun oft bíða;
en æðrast og kvíða
sá þig enginn lýða;
sagðist ei neinum
segja frá meinum,

en gleðjast í leynum
er glamraði' í beinum.[1]
Hlaupa helslóðir
heimskir og fróðir,
illir og góðir
og allar þjóðir.
Vona' eg þú bjóðir,
og vísu ljóðir,
sess við salshlóðir:
Sofðu vel, bróðir!

---

1) Í bréfi sagði hann eitt sinn: „Hér hefir nú verið sjúkhalt um hríð og mín helzta skemtun að heyra hringlað í beinum.“

# IV. ÞÝÐINGAR.

## SÁTTAMÁL.

Sbr. „Fridsröster“ eftir Esaias Tegnér.

Finnir þú í heimsins háttum
hroka, metnað, svik og prett,
sjáir þú í öllum áttum
aflið fella lög og rétt;
bruggi þræll í búri sínu
banaráð og fólskusið;
gjörðu borg í brjósti þínu,
bjóð svo öllum heimi grið.

Þegar sólin ljúfa lauga
lög og storð með gulli fer,
gleymdu hatri, hlýrnis auga
hjartarætur þínar sér.

Og er fögur aftanstjarna
ofan stafar frið og trú,
allri gremju aðgangs varna
eins og vondum nætursúg.

Dæm ei fljótt þinn fallna bróður,
fyr en alt hans mál er sagt,
vertú jafnan veikum góðum,
veiztu hvað á hann er lagt?
veiztu hvað hans vörnum líður?
varði' hann aldrei sæmd og dygð?
veiztu hvaða böl hann bíður,
blygð og angur, smán og stygð?

Þú, sem boðar hefnd af hæðum,
himins skaltu forðast nafn,
hann er fullur friðargæðum,
faðmar hann ei lífsins safn?
Nefn ei Drottins náðargrunna,
náðin Guðs er þér of há;
eilíf djúp hans ástarbrunna
engin speki veit né sá.

Hvað mun þýða, *hvað* menn kalla,
hann, sem *Föður* nefnum vér?
tímans hlutföll hljóta' að falla,
hitt, 'ið æðsta, stöðugt er.
Munu vitrings frægðar-fræði,
föstum rökum sett og trygð,

# IV. ÞÝÐINGAR.

## SÁTTAMÁL.

Sbr. „Fridsröster“ eftir Esaias Tegnér.

Finnir þú í heimsins háttum
hroka, metnað, svik og prett,
sjáir þú í öllum áttum
aflið fella lög og rétt;
bruggi þræll í búri sínu
banaráð og fólskusið;
gjörðu borg í brjósti þínu,
bjóð svo öllum heimi grið.

Þegar sólin ljúfa lauga
lög og storð með gulli fer,
gleymdu hatri, hlýrnis auga
hjartarætur þínar sér.

Og er fögur aftanstjarna
ofan stafar frið og trú,
allri gremju aðgangs varna
eins og vondum nætursúg.

Dæm ei fljótt þinn fallna bróður,
fyr en alt hans mál er sagt,
vertú jafnan veikum góðum,
veiztu hvað á hann er lagt?
veiztu hvað hans vörnum líður?
varði' hann aldrei sæmd og dygð?
veiztu hvaða böl hann bíður,
blygð og angur, smán og stygð?

Þú, sem boðar hefnd af hæðum,
himins skaltu forðast nafn,
hann er fullur friðargæðum,
faðmar hann ei lífsins safn?
Nefn ei Drottins náðargrunna,
náðin Guðs er þér of há;
eilíf djúp hans ástarbrunna
engin speki veit né sá.

Hvað mun þýða, *hvað* menn kalla,
hann, sem *Föður* nefnum vér?
tímans hlutföll hljóta' að falla,
hitt, 'ið æðsta, stöðugt er.
Munu vitrings frægðar-fræði,
föstum rökum sett og trygð,

bjóða hærri himna gæði
heimskingjanna trú og dygð?

Send oss góði Guð og faðir,
gæðin, sem oss hefir dreymt;
lít í náð á lýða raðir,
lýs þeim, er þér hafa gleymt.
Skýrðu fögru friðarorðin –
full er jörðin enn með blóð –;
dýrð sé Guði, gleðjist storðin,
góður vilji hverri þjóð!

Vit þú, himins helgur eldur
hjá þér, maður, innra býr;
alt þér Guð með elsku geldur,
ef til hæða sál þín snýr.
Skyldleik þinn ei þarftu' efa,
þegar bræður deilir við:
vertu fús að fyrirgefa,
föðurinn sama eigið þið!

Áttu gott? svo gæða neyttu;
gleddu þig við hvað sem er,
en án tregðu öðrum veittu,
æ því meir, sem veitist þér.
Sel oss hönd og sýn oss þingin,
sjáðu vort sem eigið gagn,
bræðra þinna hrífi hringinn
hjartans gæða rafurmagn.

Þóttú stríðir, þóttú fallir,
þolir svik og alla nauð,
trúar þinnar himinhallir
hylji aldrei jörðin snauð.
Lít í hæðir; bræðin bitur
brennur út á feigðarstund;
lít í hæðir: sjá, hvar situr
sáttgirnin við Drottins mund!

Mundu, þú, sem enn þá unir
æsku þinnar Paradís,
þótt þér leiki lífsins munir
lærðu snemma fræðin vís.
Meðan gröf og grátur þegir,
gleðibikar þiggja skal,
nógu snemma vísa vegir,
vinur, fram á Kaldadal.

Þú, sem hrósar heilla gæðum,
hæsta tindi lífs þíns frá,
bráðum af þeim háu hæðum
hörfar þú með fölva brá.
Bættu þeim, sem bölvi grættir,
bygg þitt hús á fastri strönd;
bjóddú óvin sæmd og sættir,
seldu vini trausta hönd.

Þú, sem hinzta hleður steini
hæsta lífs þíns markasvið,

sjáðu þann, sem lágt í leyni
læðist nær, og stattu við!
Veiztu, hvað og hvert hann bandar?
hér mun ekki boðin töf;
bú þig svo, að beztu andar
beri þig að værri gröf.

Fyr en kveður kumblin auðu
kvikum gjald þú lífs þíns skatt;
hræðst svo aldrei hina dauðu,
hafirðu' elskað rétt og satt.
Engin iðrun, engin reiði
eitri þér hin bröttu stig;
náðarverur væran breiði
vængi sína yfir þig!

---

## ÚR MANFRED.

Eftir Byron.

---

I.

### ÁHRÍNSMÁL.

Meðan gyllir máni höf,
maurinn lýsir rakan svörð,
haugaeldur hlær á gröf,
hrælog sveipa mýrajörð,
stjörnuhröp af himni þjóta,
hvín við ugluvælið ljóta,

hlustar lauf á hlyn og björk,
húmi lostin sefur mörk:
skulu þessi þína sál
þrúðug brenna áhrínsmál!

Þó að svefn þinn sigri þrótt,
sálu þinni skal ei rótt;
til eru draumar, sem ei sjatna,
sálarmein, er ekki batna;
aldrei skaltú einn á ferð,
eltir vald, sem þú ei sérð;
færður ertu' í heiftarhjúp.
heljar – ramt þig byrgir djúp; –
þessi töfrasæring sár
svíði þér um eilíf ár!

Aldrei skalt þú eygja mig,
en þó vita kringum þig, –
finna glögt, að ferleg er
fylgja jafnan nærri þér;
verða hræddur, hrökkva við,
hafa hvergi ró né frið,
æðrast mest, að ei mig sérð
eins og skugga með í ferð!
Þessa huldu, þungu raun
þú veizt einn og berð á laun.

Þrúðgan galdur þér eg syng;
þú ert skírður formæling;

undir kvala æðistig
andi loftsins bindur þig.
Ýli vindar ógn og sorg
inst í þína hugarborg;
komi nótt með náð og frið,
nötra þú við engin grið,
og við ljós hvers æfidags
æskja skaltu sólarlags!

Úr hvarma þinna lygalaug
þann lög, sem drepur, fast eg saug,
og úr þíns hjarta instu þró
hið illa, svarta blóð eg dró.
Úr þínu glotti greip eg snák,
sem gróf þar djúpa eiturrák,
og særing vor, er sárast hrín,
er sogin út úr vörum þín;
ver gátum ekkert eitur hitt
eins ógurlegt og ramt sem þitt.

Hoggormsglott og hjartað kalt,
heiftaræðið þúsundfalt,
sálarhræsnis svikataug,
svipur þinn, sem drengskap laug,
alt þitt lymsku-yfirskin
argast þeim, er hélt þig vin,
hróp um annars eigin hag,
alt þitt Kains bróðurlag:

hrífi þetta, svo þín sál
sjálfrar sín sé heljarbál!

---

Helt er svo á höfuð þér
heiftarglóð, sem botnlaus er;
engan dauða, enga ró
ógnum slungin norn þér bjó;
heljar samt þú sja skalt teikn
sífelt nærri, þó sem feikn!

Og nú þrengir þig um kring
þreföld töfra rammbinding;
álög hjarta' og hugarbú
hafa snortið, — visna nú!

---

II.

Í HÖLLU AHRIMANS.

(Ahriman situr í hásæti, sem er eldhnöttur; andar umhverfis).

---

Heill Drotni vorum, herra lofts og láðs,
sem leiftri fljótar stiklar höf og ský!
Öll skepnan fyrir makt hans mikla ráðs,
sem mold í stormi, hverfist duftið í;
hann andar – hafið truftar tryltur gnýr;
hann talar – þruman dunar reið í skýjum;
hann horfir hvast – og heilög sólin flýr;
hann hreifist – jörðin gýs upp logasíum.
Við fótatak hans skjálfa skorðuð fjöll;

hans skuggi er drepsótt, halastjörnur renna
á undan honum ragna reginvöll;
hann reiðist – og til ösku stjörnur brenna.
Og honum færa blótfórn blóðug stríð
og bleikur dauðinn skatt má honum gjalda;
alt líf er hans, þess eilíf orrahríð
og allrar skepnu sál á hveli alda!

---

## ÚR „CHILDE HAROLD.“

Eftir sama.

---

### I.

### TIL HAFSINS

Eg uni vel um eyðiskóga göng,
en yndi' og líf eg finn við hafsins strönd,
mér býður mar með þungum þrumusöng
að þiggja heimboð, sem er laust við bönd;
þó kætist ei við aðra menn mín önd,
eg aðeins þarf að stelast við og við
frá sjálfum mér, og binda hug og hönd
við heilagt alheims vald og ná í frið,
sem eg fæ hvorki lýst, né alveg dulist við.

Streym, streym þú Ægir ógnum blái – streym!
sem agnir berðu þúsund — þúsund fley;
menn herja lönd, en ramman Ránarheim
ei ræna menn; þú einn, og fleiri ei,

átt allan val, og ei sézt fis né hey
af ofsa mansins, nema sjálfs hans hræ,
er sogast hann við dapurt dauðans vei,
sem dropi týnist eða hjóm af snæ,
án klukknahljóms, án hjúps, án nafns — í sæ.

Hans spor ei sézt á þinni leið, þín lönd
hann lætur heil; þú ríst með voðagný
og hann er frá, hans auma ofdrambshönd,
sem eyðir storð, þú gabbar æ og sí,
og skotrar honum hátt við himinský
og hrekur skelfdan burt úr tryltum leik
til goða sinna heim, þars höfn er hlý,
og honum þeytir létt sem fífukveik
á foldarþröm – þar ber hann bein sín veik!

Herflotar þeir, er þrumum ljósta frón
og þrúðgar hamraborgir felmtri slá,
svo ríkir drotnar óttast auðn og tjón,
þeir ógnardrekar, sem að vakið fá
þá ofdirfd sínum leirskáldsherrum hjá
að heita drotnar stríðs og þínir, Mar!
Slíkt er þitt leikfang; líkast drífusnjá
þitt löður meltir, þar til ei sézt far, –
jafnt „ógnarflotans“ skraut sem skeiðir Trafalgar!

Þín strönd eru' álfur; alt snýst nema þú:
Assúr og Grikkland, Karthagó og Róm,
þú herjaðir frjálsar fyr, en hverir nú?

hans skuggi er drepsótt, halastjörnur renna
á undan honum ragna reginvöll;
hann reiðist – og til ösku stjörnur brenna.
Og honum færa blótfórn blóðug stríð
og bleikur dauðinn skatt má honum gjalda;
alt líf er hans, þess eilíf orrahríð
og allrar skepnu sál á hveli alda!

---

## ÚR „CHILDE HAROLD.“

**Eftir sama.**

---

### I.

### TIL HAFSINS

Eg uni vel um eyðiskóga göng,
en yndi' og líf eg finn við hafsins strönd,
mér býður mar með þungum þrumusöng
að þiggja heimboð, sem er laust við bönd;
þó kætist ei við aðra menn mín önd,
eg aðeins þarf að stelast við og við
frá sjálfum mér, og binda hug og hönd
við heilagt alheims vald og ná í frið,
sem eg fæ hvorki lýst, né alveg dulist við.

Streym, streym þú Ægir ógnum blái – streym!
sem agnir berðu þúsund – þúsund fley;
menn herja lönd, en ramman Ránarheim
ei ræna menn; þú einn, og fleiri ei,

átt allan val, og ei sézt fis né hey
af ofsa mansins, nema sjálfs hans hræ,
er sogast hann við dapurt dauðans vei,
sem dropi týnist eða hjóm af snæ,
án klukknahljóms, án hjúps, án nafns — í sæ.

Hans spor ei sézt á þinni leið, þín lönd
hann lætur heil; þú ríst með voðagný
og hann er frá, hans auma ofdrambshönd,
sem eyðir storð, þú gabbar æ og sí,
og skotrar honum hátt við himinský
og hrekur skelfdan burt úr tryltum leik
til goða sinna heim, þars höfn er hlý,
og honum þeytir létt sem fífukveik
á foldarþröm – þar ber hann bein sín veik!

Herflotar þeir, er þrumum ljósta frón
og þrúðgar hamraborgir felmtri slá,
svo ríkir drotnar óttast auðn og tjón,
þeir ógnardrekar, sem að vakið fá
þá ofdirfd sínum leirskáldsherrum hjá
að heita drotnar stríðs og þínir, Mar!
Slíkt er þitt leikfang; líkast drífusnjá
þitt löður meltir, þar til ei sézt far, –
jafnt „ógnarflotans“ skraut sem skeiðir Trafalgar!

Þín strönd eru' álfur; alt snýst nema þú:
Assúr og Grikkland, Karthagó og Róm,
þú herjaðir frjálsar fyr, en hverir nú?

fól, þrælar, ránsmenn grimmum böðulsklóm;
og fleiri ríkja dró hver með sér dóm
og dauðahrun, – en þú ert eins að sjá,
og öll þín breyting hljómur einn og hjóm,
ei hrukkar tíminn þína silfurbrá,
sem foldar fyrsta dag rís enn þín bára blá.

Hátignarspegill, Haf, sem Alvaldsmynd
í hafrokslöðri bálar! alla tíð
kyrt eða kvikt, við kælu, storm og vind,
við klaka heimskauts eða brunastríð —
bláólga botnlaus, veglaus, fimbulfríð,
eilífðar ímynd, hástóll krystalhreinn
hins hæsta Guðs! Þín afgrunn fæddu víð
frumbýsnir heims; þinn hring þú dregur beinn
um jörðu Jörmungandur, ómælandi, einn!

Og eg hef unnað þér, ó Ægir hár!
frá æskustund eg vaggað hef mér dátt
sem bóla þér á brjósti; úfinn sjár
var yndi mitt, þá hló mitt hjarta kátt;
og ef mér ofbauð hrönn, sem hrundi hátt,
var hræðslan gaman samt; það var mín trú
eg væri barn þitt, og eg þorði þrátt
í þrautum freista, hvort mér dygðir þú,
og höndu strjúka ógnarfax þitt, – eins og nú.

---

II.

## RIDDARINN KVEÐUR LAND SITT.

„Far vel, mitt kæra fósturláð!
nú fól þig úfinn sær,
og mjallhvít rýkur marargráð,
en márinn vængjum slær;
í Græðis sæng úr stjörnustól
nú stígur Dagmær hljótt,
og eg kveð tvent í einu: sól
og ættjörð: góða nótt!

En næst er birtist glóey góð
að gleðja sæ og fold,
þá sé ég eintómt ægisflóð,
en enga fósturmold;
og heima drúpir höll mín lágt
og hyr á arni deyr,
og svalur fer um salargátt,
þar soltinn rakki geyr.

Minn litli sveinn á þiljum þar,
sem þýða vætir brá,
þú hræðist víst hinn hvika mar
með hrannarfaldinn blá;
en hristu burt þín hræðslutár
og hrestu dug og fjör;
eins létt og svanur svífur frár
minn sigluprúði knör."

„Þó rjúki mjöll um Ránar kinn
og rymji veðrin há,
þá hugsið ekki, herra minn,
eg hræðist vind að sjá.
En föður minn og móður má
eg muna lífs um stig,
því hvergi vin eg annars á
fyrir utan Guð og þig.

Minn faðir stóð með föla kinn,
er fór ég burt á sveim,
og mamma situr sorgbitin
unz sér mig kominn heim.“
„Vel, vel, minn ungi sómasveinn,
þér sæma þessi tár;
væri' eg sem þú í hjarta hreinn,
eg hefði' ei þurrar brár.

En þú, minn hrausti hersveinn þar,
sem hefir brugðið lit;
þú hræddist þó ei fjandmanns far
og fellibylja þyt?“
„Eg æðrast, herra, lítt um líf,
mín lund er ei svo veik,
en eg á heima valið víf,
því verður kinnin bleik.

Gegnt höllu þinni blasir bær
við bjartan marargeim;

þar mæna börn og kona kær,
unz kem eg aftur heim."
„Þú talar vel, minn trúi sveinn,
þig trygðin bindur föst; —
en mig ei hindrar hlekkur neinn,
eg hlæ, þó dynji röst.

Hver trúir brigðul andvörp á
hjá ungri silkihrund?
Hvert tár á meyjar blómabrá
er burt á næstu stund.
Eg hirði' ei neitt, þó hug sé breytt,
né hræðist búið fár;
mig hryggir eitt, að ei er neitt,
sem af mér heimtar tár.

Nú held eg aleinn heiman frá
um hvikan bárustig;
því eftir hverju á eg að sjá,
fyrst enginn syrgir mig?
Jú—rakkinn kann að minnast mín,
unz mat hjá öðrum fær,
en komi' eg heim, er hepni brýn,
ef hold mitt ei hann flær.

Því læt eg svífa siglugand
um svalan öldugeim,
og hirði ei, hvar lít eg land,
þó langt sé orðið heim.

Kom heil og sæl, þú bára blá,
og ber mig leifturfljótt,
unz fjöll mér heilsa fimbulhá ;
en fold mín, góða nótt!

---

III.

GRÍSKI SÖNGMAÐURINN.

Ó, Grikkjaláð, ó Grikkja lönd,
þars glóðheit Saphó kvað og brann!
Ó, lista fræga fósturströnd,
þars Föbus upp á Delos rann!
Þig gyllir enn hin gamla sól,
en gjörvalt annað nóttin fól.

Hinn fræga Skios-hörpuhreim
og hjartnæm Teos-gígju ljóð
nú syngur þjóð um þveran heim,
en þeirra vagga stendur hljóð.
Ó, fold um víða veröld ræmd,
sem vilt ei lengur þekkja sæmd!

Þars fjöllin mæna' á Maraþon
og Maraþon á æginn blá
eg gekk mig einn, þá greip mig von,
að Grikkland mundi viðreisn fá;
um grafir Persa gekk minn hæll,
því gleymdi ég, að þú varst þræll!

Á kletti drembinn sjóli sat;
frá Salamis til meginlands
lá þengils her, sem þéttast gat
á þúsund skipum—alt var hans.
Hann horfði' á þau um hæstan dag, — —
en hvar var alt um sólarlag? —

Og hvar er alt? Og hvar ert þú,
ó hauðrið mitt? Á þinni slóð
er þögnuð guðagígjan nú,
og gengið er nú slíkri þjóð!
Og skal nú hreifa hörpu þín
ein hönd svo aum sem þessi mín?

Er frelsið glatað, frægðin dauð?
Er fjötrum svæfð hin mikla þjóð?
Ó, hve mér blæðir blygðun rauð
um bleika kinn við þessi ljóð!
Hvað gjörir Grikklands skáld nú skár,
en skammast sín og fella tár?

Hve lengi treina tár og blygð?
Þeim, trúi' eg, blæddi fyr á tíð!
Ó, fá oss aftur fósturbygð
einn frægðardreng af Spörtu lýð!
af þrem hundruðum þrjá oss gef,—
og Þermopyle séð eg hef!

Hvað? Þegir alt? Nei, þrumufleinn
mér þykir duna líkt og flóð
í fjarska rymji: „Rísi einn,
já, réttur einn af heilli þjóð!
Úr dáins heimi dynjum vér,
Því dauðir heyra fyr en þér?“

Nei, hefjum önnur hörpuljóð,
og hornin fylli Samos-vín!
Lát Tyrkjann blóði baða þjóð,
oss blæðir Skios gæðum sín. –
Þeg! Lifnar þar ei líf og sál
með leik og dans um fylta skál!

Af Pyrros lærði drótt þann dans,
og dansinn vel þér kunnið enn,
en fremri list var fylking hans,
hví fyrnist hún oss, góðir menn?
Og Kaðmos stafróf kunnum við, –
en kendi' hann *þrælum* stafrofið?

Þeg! hefjum önnur hörpuljóð,
og hellið á og tæmið fat!
Vér syngjum Anakreons óð, –
hans einvaldur hét Polykrat; –
þeir nefndust, trúi' eg „tyrannar“,
en „tyranninn“ þá *grískur* var!

Og frægstan eg þann kappa kveð,
er Korsonesos stýra vann,
og mest var hreysti' og manndáð léð,
en Miltiades nefndist hann.
Einn „harðstjóra", sem hann, að fá
af hjartans grunni mættum þrá.

Nú drekkum, sveinar, Samos glóð
á Súlíkletti', í Pörgulund
býr fræleif enn af fornri þjóð,
er forðum ólu dórisk sprund,
og Heraklesar kynstofn finst,
þar kannske enn er varir minst.

Vér heyrum sjálfir sverðaþing,
í sjálfum oss býr hjálpræðið.
En trúið aldrei útlending:
með okri selur hann oss lið.
En Tyrkjans ok og latnesk lygð
fyr' löngu braut oss vopnin skygð.

Nú drekkum síðast Samos-vín..
Ó, sólarbjarti meyjafans!
eg sé, hvar augað svarta skín,
eg sé þinn tignarprúða dans!
En — tár mín brenna brunaheit—
skal brjóst þau mylkja þræll og geit?

Á Súmin-klett eg klifra vil,
þar kveð eg einn við báruþröng,
og enginn heyrir okkar spil,
unz önd mín deyr í svanasöng.
Eg ber hér aldrei beinin mín:
á brott, á brott, þú Samos-vín!

---

## FALL SENAKERIBS.

Eftir sama.

---

Sonur Assúrs kom austan sem brennandi bál,
og þar blikuðu gullhjálmar, purpuri og stál,
og á glymbrodda stirndi sem straumöldu flet,
þegar stjörnurnar leiftra við Genezaret.

Eins og laufin á vorin á gróandi grund
var hinn gunnsterki herinn um sólarlagsstund;
eins og laufin á haustin um hélaðan völl
láu heiðingjar dauðir, er sól skein á fjöll.

Því að fárengill guðs kom þá niðdimmu nótt
og blés ná-þyt í andlit á sofandi drótt;
á hvert andlit féll hræleiftur helkalt og stirt
og hvert hjarta tók viðbragð og stóð síðan kyrt.

Og með háflentar nasir lá helstirður jór,
út af hræköldum vitum rann náfroðusjór

líkt og hruninnar brimöldu hrámjöll í vör;
nú var hreistin í brott og hið stormóða fjör.

Þar lá riddarinn örendur, rammur og blár
meður rekslegna gunnhlíf og helsveittar brár;
þar stóð merki hvert mannlaust og herbúð hver hljóð
og þar heyrðust ei lúðrar né vígsöngvaljóð.

Og hátt gráta ekkjur í assúrskum lund;
sjáið ölturu Baals, er liggja við grund!
Sjáið ofmetnað heiðingjans hniginn úr stól,
fyrir hátign vors Guðs eins og mjöll fyrir sól!

---

## KRISTSMYNDIN.

Sbr. „The Parable“ eftir J. R. Lowell.

---

Vor Drottinn hann mælti við sjálfan sig:
„Eg sjá vil, hve mennirnir trúa á mig.“
Og heims þessa gæðingum gaf hann þá von,
að gista þá ætlaði Skaparans son.

Við hirð sína' og prestana kongurinn kvað:
„Sjá, *Kristur*, vor lávarður, ríður í hlað.
Því stráum nú bekkina' og kyrjum í kór:
Nú kemur sá Drottinn, sem aleinn er stór!“

Af hljóðfærum dunuðu dómkirkjugöng
og dýrustu kórar með lofgjörðarsöng.
En hátt yfir ölturum, kirkjum og kór
stóð kærleikans ímynd, svo guðleg og stór.

Svo leiða menn Guðs son í hásala-hólf.
En hví er hann dapur og starir á gólf?
Hann hlustar — hann hlustar, við hornstafinn kvein
hann heyrir að neðan og grátekka vein.

Í dómsölum, kirkjum og konungsins höll
sér Kristur, að hyrningin brostin er öll,
því samskeytin gliðna því meir að þeim mun,
sem magnaðist neðra hvert angistarstun.

„Hvort reisið þér hofin og hásætin enn,
og hafið í grunnsteina lifandi menn?
Má standa sú bygging, sem volduga ver.
en vesala lifandi kremur og mer?“

„Með silfruðum portum og gullvirkjagjörð
og girðingum stíið þér föður míns hjörð.
Eg hef heyrt þetta sog — þessi hrynjandi tár,
til himinsins samfleytt nær tvö þúsund ár.“

„Ó, Drottinn, þótt breyskleikans brot hafi' oss hent,
vér byggjum, sem oss hafa feðurnir kent,
þínar lífmyndir, Drottinn, og líkneskin fríð
í loftinu gnæfa' yfir rúm, yfir tíð.

En stríð vort er hart, því með stáli og brand
vér stöndum og verjum þitt dýrkeypta land,
og með krókstaf vér stíum og stálnetjagjörð,
svo sleppi' ekki lamb, þinni blessuðu hjörð."

Þá kallaði Drottinn á daglaunamann,
sem dapur og máttvana kemur í rann,
og með honum fallin og föðurlaus snót,
í flekkuðum tötrum á sama kom mót.

Og Kristur þau setur í mæringa mið,
– en mildingar draga sinn klæðnað á snið –,
og tók svo til máls: *„Litið líkneskin hér,
líkneskin þau, sem þér gerðuð af mér."*

---

## HERHVÖT LOWELLS,

(Ort fyrir þrælastríðið í Ameríku).

---

Menn, sem hrósið feðra frægð,
frjálsu lund og kosta gnægð,
meðan einn ber ok um háls
enginn vor skal heita frjáls!
Sverfi' ei þína sál og önd
seldra bræðra þrældómsbönd,
áttu skilið skömm og hlekk,
skipar sjálfur þrælabekk!

Kona, sem und brjóstum berð
bur með sál og fullri gerð:
sérðú, án þess svelli blóð,
systur þína' á heljar slóð —
setta' á þrælasöluþing,
selda smán og vitfirring, —
hvernig ferðu' að fæða son,
frjálsan mann með trú og von?

Á þá frelsið enga hönd
annars manns að leysa bönd?
Nötrar hönd þín nízk og köld?
Neitar þú um bróðurgjöld?
Veistu' ei frelsið einmitt er:
öðrum hjálpa jafnt og sér,
vörn og sókn með vilja stáls —
veröldin unz öll er frjáls!

Þý er hver, sem þorir ei
þræl að verja' og bundna mey!
Gauð er hver, sem þrjózkri þögn
þrælsins myrðir sakargögn!
Sannur maður, sýkn og hreinn,
sigra skal þótt standi einn!
Bjóðum fyrir bræðra sök
blóðug slög og dauðatök!

---

# BJÖRNSTJERNE BJÖRNSON.

Eftir Anders Hovden.

---

Hver er sá garpurinn gildi,
sem gnæfir við loftin blá,
fríður sem Fofnisbani
með fagursilfraða brá?
Sjáið þar Björnstjerne Björnson!

Faðir hans, Noregur, nefnir
þann niðja: sitt hrós og von;
hann segir: „Eg á nú engan
eins eigulegan son.“

Þegar hann Henrik var hniginn
og hikandi þreyðum vér,
buldi við Björnsons lúður
sem bylur um saltan ver!

Hann þrumar sem Þór yfir foldu,
svo þokan af tindunum flýr;
það leiftrar af kraftanna kyngi
og kringum hann ofviðrið gnýr.

Hvast eins og haukur á flugi
horfir hann vítt yfir frón;
hænsnin í gæsagörðum
glúpna, því búið er tjón.

Finst hér á víðri foldu
í fólkinu dropi blóðs,
sem hann eigi fjörgaði og fylti
til fagnaðar, eða til móðs?

Hvenær sem hann fer úr landi
fær hauðrið sinn vana-lit,
því hér er á tröll að treysta
með tólf manna styrk og vit.

Höfuð og fulltrúi fæddur,
með fullhugans skap og óð:
lifi hann Björnstjerne Björnson,
Bragi þinn, Dofralands þjóð —
Björnstjerne bragningur Noregs!

---

## HVAR ER NORÐMANNA KONUNGURINN?

**Eftir Per Sivle.**

Menn segja, forðum
ef svo til bar,
að spurt var um konung,
þá kæmi það svar:
„Ef hygstu finna
þann góða gram,
þá gakk þú rakleitt
að merkjum fram.
Ei er í skjóli
að sköglar verki
vor frækni sjóli,
hann fylgir merki.“

Eyvindur Skreyja
óð á ströndu,
grimt nam að geyja
og greipti röndu.

En Hákon góði

und hjálms síns glóð
með hvassan Kvernbít
mót hrotta vóð.
Og Noregs gramur
bar Noregs sök
til frægðar framur
við fylfings rök.

Við heiftar hvell
fyrir hilmis mundu
hann Skreyja féll
og hans skrum að grundu.

Og launin sömu
þeir flestir fengu,
sem níddu Noreg
og í návíg gengu.

Nóg er enn níðið,
sem Noregur fær,
og enn er hann illa
troðinn um tær.
En sízt má æðrast
þá svara menn –
því Hörðaland
á sinn Hákon enn.

En ef þig vita
með vissu fýsir,
hvar gylfa geymi
þær góðu dísir,
þá færðu óðar
það fljóta svar:
„Farðu til *Stokkhólms*
og finn hann þar!“

---

## EIN Í LUNDI AFTANSVÖLUM.

Eftir Heine.

---

En í lundi aftansvölum
unir Spánarkonungs dóttir
meðan hátt frá hallarsölum
horn og gígjur skemta mengi.

„Dansinn mér ei lengur lætur,
leiðast oss þær flaðurtungur;
riddarar í lofnar ljóðum
líkja mér við drotning heimsins.

Ekkert býður svip né sælu
síðan undir björtum mána
riddarann eg sá frá svölum,
sá og heyrði guðaróminn.

Hár og beinn og hreystifríður,
haukfrán augu logum brunnu,
Lofnarfölva lýstu hvarma —
líkur Jörmunreki helga.“

Svo kvað dýrleg donna Klara,
drúptu höfði mærin reikar,
en í sömu svipan stendur
svanna hjá hinn goðum líki.

Hendur tengdust. Lofn í lundi
lifnar ótt, en brosir máni,
blærinn töfrayndi andar,
ástahvískur blómin hjala.

Ástahvískur blómin byrja,
blóðroðnandi iða, titra,
„Heyr mig, svanni, svási, ljúfi,
segðu mér, hví kinn þín roðnar?“

Fagri sveinn, mig flugur stungu;
flugur, kæri, mest eg hata,
leiðara hvergi lít eg nema
langnefjaða Júðahunda.“

„Fari flugur, fari Júðar!“
frækinn kvað og snótu kysti.
„Sjá hvar þúsund fannhvít fenna
fagurblóm úr krónum trjánna.

Möndulblóm úr mjúku limi
mæru angandufti renna.
Heyrðu, inn mér yndissvanni:
antu mér af hjartans grunni?“

„Þér eg ann, hinn ástum glæsti,
engill sveina — það veit Kristur,
hann, sem forðum Herrans fjendur
hengdu' á kross, þeir grimmu Júðar.“

„Fari Júðar, fari Kristur!«
frækinn kvað og snótu kysti.
„Líttu á hvíta liljureitinn
leiðslu sleginn, draumi bundinn.

Líttu á fagurljósa reitinn,
liljan hver til himins þráir.
Svara mér nú sætan ljúfa,
sórstu mér ei ranga eiða?“

„Aldrei sór eg eiða ranga;
enginn dropi' af mínu blóði
er af kyni illra Serkja,
eða viðbjóðslegra Júða.“

„Fari Serkir, fari Júðar!“
frækinn kvað og brúði kysti,
og í myrtuslundinn ljúfa
leiddi Spánarkonungs dóttur.

Fast um brúði læðing Lofnar
lagði sveinn í sælu-húmi;
lítil orð, en langir kossar,
leiðsla beggja muna töfrar.

Brúðljóð söng í svásum lundi
sætu kvaki næturgalinn;
ljósormar í grænu grasi
gengu fram með brúðarkyndla.

Kyrt er alt í lystilundi,
limið hlustar, stöku fluga
þylur lágt, en þýðar liljur
þora vart að draga andann.

Þá í svipan heyrist hljómur
höllu frá í skógi gjalla;
vaknað hefur vífið bjarta,
vindur sig úr sjafnar dróma.

„Heyr hvar menn mig kalla, kæri;
kæri, seg mér fyr en skiljum
heiti þitt, minn hjartans ljúfi,
heitið, sem þú öllum dylur.“

Riddarinn við brúði brosti,
blítt á drósar mundu kysti,
kysti munn og mærrar enni,
mælir svo og hneigir svanna:

„Sjafni þinn, ó svása Donna,
sonur er hins þjóðum kunna,
aldna, ríka, íturfróða
*Ísraels* frá Saragossa!“

---

## „DIES IRÆ.“

Hæc in sermonem islandicum translata versio sacerimi hymni Dom. Patri Alexandro Baumgartner, viro pietate et ingenio æqve ornato, humillime dedicata est.

Matthias Joachimi.

---

Dagur reiði, dagur bræði
drekkir jörð með logaflæði,
votta heilög Völufræði.

Dauðans ógn! er Drottinn alda
dóm í skýjum fer að halda,
öllum makleg gjöld að gjalda!

Hátt mun lúður ljóssins gjalla,
lifendur og dauða kalla
fyrir dóminn Drottins alla.

Dauðinn mun í felur fara
framliðnum þá sér hann skara
stefnt úr gröfum Guði' að svara.

Fram er borin bókin fróða,
birta mun sú allra þjóða
vitnisburði, vonda, góða.

Drottinn síðan dæma tekur,
dulsmál hvert af svefni vekur;
kemst þá enginn undan sekur.

Hverju skal eg sjálfur svara,
sekur maður, hvert skal fara,
sýkn og hreinn ef sig má vara?

Ógnarvaldur himins halla!
hjálpráð gefins þeirra er falla, —
náðarlind til lífs mig kalla!

Minna vegna bönd þig bundu,
blíði Jesú, kvöl þá mundu,
Drottinn minn á dómsins stundu!

Þú, sem réðst mín þreyttur leita,
þoldir kross og dauðasveita,
ó, þú mátt um náð ei neita!

Þú, sem alt munt endurgjalda,
upp gef þú mér sekt margfalda,
fyr en dóminn ferð að halda!

Sjá, eg stúrinn styn í hljóði,
stórsyndarinn, þungum móði:
Miskunna þú mér, guð minn Góði!

Þú, sem móður þjáða reistir,
þú, sem ránsmann píndan leystir:
Þér um eilífð önd mín treystir.

Bænarorð mín ekkert vega,
ein þín miskunn græðir trega,
glatar engum eilíflega!

Vísa mér til hægri handa
höfrunum fjarri, þar sem standa
sauðir þínir, sviftir vanda.

Blessað barn mig, Kristur, kalla,
kvöl og neyð, er grípur alla,
sem í ógnar-eldinn falla.

Á þig, Drottinn, eg mig reiði;
aumur, kraminn, styn og beiði:
Guð, þín hönd til lífs mig leiði!

---

# SJÓMANNA-BRAGUR.

## ÞJÓÐSÖNGUR DANA.

Eftir Johannes Evald.

---

Við siglu *Kristján* sjóli stóð
í svælu' og reyk;
hann barðist hart með hraustri þjóð,
ei hjálmur við né brynja stóð,
en floti Svía svam og vóð
í svælu' og reyk.
Þá gall við óp á græðis-mey:
:,: „Við gamla Kristján þreytum ei :,:
þann leik!“

Hann *Júl* sér valdi veðrin reið
á víga-tíð;
hann rendi fram á Ránar-leið
með rauðan fána' á hverri skeið,
og sæmdir fékk og sigur beið
í sverða-hríð:
„Á flótta!“ æpti hræddur her,
:,: „við heljar-manninn þreytum vér :,:
ei stríð!“

Sem víga-hnöttur Vandils-braut
hann *Vessel* rann;
þá seiddi menn í sverða-þraut
ið sigurbjarta Gýmis-skaut,
og voðahljóð um verinn þaut,
þá *Vallen* brann:

„Frá Danmörk Skruggu-Skjöldur fer!
:,: í skjól og fylgsni hraði hver :,:
sem kann!“

Þú, forna, danska frægðar-leið,
ó, fríði sær!
ó, gleð þú hvern við brjóst þín breið,
sem bliknar ei við veðrin reið,
en herðir þrek við þraut og neyð
sem þú, ó, sær!
Og ber mig gegn um gný og él
:,: og gleði' og sorg unz feigð og hel :,:
mig slær!

---

## KARL TÓLFTI.

### ÞJÓÐSONGUR SVÍA.

Efir E. Tegnér.

---

Karl tólfti ern og ungur
í eld og styrjöld vóð,
og hvassar hjalta-tungur
lét hefja sigurljóð.
„Hve sænsku sverðin bíta,
ég sýna þjóðum skal:
Burt alla Moskó-íta!
Upp, upp, mitt drengja-val!“

Þar átti einn við tíu,
er ynglings reiði brann;
sá fylkir þoldi' ei frýju,
það féll, sem ekki rann.
Fyr þenglum þrem ei vægði,
en þeirra smáði boð,
og heilli álfu ægði
ið unga þrumu-goð.

Þá gýgur grá hann vælti,
(in gamla stjórnar-vél),
sitt kraftorð kappinn mælti
og kom því flagði' í hel;
og snót, sem gullhærð gyðja,
að ginna svein var keypt;
hann kunni' ei brúða biðja,
til baka hvarf hún sneypt.

Þar hugstórt hjarta bærðist,
sem hræddist aldrei neitt,
við sæld og sorg ei hrærðist
en sannleik unni heitt.
Hann lék sem ljón að gunni
og lítils forlög mat;
á hæl ei hopa kunni,
en hnigið að eins gat.

Sjá stjörnur standa' á verði
við stillis bauta-stein,

því öld und svölum sverði
þar sváfu hetju bein.
Svo hverfa menn í moldu
og manndóms-verkin dýr;
hans saga' á sænskri foldu
er senn eitt æfintýr.

Þó sinnir fræðum sagna
vort sögu-landið enn,
og dverga dómar þagna
um dýrsta kempu senn.
Ei frá oss farið hefur
sá fornmanns andinn hár!
hann dó ei; sjá, hann sefur!
hann svaf í hundrað ár.

Þinn mesta son hér sjáðu,
ó, Svíþjóð, krjúptu hljóð,
og les þau letrin máðu,
þitt lof, þinn sigur-óð!
Ber-höfðuð hér in frána
sig hneigir sögu-dís,
og sína sigurfána
hér signa þjóð vor kýs.

---

Þar átti einn við tíu,
er ynglings reiði brann;
sá fylkir þoldi' ei frýju,
það féll, sem ekki rann.
Fyr þenglum þrem ei vægði,
en þeirra smáði boð,
og heilli álfu ægði
ið unga þrumu-goð.

Þá gýgur grá hann vælti,
(in gamla stjórnar-vél),
sitt kraftorð kappinn mælti
og kom því flagði' í hel;
og snót, sem gullhærð gyðja,
að ginna svein var keypt;
hann kunni' ei brúða biðja,
til baka hvarf hún sneypt.

Þar hugstórt hjarta bærðist,
sem hræddist aldrei neitt,
við sæld og sorg ei hrærðist
en sannleik unni heitt.
Hann lék sem ljón að gunni
og lítils forlög mat;
á hæl ei hopa kunni,
en hnigið að eins gat.

Sjá stjörnur standa' á verði
við stillis bauta-stein,

því öld und svölum sverði
þar sváfu hetju bein.
Svo hverfa menn í moldu
og manndóms-verkin dýr;
hans saga' á sænskri foldu
er senn eitt æfintýr.

Þó sinnir fræðum sagna
vort sögu-landið enn,
og dverga dómar þagna
um dýrsta kempu senn.
Ei frá oss farið hefur
sá fornmanns andinn hár!
hann dó ei; sjá, hann sefur!
hann svaf í hundrað ár.

Þinn mesta son hér sjáðu,
ó, Svíþjóð, krjúptu hljóð,
og les þau letrin máðu,
þitt lof, þinn sigur-óð!
Ber-höfðuð hér in frána
sig hneigir sögu-dís,
og sína sigurfána
hér signa þjóð vor kýs.

---

# ÞÓRS-MÁL.

Eftir Longfellow.

(Lag eftir Svb. Sveinbjörnsson).

---

Eg em Þór rammi,
ógnar-goð tíva,
eg em Þór þrumu-goð;
hér á eg heima
herborg og vígi
aldir og æfi.

Öldum eg stýri,
stend á hrímfjöllum,
harðspenni hamar,
máttugan Mjölni,
mellu-dólg jötna,
hróðbana Hrungnis.

Hefig á höndum
hríðeflda glófa
og þeyti þrúðhamri;
spenni' eg mig máttkum
megin-rammgjörðum,
eykst mér ásmegin.

Lítið lograstir
leiftra við himin;
Þór er að þeyta
þrúðga skeggbrodda,
hljóðar húmstormur,
hræðist kyn þjóða.

Seif kallag bróður;
sjón mín er elding;
reiðar-slög rymja
remmihjól kerru;
hamars högg dynja
hátt í landskjálftum.

Enn stýrir heimi
afl og harðfengi;
vægð er veiklyndi;
hreystin er heilög;
hvergi' er á jörðu
Þórs dagur þrotinn.

Guð ertú einnig,
Galileari!
einhendur hef eg
orrustu gegn þér:
Kross eða hamar!
kom þú á hólminn!

---

## UNNUSTAN.

Eftir Göthe.

---

Eg minnist þín, er sé eg sjóinn glitra
við sólar-hvel,
og þegar mánans mildu geislar titra
eg man þig vel.

Eg sé til þín, er létt á öðru leiti
sér lyftir ský.
Eg horfi' á þig, er hljóður veg minn þreyti
eg húmi í:

Eg heyri þig, er þýtur fjarlæg alda
svo þungt og ótt.
Eg heyri þig, er hlustar björkin kalda
um helga nótt.

Þú býr hjá mér, þótt bygð þín sé mér fjærri,
eg bý hjá þér.
Nú birtir fyrir blástjörnunni skærri:
æ, birztu mér!

---

## KRISTJÁN ANNAR.

Eftir Kristine Daugaard.

---

Ógnar mér inn eyðilegi óláns-svipur þinn,
finst mér kaldir kvala-skuggar komi' í huga minn;

ógnar mínu eigin hjarta eggja-brandur sár,
sem þér hneit í svarta-myrkri sjö og tuttugu ár!

Andi Guðs þig yfirgaf á ofsablindri tíð,
og þá sveif að sálu þinni sollið hugar-stríð.
En þér birtist enginn Davíð, eirs og forðum Sál,
sá er mildum hörpu-hljómi hjartans kældi bál.

Til þín svipir kaldir komu, kváðu' um heift og morð,
kringum flet þitt soltnir svifu, settust við þitt borð,
með þér leiðar myrkra-fylgjur mældu fanga-rann
meðan þú með stórum stigum stika náðir hann.

Gjörvöll lífsins fegurð firtist ferlegt myrkra-búr,
ekkert var til yndis-hóta, alt var grjót og múr;
ekkert ljós frá lífi þjóða lýsti þína nótt,
engin rödd með elsku-ómi, alt var kalt og hljótt.

Til er rödd með elsku-ómi æðra heimi frá,
sú er gegnum grjót og múra gangveg brjóta má,
og sem hjartans bölva-brynju bræða kann í stað;
þitt var hart sem múr og málmur, mátti vinni það?

Gat sú rödd með gráti sefað grimmrar sálar bál?
kvað hún þér sem himnesk harpa herrans náðar-mál?
lét hún vofu-svipi svarta svífa burtu hljótt?
léði hún þér ljós og varma langa kvala-nótt?

Söng hún þér um salinn bjarta sólar-ströndum á,
þegar mændir þrútnum augum þröngum klefa frá?

og er blóðið bræðra þinna brann sem refsi-glóð,
sástú þá Guðs-sonar mildi; sástu' hans hjarta-blóð?

---

## LÍFSHVOT.

**The Psalm of Life. Eftir Longfellow.**

---

Syng ei þetta sorgarefni,
seg ei lífið tóman draum,
vek þú dauða sál af svefni,
sjónar-villum gef ei taum.

Líf er vaka, gimsteinn gæða,
guði vígt en eigi mold;
aldrei sagði sjóli hæða:
„sálin verði duft sem hold!“

Hvorki lán né hrygðar-hagur
heitir takmark lífs um skeið,
heldur *það*, að hver einn dagur
hrífi' oss lengra fram á leið.

Fleyg er tíð, en lengi lærist,
lífæð vor er hermanns spil,
bumbu-slögum hjartað hrærist,
hringir manni grafar til.

Líf er nauðsyn, lát þig hvetja,
líkst' ei gauði, berstu djarft,
vert' ei sauður, heldur hetja,
hníg ei dauður fyr en þarft!

Treyst ei feigur framtíð þinni,
fortíð eiga lát sinn val;
hönd Guðs hneig, og haf í minni:
henda fleyga nútíð skal.

Allir miklir menn oss sýna,
manndóms tign er unt að ná,
og eiga þegar árin dvína
eftir spor við tímans sjá. —

Spor, sem viltum vegfaranda
vísa braut um eyðisand,
og sem frelsa frá að stranda
farmann þann, er berst, á land.

Fram að starfa! fram til þarfa!
flýjum aldrei skyldu-braut!
Vinnum meira! verkum fleira!
vinnum eins þó löng sé þraut!

## TIL GLEÐINNAR.

**„An die Freude.“ Eftir Schiller.**

---

Fagra gleði, guða logi,
Gimlis dóttir, heill sé þér!
í þinn hásal hrifnir eldi,
heilög gyðja, komum vér.
Þínir blíðu töfrar tengja,
tízkan meðan sundur slær;
allir bræður aftur verða
yndis-vængjum þínum nær.

KÓR:

Dansið heimar himinglaðir;
hingað veröld, þigðu koss!
yfir sólna sól og oss
sannlega lifir góður faðir!

Hver þann dýrgrip hefir hlotið,
hjartans vin að eiga sér,
hver, sem festi fríðan svanna,
fagran syngi nú sem vér, —
já, hver að eins *eina* sálu
eignar sér um víða storð, —
hinn, sem enga á, skal kveðja
angurs-tárum þetta borð!

KÓR:

Vor hinn helgi hringur, bræður,
hylli lög þess ástar-bands,

er oss leiðir hátt til hans,
sem frá himni heimi ræður!

Gleði fyllir alt sem andar
allífs-brjóstið, móðir vor;
allir góðir, allir vondir
elta gleði blóma-spor.
Oss hún veitir vín og kossa,
vinar-faðm, sem trygð ei brá,
munað gaf hún minsta ormi,
mesta seraf Guð að sjá.

KÓR:

Krýpur lífsins lið að moldu?
Lyft þér sál til Skaparans;
leita hátt til himna-ranns,
hann er ofar engla-foldu!

Gleði heitir lífsins ljúfa
leynifjöður, mjúk og sterk,
hún er máttarhjól, er hreifir
heimsins mikla sigurverk;
lokkar blóm úr lilju-kvisti,
leiðir sól um stjörnu-frón,
sveiflar ægi-sveimi hnatta,
sem er hulinn spekings sjón.

KÓR:

Glatt sem hæstu himinleiðir
hennar sólir renna braut:
glaðir áfram gegn um þraut,
bræður, sem á sigurskeiði!

Gegn um sannleiks guða-spegil
glatt hún brosir náms í raun,
léttir dygða bratta brekku,
bendir hýrt á sigurlaun;
hátt á trúar himintindi
hennar fána margur leit,
og í gegnum grafar sprungur
gyðjan skín í engla-sveit.

KÓR:

Mæðist eigi, lönd og lýðir,
líðið sakir æðra heims,
ofar sölum sólar-geims
Guð, sem launar, sést um síðir.

Guðum ei oss gefst að launa,
gott er samt að líkjast þeim.
Hrygð og angur, hrindið fargi,
hingað í vorn glaða sveim!
Gleymist heiftir, hróp og reiði;
haturs-óvin taki sætt;
ekkert tár hans auga mæði,
alt hans sálar-stríð sé bætt!

KÓR:

Vorar skuldir verði máðar;
veröld öll í frið og sátt;
bræður ofar himnum hátt
Drottinn þá, sem náða, náðar

Gleði leiftrar ljúf í skálum,
lagar brennur heilög glóð;
drekkum mildi víga-vörgum,
vonarlausum hetju-móð.
Upp úr sætum, svinnir bræður,
sveipum kransi gleði-bál;
hornabrim til himins gjósi:
herra lífsins þessi skál!

KÓR:

Þeim, sem lof og þakkir ljóða
þúsund sólna regin-tjöld
engla-her og anda fjöld –
skál sú helgist *hinum góða!*

Hetju-þrek í hörðum raunum,
hjálp, er aumur þráir bót,
haldinyrði unnum eiðum,
einurð móti vin og þrjót,
drenglund fyrir sjóla-sæti,
sveinar, þó að kosti blóð:
afreks-mönnum sigursveiga,
smán og refsing lyga-þjóð!

KÓR:

Ekkert hring vorn helgan rýri;
heitum trú við gullið vín;
allir haldi eiða sín;
sverjum það við stjörnu-stýri!

---

# JÚBIL-LJÓÐ (CANTATE).

## Á HÁTÍÐ UPPSALA HÁSKÓLANS 6. SEPT. 1877.

Eftir V. Rydberg.

---

KÓR:

Úr móðu myrkuralda
að marki, sem er hulið þér,
þú mannkyn, hlýtur halda
þinn hrjóstursveg, sem tíminn ber.
Þinn dagur birtu-dökkur
í dimmu hverfur skjótt;
að framan fimbulrökkur,
en fyrir aftan nótt!
Og aldir lýjast allar
í eyðimerkur þraut,
og hrætt í hæð þú kallar:
Ó Herra, hvert fer þessi braut?

Á foldu reynslan ræðir:
sem reykur alt á jörðu þver;
og horfir þú í hæðir
með hvassri sjón, þá lærist þér,
að stjörnu-brautir slitni
og slokni sólnafjöld,
og öll þau undur vitni
um ægi-hringsól köld.
Og hrópað er í húmi:
sjá, hel er lífsins mið,

og tál er tíð með rúmi
og tilveran eitt fanga-svið!

---

RECITATIV.

Og þó — í hvert sinn þú við efans braut
af þreytu hnígur, deyr þó ei þinn kraftur,
þú réttir við í regin-þraut,
og reisir örugt forna merkið aftur.
Hvað þá, ef spekings sjónir sjá
að sólna geimsins þúsund eldar hrynji,
að guðheims-folda grúi dynji
sem gullinakur sleginn tímans ljá? —
Hvað hreint og gott þú hugsar, elskar, vilt,
alt heilagt fagurt, — því nær aldrei tíðin,
það fölnar ei þótt alda geysi hríðin,
og eilífðin það tekur gott og gilt.
Halt áfram, mannkyn, örugt þinni ferð,
því eilíft líf í hjartanu þú berð!

---

ARIOSO.

Hver, sem heitt í hjartans inni
hyllir fagurt, satt og gott,
hann á inst í öndu sinni
eilífa lífsins pant og vott.
Dvíni eiginelsku syndin,
eflist hjá þér guðdóms-myndin
kyn frá kyni, helg og há:
þá skal mikla auðnin enda,

og um síðir skaltu lenda
Jórdans björtu bökkum á!

KÓR:

Dvíni eigin-elsku syndin, o. s. frv.

---

## THEOLOGIA.

Efast þú að framar finnist
fyrirheitis blessað land?
Hnígur þú af þorsta kvalinn
þróttarlaus á bruna-sand?
Sjá þá vatn af steini streyma,
stafinn helga sjáðu vel;
fram því, fram í feikna mörku,
fram þú mannkyns Ísrael.
En þú hefir himna-stafinn
helga lind að opna þér;
hellusteinninn – hvílíkt undur! –
hann þér fylgir, hvar sem er.
Beyg þín kné við bjarta strauma,
bragða vötnin guðdómleg,
drekk þér afl og æsku-þroska
undir strangan göngu-veg!

---

## JURIS PRUDENTIA.

Bruna-stormur ber um sanda
bólstra-far með ryk og mold;
svo gekk Ísrael út frá Hóreb
enn þá laus um regin-fold.

og tál er tíð með rúmi
og tilveran eitt fanga-svið!

---

RECITATIV.

Og þó — í hvert sinn þú við efans braut
af þreytu hnígur, deyr þó ei þinn kraftur,
þú réttir við í regin-þraut,
og reisir örugt forna merkið aftur.
Hvað þá, ef spekings sjónir sjá
að sólna geimsins þúsund eldar hrynji,
að guðheims-folda grúi dynji
sem gullinakur sleginn tímans ljá? —
Hvað hreint og gott þú hugsar, elskar, vilt,
alt heilagt fagurt, — því nær aldrei tíðin,
það fölnar ei þótt alda geysi hríðin,
og eilífðin það tekur gott og gilt.
Halt áfram, mannkyn, örugt þinni ferð,
því eilíft líf í hjartanu þú berð!

---

ARIOSO.

Hver, sem heitt í hjartans inni
hyllir fagurt, satt og gott,
hann á inst í öndu sinni
eilífa lífsins pant og vott.
Dvíni eiginelsku syndin,
eflist hjá þér guðdóms-myndin
kyn frá kyni, helg og há:
þá skal mikla auðnin enda,

og um síðir skaltu lenda
Jórdans björtu bökkum á!

KÓR:

Dvíni eigin-elsku syndin, o. s. frv.

---

## THEOLOGIA.

Efast þú að framar finnist
fyrirheitis blessað land?
Hnígur þú af þorsta kvalinn
þróttarlaus á bruna-sand?
Sjá þá vatn af steini streyma,
stafinn helga sjáðu vel;
fram því, fram í feikna mörku,
fram þú mannkyns Ísrael.
En þú hefir himna-stafinn
helga lind að opna þér;
hellusteinninn – hvílíkt undur! –
hann þér fylgir, hvar sem er.
Beyg þín kné við bjarta strauma,
bragða vötnin guðdómleg,
drekk þér afl og æsku-þroska
undir strangan göngu-veg!

---

## JURIS PRUDENTIA.

Bruna-stormur ber um sanda
bólstra-far með ryk og mold;
svo gekk Ísrael út frá Hóreb
enn þá laus um regin-fold.

Nær sá fans að finna Jórdan,
frelsi hann ei skipan ný? —
Sjá, hvar gnæfir hátt við himin
hulið logum Sínaí.
Fjallið skelfur, skruggur dynja,
skelfir foldu laga-mál;
amen, amen endurtekur
óttaslegin mannsins sál.
Og hin lausa fylking festist,
fólki stýra lögin góð:
sjá, það vex og verður ríki,
verður stór og heilög þjóð.

---

MEDICINA.

Fólkið nú með fastri skipan
fylkir sér um Drottins örk,
gegn um eld og blóð sér brýtur
braut um langa eyðimörk.
En hví blikna hraustar hetjur?
hví mun falla merkis-stöng?
Slægir eiturormar bíta, óðum sýkist kappa-þröng.
Hvar er lækning? hvar er frelsi? hér er tákn, sem Drottinn gaf:
Sjáið orm úr eiri blika undinn kring um spámanns staf.
Og sem við það undrið stóra Ísrael fann hjálp og grið,
rísa heilar heimsins þjóðir, hitta loks hið setta mið.

---

## PHILOSOPHIA.

Eftir alvalds orði stefni
aldir fram með vit og þrótt.
En — hver velur veginn rétta,
villi ljós og blindi nótt?
Sjá þú, eldstoð veginn vísar
verði dimt á regin-leið;
það er andans ljós, er lýsa
lífsins mikla þrauta-skeið.
Sjá og skil, um skæra daga
skýja-stólpi undan fer;
hann er ofinn helgum sjónum,
Herrans andi víst það er.
Sjáarinn frá söngsins Nebó
syngur faldinn geislakrans:
„Salem! Salem sést í fjarska;
svífum til vors föðurlands!“

---

## KÓR AF CANTATE

(við sama tækifæri).

Eftir C. Wirsén.

---

Aldir heilar hafa runnið,
hér í sölum jafnan brunnið
heilög glóð og guðlegt fjör;
hugir ofar sólum svifið,
svásar gígjur andan hrifið,
ótal spursmál öðlast svör.

*Vasa*-kvæði-, *Karla*-saga
kveiktu ljós og vöktu Braga;
hér á lærdóms lista stað
*Linné* kendi, *Geijer* kvað.

Þú, sem signdir Svía-veldi –
sem oss skírðir helgum eldi
riddaralýð og ljóssins her,
og oss vegsemd veittir klæðast,
veikri þjóð og aldrei hræðast,
þó að fáir værum vér:
Blessa þessa björtu sali,
blessa, Guð, vor fjöll og dali;
láttu Svía sverðin skygð
sigra alt fyrir ljós og dygð!

---

## Ó, ÞÉR, SEM HEYRIÐ.

Eftir Petrarca.

---

Ó, þér, sem heyrið andvarpanna óminn
af óði breyttum, sem mitt nærði hjarta,
á meðan glapti' og ginti ástin bjarta –
þótt gengið sé mér nú og horfinn blóminn—

og hlustið á mig hækka' og lækka róminn,
er heimsku-töfrar gleðja, særa, narta,—
ef yður sjálfum eittsinn varð að kvarta,
þá aumkið mig, en stillið harða dóminn.

En glögt eg veit, að undri er eg orðinn
og orðskvið löngu meðal kaldra þjóða,
og ber því harm og blygðun oft í laumi.

Og hver er allur ávaxtarins forðinn?
Mín angurs-blygð og reynslan sorgarfróða,
að lífsins gleði líkist fleygum draumi.

---

## KALVINISMUS.

Eftir C. Wesley.

---

Ó, voðasynd að hugsa heift
og hatursbál sé Guði hjá,
og Guð þeim heimi geti steypt,
er gæzkan leiddi myrkri frá!

Og dæmt þeim eilíft dauða-stríð,
er dóm sinn aldrei flýja kann. —
Ó heiftarfulla heimsku-tíð,
er heljarvillu slíka fann!

Á báli kvelja börnin sín
lát Baal, Móloch, Astarot;
um eilífð — eilífð aldrei dvín
þín elska, Drottinn Sebaot.

Þú vera, Guð, sem varst og ert
og verður elska, leys vort kyn

og lát oss skoða skýrt og bert
hve skelfileg sé villan hin!

---

## KOSSINN.

Eftir Nicander.

---

Ég er að binda
blómstranna linda,
einungis eitt vantar. Þei!
Gullið mitt góða,
gefðu mér rjóða
blómstrið á munni þér, mey! –

„Hvað? Ertu frá þér?
Hvar sést það á mér?
Þigðu af þessum sem vilt.“ –
Jú jú, eg sá það;
sérð' ekki? Gáð að:
lítið, en logandi gylt.

„Mamma mín vaknar,
má ske þess saknar
segir: 'ó, svei, þú ert ljót!'“
Ljáðu það bara,
lát mig svo fara;
flýttu þér, tíðin er fljót.

„Ef þetta tekst þér,
og þú svo bregzt mér –

jæja eg ljæ það sem lán.« –
Gott, fyr en mamma
veit nokkra vamma
verður þér goldið það rán.

---

## LÍFIÐ.

Eftir Cowper.

---

Í sköpunar-djúpi skaparans
vér skynjum hólma – lífið manns;
það girða eilíf undra-höf,
sem innilykja vöggu' og gröf.
Sjá barna-leik á lífsins strönd:
þau leggja flest á gjörva hönd,
þau grípa alt, sem glepur mest,
þau glíma' um alt, sem þykir bezt:
um skeljar, spýtur, þara þang,
og þykjast beita yfirgang.
En sjá, þá fellur flæðin að,
og fjöldi druknar þar í stað;
en þau, sem lifa, leika' á ný,
og lenda sama djúpinu' í.

# V. ÝMISLEG KVÆÐI.

## STÖKUR Í LEIÐINDUM.

Bráðum kveð eg fjör og frón
og fer í mína kistu –
rétt að segja sama flón
sem eg var í fyrstu!

Fræðin minnar bernsku bezt
búa föst í minni,
þótt á reiki reynist flest
í raka-meðferðinni.

Flestir láta leiða sig,
lög og venju ráða;
þann, sem firrist fjöldans stig,
fæstir vilja náða.

Fáir hafa tíð og tök
til að prófa og dæma.
Heimspekinnar háu rök
hver mun fær að tæma?

Ótal margir „andar“ nú
áttaviltir sveima
fyrir norðan traust og trú,
tveggja milli heima.

Ef þig sligar andans pín
ekki er margt til ráða:
Lestu versin litlu þín
og láttu Drottin ráða!

---

## DEILA

Dr. B. M. Ólsens og dr. Finns Jónssonar.

---

Nú hefir Beorn (en bearna
bráþ es kló til váþa!)
Fiþr í fimbulsnuþre
fjölkunnan of unnit:
Es ellifo allar
iþenn fornar kviþor
(Fiþr ser-at ógn né æþro)
Ölkofra gaf Dofre!

---

# V. ÝMISLEG KVÆÐI.

## STÖKUR Í LEIÐINDUM.

Bráðum kveð eg fjör og frón
og fer í mína kistu –
rétt að segja sama flón
sem eg var í fyrstu!

Fræðin minnar bernsku bezt
búa föst í minni,
þótt á reiki reynist flest
í raka-meðferðinni.

Flestir láta leiða sig,
lög og venju ráða;
þann, sem firrist fjöldans stig,
fæstir vilja náða.

Fáir hafa tíð og tök
til að prófa og dæma.
Heimspekinnar háu rök
hver mun fær að tæma?

Ótal margir „andar“ nú
áttaviltir sveima
fyrir norðan traust og trú,
tveggja milli heima.

Ef þig sligar andans pín
ekki er margt til ráða:
Lestu versin litlu þín
og láttu Drottin ráða!

---

## DEILA

Dr. B. M. Ólsens og dr. Finns Jónssonar.

---

Nú hefir Beorn (en bearna
bráþ es kló til váþa!)
Fiþr í fimbulsnuþre
fjölkunnan of unnit:
Es ellifo allar
iþenn fornar kviþor
(Fiþr ser-at ógn né æþro)
Ölkofra gaf Dofre!

---

## TIL FINNS PRÓFESSORS JÓNSSONAR.

1897.

---

Virðing tjáð þér verði!
varðað hefurðu skarðið
fjölkunnigra „Finna,“
Fiðr, sanntalinn þriðji!

Hver hefir bjarma báru
baldr á þínum aldri
sýnt af mengi menta
meiri verk eða fleiri?

---

## NORÐURLAND!

Þú *fjórðungur*, sem fyltir landið *hálft*,
í fyrri tíð – þú bjarta Norðurland!
Frá elztu tíð þú áttir með þig sjálft,
og utan frá ei þektir haft né band:
nú hímir þú við hafsins kalda sand,
sem hreld og gömul, særð og rúin álft!

Þín Hóla-dýrð, þín háa frelsistrú,
þín heimastjórn, þín réttu fjórðungsvöld,
sem fjöri og kepni fylti' alls landsins öld,
þín fjögur klaustur, hundrað rausnarbú,
þitt aðalskyn, þín fræðimanna fjöld,
þín frægð og sómi – hvar er þetta nú?

Þitt fyrsta tjón, þitt fyrsta voða-sár,
þú fekst, er yfir bezta manns þíns hrer –

við höggstokk hans – þú feldir trega-tár,
en trúlaust, dáðlaust fleygðir síðan þér
að fótum sendum sjóræningja her,
og svörnum eiði keyptir skömm og fár!

En verst eg kveð þau kotungs-svikaráð –
það „kongavit", er reyndist allra tjón –
er stól og skóla steypti jöfurs „náð"
og stofn þinn klipti, gamla Norðurfrón;
þeir hefðu grett sig, *Guðbrandur* og *Jón*,
ef gefist hefði að sjá þann Loka-þráð.

Þú skyldir vakna nú með nýrri tíð,
ó Norðurland, og rísa dauðum frá.
Þú átt að heimta aftur völd þín fríð,
þú áttir löngu blygðun þína' að sjá.
Þú átt að boða ævarandi stríð,
unz önnur gullöld roðar fjöll þín á.

En við hvern stríða? Við þig sjálft, já sjálft!
Þú veizt þeir gömlu erfðu knappan sjóð,
en gerðu þó úr *fjórða* hluta *hálft*;
Þeir höfðu trú og þrek og frjáls manns blóð. –
Ó drúp ei meir, sem dæmd og rúin álft:
Með drengskap fram og nýjan guðamóð!

En fyrst og seinast vertu *þinna* vörn!
Því vissulega horfir alt í strand,
ef foreldrin ei fræða sjálf sín börn,

því fræðslan *heima* blessar þjóð og land.
*Og heima vex á hjartalífsins rót*
*það helgilyf, er skapar siðabót.*

Hef menning þína, samhug, dáð og sæmd
til sigurfrægðar, unga Norðurland!
Og verði fremd þín ferfalt meira ræmd
og frelsið *innra* giftu þinnar band.
En fánýtt er þitt frelsis skrum og raus,
sé fólkið deilt og þjóðin höfuðlaus!

---

## MÓÐURKVEÐJA.

Eg vef þig nú með veikri hönd
og víst í hinsta sinn,
því frá mér út í fjarlæg lönd
þú fer nú, sonur minn.

Nú hef eg sopið sjötíu' ár
inn súra bikar minn,
en aldrei sveið mér sorgar tár
eins súrt og þetta sinn.

Eg er svo vesöl, veik og mædd
að verða' að sleppa þér;
minn einkason, eg er svo hrædd,
því alt er hulið mér.

Eg veit það eitt, mitt veika hold
til værðar flýtir sér
og hnígur þreytt í helga mold,
en hvað mun verða' af þér?

Eg veit það eitt, að veröld hál
þig vefur kátt að sér
á meðan eg bergi bana-skál
í burtu langt frá þér.

Æ, horfðu' á þessar hrumu brár
og hrærður kveddu mig,
þú þekkir ekki öll þau tár,
eg út gaf fyrir þig.

O, breyttust öll þau angurs-tár
og yrðu stjörnu-her
að ljóma upp þín æfi-ár
og ávalt lýsa þér!

Hve gjarnan skyldi' eg gráta meir,
já, gráta' í lengd og bráð,
ef Drottinn vildi dropar þeir
þér dæmdu líkn og náð.

En Drottinn minn á dropa þá,
langt dýrri' en móður tár,

er sálum vorum svalað fá,
minn son, um eilíf ár.

Æ, far nú vel, og mundu mig –
nei, móður þinni gleym,
en Drottin Guð, sem dæmir þig,
í dyggu hjarta geym.

Guð blessi alt, sem blessar þig,
æ, barn mitt, farðu vel,
og leiði guðleg gæzka þig
í gegn um líf og hel!

---

## TIL KONU MINNAR.[1]

### Á nýári 1881.

Þá er úti þraut og pín,
þú ert komin, elskan mín!
níu-vikna nóttin þver,
nýárs-sólin runnin er.
Hýrnar alt um Herrans geim,
hjartað mitt er komið heim.

Sólarlaus eg sat og beið,
sinnulítill stóð og kveið,

1) Undir nafni annars manns.

inni dauflegt, úti haust,
alt svo kalt og móðurlaust,
alt svo tómlegt, bygð og bú,
blíða snót, því ollir þú.

Og vor blessuð börnin þá:
brosið dó þeim vörum á;
spurðu: „Hvar er mamma mín?
man hún ekki börnin sín?“
Spurðu: „Hvenær koma jól?
Hvenær rennur aftur sól?“

Lof sé Guði, ljúfa sprund,
liðin er nú rauna-stund,
aftur birtist blessuð sól,
börn vor glöddu náðar-jól.
Öll? Já, öll; en einkum þó
okkar *litla blóm,* sem dó.

Lukka vor í heimi hér
hefir fastar skorður sér.
Það er gott; sé Guði lof;
gleðin má ei vera' um of.
Guði' sé lof, sem gaf og tók;
Guði' sé lof, sem kraft oss jók!

Því er úti þraut og pín,
þú ert komin, elskan mín!
Ljúfa stoð í lífs míns þraut,

liljan mín á þyrnibraut.
Guð þér signi gleði' og tár,
Guð þér blessi hvert þitt ár.

---

## NÝÁRS-ÓSK FJALLKONUNNAR.

**Úr leiknum: „Hinn sanni þjóðvilji.“**

---

**Ritstjórinn sefur fram á skrifborð sitt. Í því opnast baktjaldið og Fjallkonan kemur fram á leiksviðið í mynd skrautbúinnar konu. Hún ávarpar áhorfendurna þannig :**

Islands börn, hér er Ísafold,
þótt ykkur sýnist eg lifandi hold:
sjáið minn fald, það er fjallanna tindar,
og feldurinn hæðir og dalir og rindar,
og höfuðgullið er himinsins sól,
sem hríslast kring um minn segulstól,
og beltið er fossandi fljót og gil
með frelsis ljómandi kristals-spil.
Sjáið in mjallhvítu silfur-böndin,
þau saurgaði aldrei nein fjandmanns-höndin;
hrein stend eg enn í því skæra skrúði,
er skaparinn gaf sinni jökulbrúði.
Hann fékk mér sjálfur minn skírleiks-skjöld,
hann skírði mig sjálfur, er hófst mín öld:
hann sagði: „Ver jafnan helg og há
með heiðan faldinn við loftin blá;

þótt eldur, stormur og ís þér ami,
þinn ásborni svipur sé jafnan hinn sami."
Þá las hann mér forlög mín stríð og stór,
þá stundu mín fjöll, þá dundi minn sjór;
og enn, ef mig dreymir þau örlaga-orðin,
af ofboði skelf eg, svo titrar storðin.
Ó, vesölu börn, hvað vitið þér
hve voða-mögnuð sagan mín er?
Ó, dægur-flugur, þér deyið svo fljótt,
ykkar dagur er stjörnu-hrap um nótt;
en eg hefi þrokað á heimsins hjara,
og horft á Guðs eilífa stjörnu-skara
og voveiflegt náttúru veraldar-spil
frá því vötnin sjötnuðu' og eg varð til!
Ó, dægur-flugur við dauðans stig,
sem deyið ef fjallkonan hreyfir sig,
heyrið mín orð og hlustið til,
heilræði nokkur eg mæla vil:

Stutt er æfin, en listin er löng,
og lífsins braut í sannleika þröng.
Eg var orðin hrædd, mín elskaða þjóð,
það var orðið svo blandað þitt konungs-blóð;
eg hef heyrt slík ókjör af harki' og skvaldri,
eins og hávaða' í börnum á sjötugs aldri;
eg hef heyrt slíkt hvínandi garg og gól
í gegn um jökul og tinda-stól,
úr fjöllum, úr afdölum, fjörðum og vík
þá fossandi, beljandi pólitík.

Og sumt var nú þarft og satt og maklegt,
og sumt var djarfmannlegt, snjalt og spaklegt;
en sumt — já sumt var tómt gaspur og gutl,
tómt glamur og hringlandi sérplægnis-brutl.
Ó, snert þú ei, bóndi, þá „blóðrauðu húfu“,
þú, sem býr æ við útigang, sléttar ei þúfu!
Mín ástkæra þjóð, þú ert enn í peysu,
þú ert enn að byrja þá löngu reisu
úr amlóðans baðstofu gegn um göng
grafin af moldvörpum, lág og þröng;
og því ertu rám, og því ertu lotin
og þrumir og stendur oft ráðaþrotin
með hendur í vösum. Og höfðingjar þínir,
þessir háeðla, dygðprýddu synirnir mínir,
þeir látast ei tíðum sjá lifandi ráð
nema lifa' og deyja upp á kóngsins náð.

Þó ertu' ei aldauða þjóðin mín,
og því tekur fóstrunni sárt til þín,
og ef þú þolir að heyra þitt hrós,
þá hýrgar mig fagurt vonar-ljós:
þú vilt í sannleika losast úr læðing,
þig langar og þyrstir í endurfæðing,
þú vilt þó mannast og verða þjóð
og vekja til heilsu þitt forna blóð.
En þrumuðu stiltara' um þjóðar-vilja,
því þar er orðið, sem fáir skilja
á meðan sundrungar sálin leið
situr við stýrið á þjóðlífs skeið.

Burt, burtu með þennan Þór úr stafni,
en þjóðmerkið upp í Drottins nafni,
með eining og hreinskilni, djörfung og dáð,
með drengskap og frjálsborin snildar-ráð,
með tryggari hjörtu, með helgari sál,
með hraustari vilja, með göfugra mál!
Þá færðu, þjóð mín, þjóðar-viljann,
(lítur til ritstjórans)
og þá mun ritstjórinn betur skilja' 'ann.

Að endingu góð og gleðileg jól
með geislandi náðar og frelsis sól;
með ljómandi nýár, sem gengur í garð,
með gæzku til lands og með sjávarins arð.
Ó, gamla' ár, hring þú út hrygð og nauð,
en hring þú inn, þú nýja' ár daglegt brauð!
O, gamla' ár, hring þú út heiftir og hróp;
en hring inn, þú nýja' ár, fagnaðar-óp!
Ó, gamla' ár, hring þú út heimsku' og lygð,
en hring inn, þú nýja' ár, vizku' og dygð!
Ó, gamla' ár hring þú út húmið svarta,
en hring inn, þú nýja' ár, ljósið ið bjarta!

---

## NÝÁRS-KVEÐJA „ÞJÓÐÓLFS“

1878.

*Gleðilegt nýár, göfuga þjóð!*
gleðilegt nýár, menn og fljóð!
sólbjart ár yfir fögur fjöll;
frjósamt ár yfir blómsturvöll;
yndis-ár yfir ey og sker;
arð og gagn yfir fiskiver;
frelsis-ár yfir fræ í jörð;
farsælt ár yfir búmanns hjörð;
heilla- ár yfir hest og skeið,
heilaga vernd yfir hverja leið;
sváslegt ár yfir svana-braut;
söngblítt ár yfir skógar-laut;
lausnar-ár yfir maðk í mold;
merkis-ár yfir lög og fold!

Gleðilegt nýár, göfuga þjóð!
gleðilegt nýár, menn og fljóð!
náðar-sól yfir silfurhár;
sigurmark yfir gullnar brár;
læknis-ár yfir lýða mein;
líknar-ár yfir tár og vein;
heilsu-kraft yfir hvern einn arm;
hamingju-rót í sérhvern barm;
hreysti-svip yfir horskan svein;
hreinleiks-bragð yfir silkirein;
hýru-rós yfir hvarma smá;

heilagt ljós yfir öldungs brá;
logandi stríð yfir lygi' og tál;
lifandi trú yfir hverja sál!

Gleðilegt nýár! – Guðleg sól,
gæzkunnar bjarta veldis-hjól!
mikið átt þú í vændum verk,
að vefa' úr dauðanum lífsins serk.
að vinna þitt guðvefs-geisla-lín,
og gleðja' hin minstu börnin þín,
að leiða' úr klakanum líf og auð
og láta hvern orm fá daglegt brauð!

Gleðilegt ár! – þú andans sól,
sem árshring byrjar um lífsins stól!
Heilaga ljós, sem heyr æ stríð
við heljar-veturinn ár og síð!
Vor ytri neyð, hún er nætur-ís;
en nötri sálin, er dauðinn vís,
og nísti helið vorn hjartans pól,
þá höfum vér vetur, en aldrei sól.
Kom því, ó, skínandi ljósanna ljós,
og leys vora köldu þjóðlífs rós!
markaðu' á skjöld fyrir mannlífs bygð:
„Mentun jöfn með frelsi trygð".
Leiftri þau orð þar logandi rauð:
„Án lifandi vonar er þjóð hver dauð."
Skíni þau orð við alfara-stig:
„Elski hver annan meir en sig."

Skrifaðu' á himin, lög og láð:
„Lífið er sigur og guðleg náð“!

---

## SKOTFÉLAGS-SÖNGUR.

(Sunginn við samsæti félagsmanna í Reykjavík 23. febr. 1878).

---

Burt með Íslands elli-drunga,
út með gamalt kíf!
Taktu sverðið, æskan unga,
upp með táp og líf!
Hér eru tröll, að hæfa' og skjóta,
hamra-fjöll að niðurbrjóta,
hér er næsta nóg að vinna,
neyttu handa þinna!

*Heimska* flagð við himin gnæfir,
hylur morgunsól,
*Vani* jötunn seggi svæfir
sinn við töfra-stól.
Hér er Suðri, hér er Hýmir,
hér er Norðri, Klaufi, Gýmir,
gnípu-tröll í galdra-virkjum.
Gjörum hríð þeim Tyrkjum!

Hamar Þórs er heimtur aftur;
hræðstu jötna-þjóð!
Hvað er riffils remmi-kraftur,

reiðar-slög og glóð?
Það er andi Þórs, er svellur,
það er orð hans munns, er gellur,
og hans magn, sem mylur tröllin,
mölvar tinda-fjöllin!

Hefði Egill, hefði Kári
haft vor skruggu-tól,
hefði víst í hildar fári
horfið tungl og sól.
Gunnar skaut með grönnum boga,
Grettir vó með Hnikars loga:
ætluð voru vorum höndum
vopn úr þrumu-bröndum.

Burt með Íslands elli-drunga!
Upp vor kappa-þjóð!
Ljóði riffils leiftur-tunga
líf í gamalt blóð!
Goð og feður frægðar-alda,
fjörgið manndóm landsins kalda!
Þróttur, fjör og afreks-andi
yfir þjóð og landi!

## HAFURS-MÁL HIN NÝJU.

(Sungið við fyrstu sýningu á Akureyri).

Lof sé Guði! lifnar öld,
landið rís ið forna;
nú er hvorki nótt né kvöld,
nú er fljótt að morgna;
gleðitárum grætur jörð;
gæzkan streymir niður: —
yfir gamlan Eyjafjörð
ár í dag og friður!

Frúr og menn í fögrum hring
fylkja liði saman.
Skal nú heyja hesta-þing,
hefja leik og gaman,
glímur, knattleik, sýna sund,
söxum hendi leika?
skal nú velja víga-grund,
vekja Hildi bleika?

Nýir menn með nýjan sið
nýjar listir fremja;
hér skal spánný Hafurs-grið
handa lýðum semja:
Helgi Drottinn leið og land
lengra' en valur flýgur;
helgi Drottinn hjartans band
hærra' en sólin stígur!

Hér skal nýjan hasla völl,
hjör þótt enginn syngi.
Nú er glatt í Gimlis-höll
göfgum Þveræingi;
Vitaz-gjafi, Glúmur, þinn
glóir senn hinn fagri:
aftur feita fjörðinn sinn
finnur Helgi magri!

Fyr var sæmd að heimta hefnd,
höggva, slá og deyða;
nú skal talin frægri fremd
félagsböndin greiða.
Fyr var sæmd að sýna skarð
í saxi Grettis miðju;
nú skal sýna sigurarð
sællar friðar-iðju.

„Hver á snót svo haga hönd?
Hvílík yndis-prýði!“
„Hver svo auðug akurlönd
yngis-sveinninn fríði?“
„Hver á gripinn? Hver á hjörð?
Hver á prúða jóinn?“
„Aldrei sigldi fram á fjörð
fegri skeið um sjóinn!“

Heilir, menn, á frjálsan fund!
förum strax að þinga!

Nú er sett á sigurstund
sýning Eyfirðinga!
Blessi Drottinn mann og mey!
Mildin streymi niður!
Yfir gamla Garðars-ey
gullið ár og friður!

---

## TIL PRÓF. WILLARD FISKE

**við burtför hans úr Reykjavík 18. okt. 1879.**

---

Lands og lagar dísir,
leiðið tiginn gest;
vinda guðir vísir,
veðrin gefið bezt.
Aþena Snælands, Saga svinn,
*Odysseif* til *Íþöku*
aftur leiddu þinn.

Odysseifur eyddi
Ílíons helga borg,
yfir aldir leiddi
ólán, böl og sorg,
eldi loks í landið stakk;
hróðugur síðan hét á goð
og hóf sitt regin-flakk.

Odysseifur a n n a r,
enga tókstu borg,

samt af foldu fanna
fylgir þér nú sorg;
þú hefir tendrað Trója-bál:
glætt og hýrgað hjartans eld
í hverri landsins sál!

Göfgi, mildi gestur,
Guð þig leiði heim.
Heillir héðan vestur
hlýrum fylgi tveim.
Á þér, *Willard*, ósk vor hrín:
þegar góðs er getið manns,
getið verður þín!

---

## „ÞEIR NÍU“
eða
## EXAMEN THEOLOGICUM.[1]
(Kafli úr bréfi).

---

Nú eru „þeir níu“
í nauðungar-stíu;
Guðs góða orðið
við græna borðið[2]

1) Þ. e. guðfræðis-prófið.

2) Þeir, sem prófaðir eru, og kennarar og prófdómendur í prestakólanum, sitja við grænt borð undir prófinu.

þylja þeir og fá
þetta „tvo“ og „þrjá“;
ná, ná, ná!

---

O, jæja! — Það geta' ei allir verið
eins og Sankti-Páll.
Við brimlöðrandi brennivíns-skerið
er breiði vegurinn háll!

*Ekklesian*[1] var aldrei þröng,
inn mega níu skeiða,
hún er eins víð og Vítis-göng,
sem veginn enda breiða.

Við altaris-hornið áttu skjól
frá allra-fyrstu tímum
tröllin ofan úr Tinda-stól,
talin í Andra-rímum.

---

## ÞORRA-LOK
eða:
## VATNSFLÓÐIÐ Í REYKJAVÍK 1881.

### I.

Þorri kvaddi þrælinn sinn
þrútinn harmi sárum:

---

1) Þ. e. kirkjan.

gráttu fyrir mig, góði minn,
gráttu beiskum tárum!

Eg hefi gleymt að gera bót,
gjöldin þungu beygja,
komið er nú á marka-mót;
á morgun skal eg deyja.

Mörgum fyr af kulda kól
karli tárið bjarta,
sjaldan bót og iðran ól
íslenzkt Þorra-hjarta.

Rann eg á með frost og fár
fullur heiftar-bræði;
dundi loft og land og sjár,
léku hús á þræði.

Klakasleginn hristi' eg hadd
hungurstrengdum sauðum,
slengdi þeim á grimman gadd,
gekk af mörgum dauðum.

Feykti landsins fugla-kór
fram á sjó með spotti;
eins og steinn hinn sterki jór
stóð og dauður glotti.

Fugla, kvikfé, menn og mýs
mat eg jafnt og stráin,

lét því bana byl og ís,
barði freðinn náinn.

Harðast var mitt heiftar-megn,
höfnum þá eg læsti,
skipum óð og æddi gegn,
ógnum blés og fnæsti.

Inn á fornan Faxa-ós
„Fönix“ öldu gnúði,
færði brauð og líf og ljós
lista-knörinn prúði.

Tók eg þá minn trölla-ham,
titraði Fjölnis brúður,
brynjaður stökk af björgum fram,
blés í fimbul-lúður.

Kafaði Fafnir kólgu-sjó
knúður járni og eldi,
heiftar-glóð úr gini spjó,
grenjaði Ránar veldi.

Harðara' einvíg áttu sér
aldrei tveir á hólmi;
geystur hljóp í greipar mér
galdra drekinn ólmi.

Strauk eg fyrst um borðin breið,
brynjaði sterkum klaka,

þar til öll var sköruð skeið
skjöldum hvítra jaka.

Ógnarsterkan stafna-gamm
stöðvað gat þó eigi,
reiddi' eg þá í reiði hramm
og rak á kinnung fleyi.

Gildara högg á græðis-braut
gaf ei neinn né þáði;
knör af sterkum kili hraut,
kafið reiðinn fláði.

Hélt eg væri sköpum skift,
skorpu nokkuð létti;
siglu-skrúð var skýft og klipt,
skeiðin við sig rétti.

Vélin aftur galdra gól,
gnast í þrúðgu báli,
umdu' og glumdu töfra tól,
tísti' í grimmu stáli.

Nærri lá, ég legði frá
lagar háum svani,
rann þó á með regin-sjá,
ráðinn þá var bani.

Báran dundi breið og reið,
brá eg við á meðan,

flatur undir skreið eg skeið,
skemdi hlið að neðan.

Svalg nú drjúgum svala unn,
siglu-jórinn gildi,
leiddi' eg hann á leynigrunn,
lenda heill ei skyldi.

Fjögra daga dauðans kíf
dróttin þoldi rakka;
þeirra veika veslings líf
var ei mér að þakka.

Heyrðu, þræll, minn hugar-grun:
hærri kraftar drotna;
ég og sérhver jötunn mun
jafnt sem „Fönix“ brotna.

Finn eg gjörla, sonur sæll,
syndin fæðir trega;
gráttu mína glæpi, þræll,
gráttu feikilega!

Þennan heimsins kalda krík
kenna' eg lét á fári;
gleymdu' ei henni Gufu-vík,
gott hefir hún af tári.

Gæti stirður grátið nár
grafinn og andarsnauður,

fyrir þá borg eg feldi tár
freðinn og löngu dauður.

Í mitt ramma risa-skegg
refsinornir toga;
norður ber mig heljar-hregg
heim í Elivoga.

---

II.

Þorri dó, en þrællinn trúr
þagði fyrst og stundi,
hljóp svo upp, en hvelfiskúr
hátt úr skýjum dundi.

Æddi hrönn, en hræddist þjóð,
hús og stræti flóa;
sást ei því líkt synda-flóð
síðan á dögum Nóa.

Hér í ríkri Reykjavík
ráðin fækka gjörðu,
leit ei nokkur læti slík
á lifandi manna jörðu.

Húsin sýndust sela-sker,
sukku stræta-mörkin,
fólkið vildi forða sér,
fanst þá hvergi örkin.

Fimtán stræti fyltust senn,
  fór að minka gaman,
hestar, meyjar, höfuðs-menn
  hendur tengdu saman.

Ríkisfrúr með rúmfjölum
  reyndu' að stöðva æginn;
„séní"[1] tólf með suðvestum
  syntu þveran bæinn.

Hækkar sjórinn, harðnar kur,
  húsin fóru' að sökkva,
skólans stóru skinnbækur
  skornar vóru í nökkva.

Tók að bila trúar-skurn,
  togna lífsins festar,
klifruðu upp í kirkju-turn
  konur, menn og hestar.

Æpti þjóð með andköfum:
  „Ólán vort vér kennum
sumpart leiðu syndunum,
  sumpart slæmum rennum."

Nærri gekk þar hurðu hæll,
  heldur stint var grátið;

---

1) Geni, hér sama sem hugvitsmaður.

í því springur Þorra-þræll,
þoldi ei lengur mátið.

Vatnið flýði, brosti bær,
burt var stríða sorgin,
hafin úr víði há og skær
heilsar lýðum borgin.

Öldum flotna Ingólfs rós
eftir þvottinn stríða,
sé þér lotning, heill og hrós,
hafsins drotning fríða.

---

# KRAFTA-KVÆÐI
## EÐA
# HEILSU-MINNI KRISTJÁNS SKÁLDS.

### GAMANRÍMA TIL SKÁLDSINS KRISTJÁNS JÓNSSONAR.

**(Kristján lá á spítalanum í taugaveiki 1867; þá er hann var í afturbata, bað hann höf. þessa kvæðis að yrkja sér „kraftakvæði“.)**

---

Það er upphaf þessa máls –
þegi nú allir runnar stáls! –
Kristján skáld vér kappa köllum,
kominn í heiminn norður á Fjöllum.

Ólst hann upp sem annað hross
undir köldum gljúfra-foss;
þar var hann í hríðar-bæli
huslaður á Góu-þræli.

Sem arnar-unga fleygði fram,
fjögra vetra drap hann gamm,
og óx svo snúðugt upp frá þessu,
að átta vetra feldi' hann skessu.

Gekk hann oft um ferleg fjöll,
flæmdi þaðan dreka' og tröll,
og bjargtrölls-skinn og bjarnar-feldi
við brennivíni dönskum seldi.

Var hann nú orðinn vetra tólf,
að vexti jafn við Göngu-Hrólf,
í gangi' og tali Gretti líkur,
og gekk nú ofan til Húsavíkur.

Óð í mjaðmir freðna fönn;
færði Dönum risa-tönn
og átján punda úf úr skessu;
hann átti við hana' á Þorláks-messu.

Danskurinn gaf þá drjúgum staup,
dæmalaus hann gjörði kaup;
burðugur gaf honum búðargætir
Byron skáld í eftirbætir.

Þarna mættist karl og kýll;
kapphlaup eins og drukkinn fíll,
þar sem mætist aur og alda,
óð hann Byron milli spjalda.

Hann fyrirleit nú tornæm tröll,
og trygð hann sleit við stirðnuð fjöll,
hann trúði' á Byron, hét á Hænir[1]
og hugðist kunna Þórðarbænir.

Gekk svo vestur kaldan Kjöl
og kom hér ofan á Víkur möl:
„Hver er hann, sko!" – kvað skríllinn – „svarni
Skrymnir, Glámur, Hnausa-Bjarni?"

Lærðum allvel leizt á rekk,
þeir leiddu hann upp í fyrsta bekk,
léðu' honum heldur lága sessu
og leiða hétu til hans skessu.

Beit á kampinn burðastór,
brýrnar ýfðust líkt og sjór,
úr augum gnístrar kempu-kraftur,
en kennarinn snýr nú til hans aftur

og lagði á borðið bókar-flík,
sem bóndinn nefndi Grammatík;
en kempan hrópar: „*H*var er skessa?"
Kennarinn svarar: „Líttu' á þessa!"

---

1) ɔ: skáldið Heine.

Þú ert nú, karl minn, kominn hér,
og kemst nú ei úr greipum mér;
og viltu nú hætta' að vaða í tröllum
vestur um Flóa' og norður á Fjöllum?

Svall í æðum sjóðheitt blóð,
sáran stundi hetjan góð,
er stilti' hann sig við bókmáls-blesa,
bókina tók og fór að lesa.

Margt í bókum þykir þunt,
og þeim ei sízt, er vaða grunt.
Hann Horaz sverfur hófið gylta,
en Hómer kveður við gígju stilta.

En ekki skal eg þrefa' um það,
en þessa kunni' hann utan að;
af sögunni las hann sextíu bækur,
en Samson einn honum þótti sprækur.

Nú var hann orðinn eins og lamb,
engum sýndi byronskt dramb,
og lét sem öllum undan renni,
en allir vissu' hann heljarmenni.

En líkt og forðum Samson sveik
ein sauma-snót í ásta-leik,
eins hugðist Skuld hinn vaska véla
— og veifar að honum fullum pela.

Í líki mjúkrar meyjar var,
manninn ekki grunar þar,
en drakk í botn og ugði ekki,
ilt er að varast Skuldar hrekki.

Hneig hann þegar óvit í,
ofsakát varð hún af því:
„Syngi nú hærra en Páll og Pétur
pilturinn“, kvað hún, „ef hann getur“.

Gekk hún burt, en garpurinn lá,
grátlegt spurðist feigðar-dá
ofan beint í undirheima,
Orfeifs þar sem var að sveima.

Vaknar hann við vondan draum,
vekur hvellan hörpu-glaum;
en alt, sem til er, að sér draga
unaðsgaldrar þessa Braga.

Þar kom Hómer, Heródót,
Hákon galinn, Vatnsdals-Ljót,
Glámur, Byron, Grímseyingar,
Grautar-Halli og Meróvingar.

Þar kom fleira' en þéttast mý
menn þykjast muna Grafningi' í,
auk orma, jötna, eykja, dýra,
sem enginn nennir frá að skýra.

Alt það slær um Orfeifs hring,
enginn leit slíkt hrafna-þing;
hann hleypur upp á stein og stælti
sinn sterka róm og þannig mælti:

„Þú undirheimur allur, heyr,
ég ætla nú ekki að spila meir,
en heyri kona, karl og sauður:
hann Kristján skáld er nærri dauður!“

Í þessu bili þagnar hann
og þrammar burt með grallarann,
og óðar sundrast allur ríllinn;
eins er í báðum heimum skríllinn.

Óðinn kallar á sinn hrafn:
„Er til, krummi, þetta nafn?“ —
„Já“, kvað hann, „af helzta tagi
hetju-skálds í bezta lagi.“

„Það var listin!“ Loki kvað;
„þú lýgur, hrafn, að segja það;
því látið þið Þór mig kremja' og kyrkja,
ef kann hann meir en naut að yrkja.“

Til vitnis kvaddi' hann Kark og Mörð,
kölska og þrettán lambaspörð;
ei lengra teygði' hann lyga-kraftinn,
þá laust hann Þór á miðjan kjaftinn:

„Þegi þú, helvítis hundurinn þinn,
því hann er nú bezti ástvinur minn,
betra skáld á eg ekki norðar;
það er eitthvað svo þreklegt, hvað sem hann orðar.“

Í sama bili þrumar Þór,
og þá varð brestur kynja-stór,
og þruman kveður: „Komið allir,
sem kallist óðmæringar snjallir!“

Þar kom Sékspír, Sófokles,
Safó, Dante, Byron, Spes,
Göthe, Shiller, Herder, Hómer,
og hann, sem orti flestar *„gnómer“*.

Og þar kom Egill orkustór.
„Ertu kominn?“ sagði Þór.
„Þú sér það, vinur,“ sagði hann; „þarna
þú sér þá Hallgrím, Jón og Bjarna.“

Þar kom Pétur, þar kom Páll,
þar kom Set og einhver Njáll
og ótal skáld, sem ætti' að stefna,
því enginn kunni þá rétt að nefna.

Og furða var um flesta þá,
sem fæstir kunnu nafnið á;
ataðir voru þeir arnar-leiri;
aldrei sáust dritsker fleiri.

Og þar var fjöru' og þara lykt,
og þar kom margur Benedikt,
sem var að bjóða sálu-söngva;
en seldi, hélt eg, fá eða öngva.

Þá hófu leirskáld rímna-raul,
sem rækju þúsund kýr upp gaul,
en kórdjákninn á söngva-svelli,
var séra Snorri' á Húsafelli.

Bellmann grét, en bilt varð Þór,
hann bauð þá skyldi leiða úr kór:
„Þið eruð ei", kvað hann, „eins og draugar;
þið eruð naut og mykju-haugar!"

Var nú eftir valið þing,
vizkan stóð í glæstum hring;
það voru hundrað heimsskáld mestu,
sem hafa kveðið ljóðin beztu.

Loguðu hvarma-ljósin snör,
list og andagift og fjör
skein af hvelfdum hvarmi og munni
og háleit tákn frá Urðar-brunni.

Tók til máls hinn mikli Þór:
„Mér er nú sorg í hjarta stór,
því bróðir vor og bezti vinur
af bráðafári sáran stynur.

Hefði hann átt við heiðin tröll,
þá hefði' eg enn þá ráð mín öll,
og aldrei spurt að kvæða-krafti,
en komið sjálfur með hamar á skafti.

En við henni Skuld, sem vélti hann,
eg veit ei neitt, sem duga kann,
nema' ef þið hefðuð kveðið kvæði
svo kröftugt, að hann heilsu næði.

Og ef hann lifir á annað borð,
aukið þið þá við fáein orð,
sem magni hans sálar-ljós til ljóða
og lengi orðstír skáldsins góða.

Hann Bragi' er elztur, byrji hann;
brúkið nú óspart grallarann,
og komið svo heim og klingið saman;
í kvöld, ef hann lifir, skal verða gaman."

Þór gekk heim að skenkja' á skál;
en skáldum þótti vandast mál,
og flestum heldur gamanið grána,
en gjarnan vildu þeir hjálpa Stjána.

Þá dugði bezt, þar sátu' í senn
sextíu' og níu drykkju-menn!
Þá Breiðfjörð, Vessel, Bellmann, fleiri
barði drykkurinn fram sem keyri.

Loksins byrjar Bragi lágt,
en Breiðfjörð gall við stundarhátt:
„Þó ég sé enginn Galdra-Grímur,
þá gaulið þið heldur Andra-rímur.“

Séra Snorri sóttur var
að segja þeim lag við rímurnar,
og að því búnu allir byrja
í einni veifu' að syngja' og kyrja.

Löng og ströng var ljóða-gjörð,
lék á þræði bjargföst jörð,
knúðu hljóðin kverka-rætur:
Kristján alheill stökk á fætur.

Þá varð glatt í geðinu Þór,
greip hann ámu fulla' af bjór,
og kneifði' í botn úr kersleifinni
síns kæra vinar heilsu-minni.

Greppum óspart gaf hann staup
það gaml'árs-kvöld í ljóða-kaup,
og líka drjúgum sagði' hann sögur,
er settu óðar þeir í bögur.

Á aðra hlið við Þrumu-Þór
þekti' eg Egils gamla bjór,
ginn-heilagur glotti skallinn,
í góðu skapi var nú karlinn.

Þór nam hvísla Agli að:
„Eg er nú beint að hugsa' um það
að vita hversu vel þér semur
við hann Kristján, þegar hann kemur.

Þegar haun losast hels við húm,
hérna ætla' eg pilti rúm,
þó skeki sig aðrir skálda-hnokkar,
á skemlinum á millum okkar."

Meira hvorki' eg heyrði' eða sá,
eg held að tunglið skygt hafi' á;
og hér við krafta-kvæðið linni,
sem *Kristjáns* nefnist *heilsu-minni.*

---

## TIL ÁHORFENDANNA.

1879.

---

### 1. Á undan leikunum.

Þá sólin úr suðrinu kemur
og sumarsins lífgandi blær,
sem frónið úr náklæðum nemur,
svo náttúran vaknar og hlær,
þá gengur í gróandi varpa
hinn glóhærði barnanna fans;
alt lífið er hljómandi harpa,
þau hnýta sér blómanna krans;
þau velja sér ljómandi liti,

því listin er komin svo skamt;
þau velja sér fæst eftir viti,
en velja' úr hið fegursta samt.
Ó, saklausa sál! þú hin hreina,
ert sólin á listanna braut,
eitt blaktandi blóm milli steina
þér birtir alt Salómons skraut!
:,: Í sólaryl vorsins býr sumarið fyrst :,:
og sakleysi barnanna verður að list.

Þér gestir, sem sjónleik vorn sæmið
og sýnið oss velvildar-skjól,
sem börn þau þér bezt um oss dæmið,
er breiða sín gull móti sól.
En sólin ei gagnað oss getur,
hún gengur svo stutt og svo lágt;
og meðan hér varir sá vetur,
í varpanum sprettur svo fátt. —
Ó, júní, með sigrandi sólu
frá suðrænni skunda þú fold
og kalla þú fífil og fjólu
úr fósturlands kulnaðri mold!
Hér glóa nú, gestir, á bandi
öll gullin í íslenzkum leik:
tóm fokstrá af fjarlægu landi,
sem falla hér visin og bleik.
:,: Vér gefum, hvað höfum; eitt frækorn er fyrst :,:
svo fæðist að lokum hin guðborna list!

2. Leikslok.

Oft var dauf þín æfi,
Íslands forna grund,
lífið enginn leikur,
löng þín vetrar-stund,
meðan hurð á hreysi
harður gnúði Kár,
og dimt fyrir dröngum
dundi reiður sjár,
meðan hraut af hnjúki
hrím og nístings kóf,
hrafn og refur hímdi,
hjarnið stormur skóf,
hvergi björg á hauðri,
hvergi skjól í dal,
meðan ráðvilt rjúpa
reiðan flýði val.
Þá var lítt um leika,
ljóðin stirð og fá,
frægðar-gígjan forna
fraus í þögn og dá.
Nú til lífs og ljóma
lista stefnir goð,
og um sól og sumar
sendir örva-boð.
Yfir ættlands voga,
yfir tigið Frón,
bendir silfur-boga
Bragi-Apollón.

Löng er listin helga,
lífið stutt og valt,
lárinn seinn að lifna,
landið bert og kalt;
hraun og hrjóstur spilla
Hesperída-lund,
og dansandi dísir
dapra flýja grund.
Því skal götur greiða,
grjót úr vegi flutt,
ræktað innlent engi,
arfa burtu rutt.
Því er það vér myndum
þessa fögru list—
veik er enn vor íþrótt,
alt er lítið fyrst.
Viljann fyrir verkið,
vinir, takið þó;
yðar þökk og alúð
er oss borgun nóg!
En til lífs og ljóma,
lista-, stefndú, goð,
og um sól og sumar
send oss örva-boð!
Yfir ættlands voga,
yfir tigið Frón,
bentú silfurboga,
Bragi-Apollón!

---

# NÝÁRSSÁLMAR.

## I.

1880.

Upp, upp, þú sól af svölum straumi
og singdu þennan nýja hring;
upp, upp, þú sál, af dvala-draumi
og dýrðar-ljóð af hjarta syng;
upp, upp, af svefni, sérhvert strá,
að sólin Guðs þér lýsi há!

Og fokstrá lífs um foldu kalda,
sem feykist laus um hjarn og grjót,
því glepjist þér af glaumi alda
og gleymið yðar sönnu rót?
Ó, treystið aldrei tímans sjó,
en trúið ljóssins helgu ró.

Hve fagrir eru fætur þínir,
þú friðar-boði, máttug sól!
þú stígur fram og kransi krýnir
hvert kulda-strá, sem jörðin ól,
og himinskarti björtu býrð,
hvert blóm er veröld full af dýrð.

En þó er öllu æðri' og hærri
sú andans mikla nýárs-sól,
sem birtist enn í skuggsjá skærri
og skrifar „Guð“ á tímans hjól.

Við hennar sprettur heilög spor,
á hjarni tímans eilíft vor.

Ei laufblað finst í lífsins garði,
þú ljósa ljós, sem ei þú sér;
ei týnist korn af andans arði,
og ekkert fokstrá hverfur þér.
Þig felur aldrei fold né sær;
hver fífill þinn um eilífð grær.

Stíg hátt, stíg hátt á himinboga,
þú heilög sól af tímans nótt,
og láttu andans loga loga,
svo lífið fái nýjan þrótt;
gjör alla menn að einni hjörð;
gjör Eden Guðs úr vorri jörð!

---

II.

Aftur að sólunni sveigir nú heimskautið kalda:
sonurinn týndur í átthagann girnist að halda.
Sólnanna sól,
sál vor er reikandi hjól,
snú þú oss, Alfaðir alda.

Móðir vor jörð, þú sem myrkrið og helkuldinn þjáir,
mun þér ei lengjast, að aftur þitt brúðarskart sjáir?
Er þá ei von,
útlægi himinsins son,
Guðs-mynd og Guðs-náð þú þráir?

Flýt þér, ó hnöttur, að fjörgjafa þínum að snúa;
flýt þér, ó jörð, þig með skínandi klæðnaði búa. —
En þú, mín önd,
undir Guðs lífgandi hönd,
flýt þér að tilbiðja og trúa·

Áfram með sólunni; yngjast skal veröldin kalda;
áfram til Guðs-ríkis; látum ei myrkrin oss halda.
Sólnanna sól,
sértu vort lifandi skjól.
Dýrð sé þér, Alfaðir alda!

---

## JÓLASÁLMUR.

Ég vil með þér, Jesús, fæðast,
ég vil þiggja líf og sátt;
ég vil feginn fátækt klæðast,
frelsari' minn, og eiga bágt.
Ég vil með þér, Jesús, fræðast;
ég er barn og kann svo fátt.

Ég vil með þér, Jesús, dafna
jafnt að náð og vizku-gnótt;
eigingirni heimsins hafna,
helga Guði vit og þrótt,
eftir mætti saman safna
sannleiks-auði dag og nótt.

Ég vil með þér, Jesús, stríða,
ég vil finna týndan sauð.
Ég vil lækna sár, er svíða,
seðja þann, sem vantar brauð;
ég vil með þér líka líða,
lausnarinn góði, kross og nauð.

Ég vil með þér, Jesús, deyja.
Ég? — Ó hvað er alt mitt hrós? —
Æ, ég vil mig bljúgur beygja,
breyzk og kalin vetrar-rós.
Ég vil með þér, Jesús, þreyja,
ég er strá, en þú ert ljós.

---

## TIL SÉRA BJARNAR Í LAUFÁSI.

**Úr bréfi.**

**(Skáldið sigldi í björtu veðri, gegnum hafís, fram hjá Laufási á Uppstigningardag 1878. Sama dag nokkrum árum áður misti séra Björn dóttur sína Svöfu.)**

Það var fögur sjón með sorg,
sveif eg fram hjá þinni borg;
undir: hvítur íssins nár,
yfir: himinn gleði-blár.

Þá í sannleik sál mín ör
sá og þekti beggja kjör,

Drottins hendi skýrri skráð
skarpt á himin, sæ og láð.

Okkar veiku *von* eg sá,
völlinn þinn er horfði' eg á,
en hjartans þunna helgiskurn
hvítur sýndi kirkju-turn.

Brosti snotri bærinn þinn
beint við háa Laufásinn. –
Ó, hve mannsins bernsku-brall
ber þó lágt við tímans fjall!

Þá var aðra sjón að sjá:
sá eg Unnar glaða brá. –
Bláa skuggsjá himins há,
hátíðleg og þó svo flá!

Bjart var, Rán, það brúðar-lín,
brjóstin köld sem huldi þín;
ístjöld þau eg þekti vel,
þau voru' öll frá gömlu Hel.

Já, í hafíss sollnum sjá
sá ég glögt þig, veröld flá,
lá þar undir bana-blá
bláköld Hel með hvítan ná!

Þá eg horfði hauðri frá,
háa dýrð mitt auga sá;

sá eg Drottins sólar-brá
sjá og fold með gulli slá.

Heyrði sál mín sigur-slag:
Sjá! Þann Uppstigningardag
svæfði hjartans sorgar-brag
*Svafa* þín, — hún sló það lag.

---

## BÆNIN.

(Úr bréfi).

Enginn vani, ekkert verk
er sem bænin hrein og sterk
dýrmætt hér í heimi.
Gleymdu aldrei þessu, þú,
því sú tíð, sem líður nú,
öll er öfugstreymi.

---

## HÁTT EG KALLA.

Hátt eg kalla, —
hæðir fjalla,
hrópið með til Drottins halla.

Mínum rómi,
ljóssins ljómi,
lyft þú upp að herrans dómi.

Eg vil kvaka,
eg vil vaka
alt til þess, þú vilt mig taka.
Til þín hljóður,
Guð minn góður,
græt eg, eins og barn til móður.

---

## TIL SÉRA SIGURÐAR B. SIVERTSENS.

**Er hann misti konu sína 1882.**

Harðnar nú á hólmi,
hetjan elli-prúða;
syrtir fyrir sjónum,
sér-at blindur vegu;
horfinn er hjálmurinn skæri,
höggvin áður brynja,
svo þér hneit við hjarta
heljar-vigurinn sári.

Grimmlega Föbus forðum
fletti kappann gríska,
þegar hjálm-kvikur Hektor
hersvein Akkils feldi;

hvort mun nornin níðast
nú á elli þinni
grimmilegar en guðinn
gjörði' á ungri hetju?

Eflaust svo, — ef ættir
engin vopn né hlífar,
yndislaus í elli,
utan af þessum heimi.
Gamli, hrausti hersveinn
Herrans máttar-orða,
Guð hefir gefið þér vopnin;
gleymdu þeim ei í dauða!

Haltu sem hetjan frá Bjargi
höndum um meðalkaflann
greiptum í gegnum dauðann
með Guðs-hetju krafti.
Sjá þú í gegn um sortann,
hve sólfagur brosti
brandurinn Drottins breiði
brautir langrar æfi.

Sjá þú í gegn um sortann
sigur-merkin fornu
sett mót synd og dauða
og sorgfári lífsins.
Sjá þú í gegn um sortann!
Sálu þína vermi

eilíf orð og sjónir
ódauðlegra manna!

Sjá þig í gegn um sortann
sjálfan í æsku-móði;
lofa þú Guð, sem léði
þér leiftrandi vopnin;
sástu' ei féndur falla,
fækka tár á kinnum,
bölsærð brjóstin huggast,
brosandi Guðs-menn deyja?

Sjáðu' í gegn um sortann
svipleik æfi-stunda.
Hvar er hjör og hlífar
holds og auðnu-gengis?
Flýr það alt, er Föbus
felur sig í myrkva —
flýr þegar feigðar-nornin
flettir oss lánar-skrúði.

Sérðu' ei í gegnum sortann
son þinn í heilögu ljósi?
Sérðu' eigi brosandi brúði?
Birtir þér ei fyrir augum?
Kastaðu höggnum hlífum,
hnossið er komið nærri —
nærri endir og upphaf —
eilífur Drottins faðmur!

---

# MINNI SÉRA ÓLAFS E. JOHNSENS, R. AF DBR.

Sungið í samsæti, er honum var haldið í Reykjavík 27. júlí 1884.

---

Sit heill, vor heiðurs-gestur,
þótt halli dagsins stund;
ver enn með ungum ungur,
og ern og hress í lund.

Þú sómir vel í sæti
með sjö og hálfan tug,
með beinar hetju herðar
og heilan sálar dug.

Í hverri stétt og stöðu,
við stríð sem gleðiskál,
þitt formanns rúm þú fyllir
með fjöri, þrótt og sál.

Þitt sæti vel þú varðir,
er valsinn sveif í hring,
og drósir færri firtust
hinn fríða Íslending.

Og sess þinn eins þú sæmdir,
er settist þú á knör,
þá svall með svölum bárum
þitt sækonunga-fjör.

Og sess í heiðurs húsi
þú hefir lengi prýtt,
sem fyrstur hinna fremstu
um fjarða-plássið vítt.

Þinn sess í Herrans húsi
þú hefir fylt með dáð;
þú stóðst sem kjörinn kongur,
þá kendir Drottins náð.

Á Stað er foss, sem fellur
með fjöri haust og vor,
hann syngur Ólafs sögu,
þá sól er bak við Skor.

Sit heill, vor heiðursgestur,
og hafðu fylstu þökk,
og hljóttu yndi og æru,
sem óska brjóst vor klökk.

# VI. BRÚÐKAUPS-KVÆÐI.

## JÓN ÁRNASON OG KATRÍN ÞORVALDSDÓTTIR.

1863.

---

Þá fyrstu stund er maður meyju
mæra sá,
þá fyrst kom líf og fjör og gleði
um fold og sjá.

Og fyrstu stund er Adam laut
að ungri snót,
hann lærði fyrst að hneigja höfuð
himni mót.

Og fyrstu stund er Adam seldi
Evu hönd,
sá hann sér alt í hendur lagt
um höf og lönd.

Og fyrst er Eva ástum-blíð
til Adams leit,

þá lukust upp hin ljúfu blóm
í lilju-reit.

Og fyrstu stund er byrja vann hún
blíðu-hjal,
þá hófu fuglar sætan söng
í sumardal.

Og fyrst er Eva' og Adam stigu'
í eina sæng,
hné fyrst á hauður heilög dögg
af himin-væng.

En hver fær lýst, þó hróðrar vandi
háfleyg mál,
hve himinn, fold og haf drakk Adams
hjóna-skál?

Og hver fær metið alla gleði' og
yndis-hag,
er þjóðir hlutu' af þeirri gleði'
á þennan dag?

Og ritning þá ei þurfum efa,
því að sjón
í trúar stað oss öllum eru'
in ungu hjón.

Þú, hjóna-ást, ert lands og lýða
líf og sál; –
því hefjum allir hjartans glaðir
hjóna skál!

## SÉRA JÓN BJARNASON OG LÁRA PÉTURS-DÓTTIR.

1870.

Hve satt er það, sem sagði Lúther forðum,
með sínum vörmu, drengilegu orðum
um krúsar-lög og kvæði
og kvenna bjartan hóp! –
Ó, heimsins helztu gæði,
sem himna Drottinn skóp!
gígju-ljóð, Guðs og manna yndi!
krúsar-flóð, kveik oss eld í lyndi,
krúsar-flóð!

Og þá er eftir þriðja hnossið góða,
í þúsund liðu blessan allra þjóða,
þú ljúfa mynd á láði,
þú lífsins aðalrós,
sem hjartað heitast þráði,
þú heimsins undur-ljós,
dýra mey, drotning lífs og blóma,
allir heims hörpu-strengir óma:
dýra mey!

Því sé þeim heill, er hljóta þessi gæði,
og heill sé oss, er syngjum þetta kvæði,
því hér í húsi fríðu
er hjartanlegt í kvöld:

þér, Braga-strengir blíðu,
nú blessið frú og höld —
frú og höld, hér er ást og blíða;
enn í kvöld er hér gígjan fríða,
enn í kvöld.

Og heill sé ykkur kæru brúðhjón bæði,
og barna-lán og hvers kyns auðnu gæði!
Já, heill þér, hjartkær vinur
með helgan eld í sál,
unz æfi-hrönn þín hrynur
sé hvast þíns anda stál!
Göfga mey, góð og rík í hjarta,
lýsi þér ljósið herrans bjarta,
góða mey!

---

## SKIPSTJ. MARKÚS BJARNASON OG BJÖRG JÓNSDÓTTIR.

29. okt. 1878.

Veit eg vestur í fjörðum
vasklegasta þjóð,
þar und himni hörðum
herkonunga-blóð
Hlés við galdra hvergi deyr;
rammara fólk við Rögnis þraut
reiddi aldrei geir.

Margur frækn á flæði
flutti þaðan stafn,
þar sem garð hjá græði
göfugur átti Rafn
og Kakali norður kappa dró,
þegar mesta háð var hríð
hér við land á sjó.

Þaðan byrinn beztan,
blíðri hvattur von,
fékstu vaskur vestan,
Vestfirðinga son!
Sunnan-garpar, sjáið hér
dreng, sem kann að fara' á flot
frýjulaust sem þér!

Hugsið ei, hann hræðist
hvítrjúkandi dröfn,
þótt hann njóti næðis
nú í blíðri höfn;
af sér Ránar braut hann bönd,
varð þó bundinn, viti menn,
af veikri meyjar-hönd.

Horna-stormur, hvestu; —
heil þið ungu hjón!
Hunangs-bára brestu!
Blessist þið um frón!
Stýrimaður, stýr þú skeið;

– Drottinn gaf þér beztu *Björg*
beina sigurleið!

---

## ÞORSTEINN STEFÁNSSON OG SOLVEIG GUÐLAUGSDÓTTIR.

1879.

---

Löngum fylgir skúrum skin,
skamt er góðs að bíða;
ef þú tryggan átt þér vin,
engu skaltu kvíða.
Gæzka Drottins gleði-sveig
gaf við hverju meini;
en ef *sólin* vermir *veig*,
vaxa rósir *steini.*

Lof sé þeim, sem þennan krans
þjóðum manna veitti,
þeim, sem allar álfur lands
ástar-gjöfum skreytti.
Heill sé söng og horna-teig,
heill sé mey og sveini.
Þegar ástin vígir *veig*
vaxa rósir *steini!*

Nú skal spenna horn í hönd,
hefja gleði-róma!

geymi faðir ljóss um lönd
lífsins helgidóma!
Drekkum gildan gullin-teig
göfgri mey og sveini:
lofnar *sólin* vermi *veig!*
vaxi rósir *steini!*

---

## ÁSGEIR ÁSGEIRSSON OG LAURA HOLM.

10. ágúst 1880.

---

Ríkur kongur ræður fyrir horni
regin-stór á norðurhjara lands,
það er Kári, fóstri Dumbs hinn forni,
flestum stendur ógn af veldi hans.
Engir skyldu óðul kjósa þar
utan hreystirammir víkingar.

Heiðinn jöfur hvín á segulbjargi,
hamast við sig sjálfan ár og síð,
dunar jötuns borg af gný og gargi,
geisar Rán í svartri vetrar-hríð;
björninn flýr og búri Grænlands einn
býðst því til að vera skutilsveinn.

Hreysti, kraftur, hvað er ykkar ríki?
Hel og auðn við kaldan jarðar-pól,

kæmi' ei fram í ljóssins engils líki
líknarmild og blessuð himinsól.
Þegar hún af hafi stígur blá,
hnígur kaldur jötunn strax í dá.

Þó er sagt, að síðan festu trygðir,
sjóli lands og himna-drotning fríð;
þetta sanna þessar fornu bygðir,
þykir ekki sveitin tignarfríð?
Tóman kraft má kalla voða-ljón,
kraft og mildi fegurst yndis-hjón.

Norrænt þrek er þarna sýnt á sveini;
— sjáið ættar-mark á hraustri brá!—
hlær að veðrum viðar-teinninn beini,
vantar að eins krónu stofninn á. —
Nei, frá Dana blíðum liljulund
*lilja* kom á bjartri vonar-stund.

Sveinn og mær, er samanbindið trygðir,
signi ykkur Drottins heilög náð;
sýnið, *h*versu kaldar hér um bygðir
krafturinn og mildin prýða' láð.
Aldrei hverfi ykkar lukku-sól
undir báru-fald né jökulstól!

## ETAZRÁÐ H. A. CLAUSEN OG FRÚ ÁSA CLAUSEN.

Gullbrullaups-sonnetta, 1880.

---

Á fimmtíu árum fölna gullnu hárin,
á fimmtíu árum bliknar kinnin rjóða,
á fimmtíu árum hetjan hreysti-móða
af hólmi lífsins snýr með djúpu sárin.

En elskan, gyðjan fagra, frjálsa, góða,
hin fimmtíu þolir reynslu þunguð árin,
og brosir ávalt ung í gegn um tárin
með æskublíðu. Lof sé föður þjóða!

Ó, brúðhjón, minnist, fyrir fimmtíu' árum,
hve fagurt yfir Íslands hvítu tinda
in blíða sólin greiddi gullnum hárum.

Hún var að flétta ykkar ástar-linda
úr ekta perlum, gleði' og sorgar tárum,
og fimmtíu' ára brúðkaups-krans að binda!

---

# MAGNÚS HELGASON OG STEINUNN THÓRARENSEN.

1882.

---

Að vísu hafa dagar dýrðarlegri
með Drottins hendi málað þessi fjöll,
og víst þið munið fífil ykkar fegri,
ó, foldar-blóm, um sendinn Rangárvöll;
því Sviðu-Kári, sá er herti forðum
í Sigfússona blóði hvassan hjör,
hann lifir enn með þungum Urðar-orðum,
með eldsins kraft og stormsins voða-fjör.

En loksins Kári kvongast Hildigunni
og kærleiks-rós af heiftar sprettur glóð,
og sólin blessuð endurrís af unni
með yndi' og líf og þerrar tár og blóð.
Lát vötn og storm og eld að utan hræða,
ef inni' er vörn að taka gestum mót;
þú guðleg von með vín og aflið kvæða,
þú verkar meir en eldur, járn og grjót!

Og kraftur sá, sem Kára' og Hildigunni
að kærleiks-akri gjörði brunnið frón,
hann stígur enn sem sól af sævar-grunni
og signir ykkar brautir, ungu hjón!
Og aftur skulu dagar dýrðarlegri
með Drottins hendi mála þessi fjöll,

og sjá þið skuluð fífil ykkar fegri,
þið foldar-blóm, um sendinn Rangárvöll!

---

## JÓN ÁRNASON OG SIGR. THÓRARENSEN

6. okt. 1883.

---

Hvað þýðir sá glaumur? hví þyrpist sú fjöld
að þjóðkunnu góðvinar setri?
Mun horfin öll sorg eftir saknaðan höld?
er sumar ei liðið að vetri?
Hvað meinar þitt góðfræga gesta-val,
þú göfuga snót, sem hér ræður sal? –

Að aftur sjá bjart um þinn einmana stól
í andanum fagnandi gumar;
að glaðir vér minnumst á gæzkunnar sól,
sem gjörir úr vetrinum sumar.
Hann gjörði þinn tólf-ára-vetur sem vor;
með virðing og sæmd gekstu hvert þitt spor!

Ó saknaði mæringur! sæirðu nú
yfir sal þinn og ástvini þína,
hve hlýtt og hve glaðlega heilsaðir þú,
hve hýrt mundi fjöraugað skína.
Eg sé þig í anda með skínandi skál,
eg skil og eg flyt nú þitt hjartans mál:

*„Haf þakkir og heiður, min hauklynda snót,*
*mitt höfuð þú krýndir með sóma;*
*og Guði sé lof, er svo greiddi þinn fót,*
*hann gaf þér ei friðleikann tóma.*
*Og heill ykkur börn min og hollvina fjöld,*
*og heill yfir brúðhjónin þúsundföld.*

*Mig blessaði Drottinn sem búenda vin*
*— sú blessun var titlunum hærri.*
*Ef búenda heiðurinn blessar mitt kyn,*
*eg bið ei um metorðin stærri.*
*Ó hneig því, min dóttir, þinn hýra hvarm*
*i Herrans nafni við manns þins barm!“* —

Og heill ykkur, brúðhjón! svo bergmálar alt
í brjóstum og hjörtum hér inni.
Guð himnanna blessi' ykkur heitt eins og kalt,
og helgi vort fagnaðar-minni.
Þú gleðinnar tár, og þú Guða-veig hrein,
hver glódropi breytist í óska-stein!

## EFNIS-RÖÐ.

Bls.

I. VIÐ TÍMASKIFTI, MINNISLJÓÐ, LJÓÐABRÉF.

III. KVÆÐI ALVARLEGS EFNIS.

IV. ÞÝÐINGAR.



V. ÝMISLEG KVÆÐI.

VI. BRÚÐKAUPSKVÆÐI.

## PRENTVILLUR Í II. BINDI.

Bls. 18, á miðri bls. hér viknar, les hér hitnar
- 27, í 3. er. geisla-ár, les geisla-ar
- 36, á miðri bls Hvergymli, les Hvergemli
- 57, neðarlega í 2. d. hjálmskrúfa, les hjálmskúfa
- 63, miðri bls. fjallstrindin, les fjallstrindið
- 72, efst á bls. sál op von, les sál og von
- 110, á miðri bls. hjalmað, les hjálmuð
- 112, 1. l. vinda, les Vinda (ↄ: þjóðin)
- — í 3. er. b, les blý
- 116, 3. l. a. o. í les á (höfuðbóli)
- 118, á miðri bls. settu, les setti
- 126, 4. l. a. n. því er ég, les því ég er.
- 130, á miðri bls. öldureima, les öldureina
- 134, á miðri bls. Sem, les Senn
- 141, 8. l. a. o. tár, les tál
- — 4. l. a. n. Hákon, les Hákur (Þorkell)
- 145, 8. l. a. o. barna, les barns
- 148, 5. l. a. o. raða, les raðir
- 163, 3. l. a. o. lýður, les lýði
- 166, 6. l. a. n. yðrar tungu, les yðar tungu
- 192, 3. l. a. o. offur, selt, les offurselt
- 219, á miðri bls. selengja, les sefengja
- 225, 4. l. a. o. gemona, les gemma
- 231, á miðri bls. d. fyldu þrymregin, les fylgdu þrymregin
- — á miðri bls. saga, les Skaga
- 232, efst á f. d. Hörgunni, les hörgunni
- 241, á miðri bls. hjálm og spjót, les hjálma spjót
- 244, neðarl. en stafinn, les skafinn
- 245, 4. l. a o. lífs og blóð, les líf og blóð
- 255, 2. l. a. n. f. d. manna, les mamma
- 261 efsta l. og víst, les vist
- 268, á miðri bls. unnið, les unnið þá
- — næst n. l. hnattarfræði, les og hnattar
- 270, á miðri bls. Maríuhæð, les Moriuhæð.
- 281, 5. l. a. o. mig tæri, les mér tæri
- 293, neðsta l. jötunheim, les jötun-hreim
- 296, 7. l. a. n. ég legg, les ég ligg.